Þeir ágiætu og andrijku

# Psalma Flockar,

Ut af

## Fæding, Pijnu og Upprisu vors DRottenns og HErra JEsu Christi;

Med Lærdoomsrijkre Textans Utskijringu,

Asamt

## Psalmum ut af Hugvekium D. Iohannis Gerhardi, OG Viku Psalmum.

Seliast Almennt Innbundner, 30. Fiskum.

Prentader a Hoolum i Hialltadal,
Af Petre Jonssyne.
1780.

Psalm. 96. V. 1. 2.

Synged DRottne einn nijann Saung, Synged DRottne øll Verøllden.

Synged DRottne, Lofed hanns Nafn, Boded hañs Hialpræde Dag fra Dege.

# Goodfws Lesare!

SO sem eg hefi fornumed, sijdann hier til Hoola Stools kom, ad Fyrre Partur þeirrar sijdarst þryckta Psalma Bookar, være allareidu uppgengenn, hvørn þo marger gyrnast; Þa hefe eg, til ad þiena mijnum Systkynum i DRottne, teked Prent-verked til Leigu, med Raade Stifts-Profastsens, Mag. Halfdans Einars Sonar, og upplagt enn aa ny þann Fyrra Part Psalma Book-

frægnar. Einasta er þess ad geta, ad hér eru undannfellder, Psalmar Sr. Sigurdar Ions Sonar, ad Prestshoolum, af Daglegre Idkun Gudrækneñar, so sem þeir eru ei af Almenninge brwkader; Enn i þeirra Stad eru nu innsetter Viku Psalmar, under fǫgrum og lystelegum Tonum, sem ei eru fyrr at Prent wtgengner, og vona ad Guds Bǫrnum og hanns Elskendum, verde til eins þægelegra Nota, þad þeirra Saalubiœlp aahrærer.

Vird nu þetta, Goodfws Lesare! epter þvi sem meint er, af þijnum einlægum Broodur, og Samarfa Naadareñar i Christo, sem ætijd vil finnast, þinn, minn elskulege Brooder!

Einlægur og Þenustu reidubweñ
Elskare

Hoolum i Hiallta-D.
þañ 7. Febr. 1780.
Ion Arna Son.
p. t. Hoola St. Oeconomus.

# Psalmar wt af Fædingar Historiu vors Drottins JEsu Christi.

## I. Psalmur.

### Um Skatt-Skriftena.

Ton, Allfagurt Lioos oss byrtest brædt, etc.

UPpliptu Saal mijn eina Stund, Augum Trwar vid JEsu Fund, laattu blessadan Barndoom hans, Bernsku fæda þijns innra Manns.

Mijnu samfara Maale sie, Mannvits Kraptar og Skinseme: Andleg Naadar Uppsprettan þijn, qwarte, O Drottenn! Twngu mijn.

Audmiwklega i Anda nu, eg vil Hugleida, minn JEsu, Fædingu þijna og Framferdid, Saafræde mijnu veittu Lid,

O! Hvad skyllde eg aumur hier, ihugad gieta so sem ber, Almættes Verkenn undarlig? Ofærann tu þess reikna eg mig.

Hvorsu kann Dijrdar Dæsemd þaa, daudlegur Madur skyniad faa, sem yfirgengur ofliijtenn, Engla og Manna Skilningenn?

Hialf-Verk er allt af Holldi giort, Heimsku blandad og einkis verdt, Andans Fullkomnun er til

Sanns, Ogrijpanlegi Þænka Manns.

Vid skulum, Saal mijn, Sinne og Hug, svala med Krapte og nyum Dug, vid Forþienustu Fylling þaa, sem Fæding JEsu verka maa.

Ungdooms vanmættugt Edle var, allra Mañ, og dugde ei par: JJEsu Ungdooms Edle þo, Eilijf Guddoomsens Fylling bioo.

Hvert gieta Þænkar Hiarta-Ranns, hærra floged eins syndugs Manns, enn ad grunda med Þhugun, alvijsa DRottens Raadstofun?

Engenn Saafa mæ ædre faast, ad þvi skyllder, mijn Saala, daast, helldur enn einn ad eignast þann, sem alla Hlute veita kann.

Læt eg þvi, JESU, Maaled mitt, minnast framar æ Nafned þitt: Aformed bæde og Ord, enn mijn, adstode blessud Giædskan þijn.

# TEXTENN.

Utgieck pad Bod frá Augusto, allur Heimur uñ Lønd og Sioo, skyllde lata Skattskrifa sig: Skickun þesse var Tignarlig.

Þetta so fenge Framgaang þar, ferdadest skioott sem bwenn var, sierhvør til Borgar sinnar þaa, settu Løgmaale Hlijdne tiaa.

Allt til þess Schilo auglijsist, aatte hiaa Judum (þad er vijst), Velldes Sprotenn ad vera kyrr, vitnade Jacob uñ þad fyrr.

Kom

Kom nu Uppfylling Tijmans tied, took þvi ad nælgast Hiälpræded, Gydinga Lijdur greid vann, Gialld og Skatt under Keysarann.

J Adams Falle urdum vier, Eilijfum Dauda Skattgyllder, Logmæled þessu lijsa vann, lagde Bolvan æ Syndarann.

Allur Heimurenn ætte þvi, alldrei ad verda Skullda frij, nema ef einhver giæte greidt, Giallded Daudans og Bolvan eydt.

Undergeckst JEsus Oked þad, ollum Heimenum Vægdar bad, Hlijdnennar Skylldur Gude gallt, gaf sig til þess ad borga allt.

Lijt þu, mijn Sæl, þæ sætu Nad, siælfkrafa uppþenkte DRottens Rad, hann sem alldrei Guds Boderd braut, Bolvan uppæ sig taka hlaut.

Lijtillæckade siælfann sig, Sonur Guds JEsus fyrer mig, Natturu Hroka næmann minn, noogu borgade hanns Audmyktiñ.

Fliootlega Joseph ferdast tied, Festar-Kvinnu þungadre med, Bethlehem Davids Borgar til, Bodum Keysarans giördu Skil.

Hlijdne þacknæmast Offur er, athuga, Sæl mijn, byriar þier, Skipun og Vilia Skaparans, skicka þier epter Bodum hañs.

Giættu og þess ad Gud er sæ, Gude stiftade Jordu æ, eru þad Drottens Umbods-Menn, eiga ad skipa Riettindenn.

Audmiwklega þeim hlijd og heyr, halld þig vid þad sem biooda þeir, Vallded Tignarlegt Gud þeim gaf, goodum Launum ei drag þu af.

Sua sem ad Yfirvallde vill, veita Oþock og Giolldenn ill, Bakspyrner moote Broddunum, burtskwfar DRottens Setningum.

Ef þu Hlijdnenne offra villt, Yfirbodnum, sem vel er skylldt, þægasta Gude Gialld er þad, med Goodu verdur umbunad.

Vöku-Menn þesser Velferd Lands, vaka yfir og Saalu Manns, vakande þeirra Villa gior, vaka laat DRottens Otta i þier.

Ecke er Giof hoott eiger þu, Yfirmonnum ad tolla nu, Þacklaatann Vilia greid og giallt, Gude fyrer hanns Laaned allt.

Eg vil, minn JEsu, holla hier, Hlijdne og Audmykt giallda þier, vyrdstu ad laata Vilian minn, verda i Gude fullkominn! Amen.

## 2. Psalmur.

### Um Fædingu Christi og Reisana.

Ton, Mitt Hiarta hvar til hryggest þu.

MEdann dvaldest i Davids Stad, dijrust Maria, so bar ad, Frumgietenn fædde Svein, Reifum vafde hijr og hrein, Hermer þannenn Ritningar Grein.

Hugleid þu, Saal mijn, HErranns Raad, hier um var laungu fyrerspaad, Bethlehem Sveinnenn sia

sa, koma skyllde frægur fraa, sem Foolke Drottens stioornade hiaa.

Alldrei hefur fraa Upphafi, afbrugded Drottens Trwfesti, saũordur alltijd er: Verde þvi hañs Vilie aa mier, Vonen Blessun færer med sier.

Tijme Mariu tiedur var, Tijme Mannkynsins Frelsunar, aasettur Eilijfd fraa; Þu skallt, Saal mijn, þar ad gaa, þier nam Drottenn Tijmañ ad liaa.

Attu ad brwka eins og sie, Avaxtar Goz og Leygu-Fe, sem Herrañ heimtar af þier, leingia og stytta ecke er, epterlaated Mannenum hier.

Er þad Drottens, eñ ecke þitt, Eignar-Valld-ed hann brwkar sitt, vertu ei varbwiñ, Vitiunar-Tijma þecktu þinn, þacka DRottne Velgiorning sinn.

Þenktu og lijka um þad eitt, ecke er neinum Mañe veitt, vors Guds ad vita Tijd, i Audmykt Trwar aarla og sijd, epter henne Þolgoodur bijd.

Trwfaste Gud, þaa Tijme er þiñ, Tijmañ laat eiñeñ vera minn, ad taka Myskun moot, og unna þier af Elsku-Root, audsynande Þacklætes Hoot.

Frelsarenn laattu Fæding þijn, fæda daglega i Hiarta mijn, Yndunar Avoxt þañ, ad endurfædest iñre Mañ, aa Orde DRottens forsorgest hañ.

Frumburd Syndanna Satan fyrst, sialfur fædde þaa metnadist, og Skaparans Skickun braut, Adam Bolvan af þvi hlaut, Andar Bann og Kvalanna Þraut.

Ertu Frumburdur ordenn nu, eiliifrar Nad-
ar, minn JEsu, heilagre Holldgani, Adam Bl-
essun beid af þvi, bætteft Ræd hans aptur a ny.

Þu sem riettlæatur riiker einn, Reifum klædd-
est sem ungur Sveinn, þess vegna eg þenke nu, um
Audmykt þijna, O! JEsu, eykur Glede Hiart-
anu sw.

O! Hvad margt Synda Afkvæmid, aled hef
eg og leiked vid, reifad i Briooste betst, holldlega
Þanka þar vid fest, þad var Sælar Fordiorf-
un verst.

Enn þinn blessade Ungdoomur, alleina klar og
heilagur, mijns Ungdooms Brek og Brest, afmæ-
de hreint so ecke siest, er þad Sælar Farsælden mest

Liifs Avøxt þennann lifanda, lagde i
Jøtu Maria, mirkann gaf Mioolkur
Smeck, af þvi hun æ ædra Beck, eckert
Rwm hia Giestunum fieck.

Hvar var þa JEsu Heidur þinn, hvar var þijn
eiliif Kongs Tigninn, dulenn um Myrkra Mund,
ad þu feckst ei eina Stund, annad Rwm nie vær-
are Blund?

Wijst hafder þu oll Riikdooms Ræd, riikian-
de yfir Himne og Lad, allt fra eiliifre Tijd, enn
hia þijnum eigenn Lijd, ecke gafst þier Vidtakann
blijd.

Þoott ad Framande fædest þu, Forsman og
Læging bijdst þier nu, Virdingar missa matt, i
Flijkum vafinn fyrstu Natt, hia Fienadenum

Svefn

Svefn-Værder catt.

Framande kom eg hiingad hier, Heimurenn Bwstad veitte mier, fagrann enn fallvalltann, aptur skilja ma vid hann, eins og snaudur Vegferda Mann.

Veit eg Lausnare lifer minn, leider hann mig umm siider inn, i sannhelgra Samfelag, hvar eg eiliisann Hviilldar-Dag, hafa mun og Gladværdar Hag.

Hier þegar Verolld hreckialig, herbergia vill ei lengur mig, jeg bid þig, JEsu kiær, leide mig þiin Liiknenn skiær, loks i Diirdar Tialldbwder þær!

# 3. Psalmur.

## Umm Bodskap Engelsins til Fiarhyrdaranna.

Ton, Heidrum vier Gud af Hug og Sal.

GUDspialla Mann þess gietur vel, good-er vøktu umm Nattar Þel, Hyrdarar sama Hieradei, Hiørdena geymdu wte frij, lioomande Engill liet sig sia, Leyptran Guds skein i kriingum þa, ad þeim ried miklum Otta sla.

Engellenn mæla vid þa vann: Vered ei hrædder, sagde hann, ydur til Eyrna eg [illegible] ijdann ber, Bodskap þann øllu Foolke [illegible], Endurlausnarenn er i Dag, ydur fæddur med Glede Hag, Davids Borg fieck þad Luckulag.

Ma og vera til Merkes þad, munud

þier finna i greindum Stad, Reifunum vafid Barned berst, Blundenn hefur i Stalle fest: Hugleida Sæl mijn byriar bert, Bodskapar þeß niotande ert, þar fyrer jafnan þacklæt vert.

Eins og Vatns-Strauma Uppsprettan, Ondu Daudþyrstre, svala kan, Glede Bodskapur Fiarlægad fra, færeada Sæl eins hugga mæ: J. JEsu Fæding ein hier sieft, uppsprotten Svala Lynden best, aumann Syndara hun fær hrest.

Under Rænglætes Oke hlaut, allt Mannkyn lijda særa Þraut, Obærelega sw Anaud var, orkade Straffs og Hegningar, orinagnast Sælenn af þvi ried, angrud Samvitska fylgde med, Bolfan Logmalsins grætte Gied.

En JEsus sine Elsku af, opnade DRottens Nadar Haf, fram til alls Mannkyns flutu þar, Foßarner Endurnæringar, Sæluñe er þvi Svolun skied, scfadest Hiartans Angred med, Bleßunenn allra gladde Gied.

Þegar Samvitskan mædest mijn, og Minning Glæpana eykur Pijn, JEsus þijn Nadar liwfust Lynd, lijfge mig auma Skepnukynd, Sæt mijna læt þann Fognud sa, sem færde Englenn Jordu a, Gledennar Næring giefst mier þa.

Hier nærst giore eg ad þenkia um þar, þegar ad Adam fallen var, med Angist stoorre wt a Braut, af Alldingardenum rekast hlaut, ei mætte Lijfsins eta af Tre, Engla Vardhalld þad bannade, sem Vegenn þangad vaktade.

Aptr

Aptur a moote opnast hier, Jñgangur beinn til Lijffins mier, Engell þañ Bodskap bar til sañs, Braut sie lidug til Himna = Rañs, Hyrdurum Vegeñ vijsar heim, vid skulum, Sal mijn, fylgia þeim, burt fra Veralldar Synda Seim.

Ertu, JEsu, þad edla Trie, Avexte Lijffins fær=ande, dævænt sprotted af Davids Root, dijrmæt Salnaña Heilsuboot, lattu þvi blessud Blodeñ þijn, breidast wt yfir Sareñ mijn, Andar Mein=semdenn oll þa dvijn.

Nær sem ad sterkur stofnast hier, Stormur gudlegrar Reide mier, i þijnum Skugga Skad=laus þa, Skiools og Hæles eg leita ma, vakna og sofna vil eg þar, verdur ei neitt til Skielfingar, Salena ecke sakar par.

Ef ad mig sturlar Angurs = Pijn, upp vil eg standa og leita þijn, andleg Hugsvolun epkst mier þa, i Ordenu nær þig fiña ma, Drottens Myst=unar Braud = Hws ber, blessada Lijffins Fædu mier, þetta mijn Salar Audlegd er.

Vijst er ei noog þo vake a Jord, vesællra Dr=ottens Barna Hiord, utañ þu hafer a þeim nu, Augu vakande, miñ JEsu; Salen Voku=Noott hallde hreiñ, heidrande þig a alla Grein, þad sie mijn Hiartans Unun ein, Ameñ.

# 4. Psalmur.

## Uñ Lof = Saung Englanna.

Ton, O JEsu Elsku hreinn.

Himnesker Herskarar, hier epter, so til bar, Englenum asamt þar, uppboofu Radderrnar:

Dijrd Gude tijdt i tie, tiæst i Hædenne, Fridur á Folldu sie, Foolke goodur Vilie.

Þacklæta synde sig, Sveit Engla Tignarlig, uppvekia a þad mig, athuga Sæl mijn þig.

Vera ei niñe mæt, mæta Dijrd Gude ætt, offra a allann Hætt, i Anda, Dag sem Nætt.

Jørd, Sioor og Himna Her, Heims allar Tegunder, Dijrd Guds og Hætign hier, herma daglega þier.

Alldrei so aumur Mann, Augunum reña kañ, ad mege ei merkia hañ, Mætt D Rottens fræ-bærann.

Ord Guds ef Athugar, med Augum Trwar-eñar, sied gietur Sælen þar, Sætleik hanns Mijskunar.

O asamleg Dijrden þier, D Rottenn alleina ber, enn Blygdun aumum mier, i øllu tilheyrer.

Eg sæ og einnenn sied, ad Engla Sveit boda tied, Frid a Jørd, gladvært Gied, og gooda Velþocknan med.

Adam Frid af sier braut, Ovingan Guds þvi hlaut, enn D Rottens Astar Skaut, aptur linade Þraut.

Ellijfann Frid oss fann, frelsade Syndarañ,

Son-

Soneñ hœa senda vañ, saklausañ Gud og Mann.
Allt er þvi Boled bætt, vid blijdañ Gud Mañ-kyn sætt, hañs Fridar Merked mært, Mein sær i burtu rætt.
Ofridur engeñ ma, Elskuñe O Rottens fra, skilia, nie hvijnga þa, er Þeñañ Frid treysta a.
Allt er oss veitt i Vil, vantar ei neitt þar til, JEsu þiñ Astar Jl, alldrei fyrer oss dyl.
Vier hofum fenged Frid, Fridar Hofdingiañ vid, Synda Boot, Sœlar Grid, og Sæluñar Athvarfid.
Oss hefur afrekad, eilijfann Grida-Stad, Guds Nœdar Þeler þad, þess Trwen nijtur ad.
Nœdar Stooll ordeñ er, eingieteñ Son Guds hier, hañs Skugge hlijfer mier, hvad sem til Meina ber.
Rate eg Angist i, Otraudur þangad fly, JEsu, þijn Nœd a ny, nemur burt Sorgar Sky.
Og þegar Oroolig, angrar Samvitskañ mig, Trwar-Hond helldur sig, Herra miñ fast vid þig.
Andlegann Frid eg fiñ, Fridtillest Huguriñ, Hiarta Sœlu og Siñ, sedur Guds Myskuñiñ.
Þegar Guds Grimdar Hrijd, geysade harla strijd, med Floodenu fordum Tijd, og fargade ollum Lijd
Til Fridar fieckst ei par, fannst Merke Reideñar, Vatnsflooded þegar þar, til Þurdar genged var.
Sættmaals Teikn sette þa, sialfur Gud Himnum

num ꝏ, blijda ried Blessan tiꝏ, sem bregdast alldrei mꝏ.

Þegar Gud villde vid, vora Sꝏl binda Frid, burt frꝏ hans hægre Hlid, Hiꝏlpræd er wtgenaid.

Sꝏttmꝏlann samde vel, Son Guds Emanuel, hanns blessad Blijdu‑Þel, bæter oll Rauna Jel.

Goodvilia þennann þinn, þacka eg, JEsu minn, vertu i sierhvert Sinn, Sꝏlunne velkominn! Amen.

## 5. Psalmur.

### Um Reisu‑Fiarhyrdaranna til Bethlehem.

Ton, Ef Gud er oss ei sialfur hiꝏ, etc.

ÞEgar ad Engla Sylking frijd, foor til Himens af Grundu, Hiardar Sveinar ꝏ sꝏmu Tijd, sꝏgdu med gladre Lundu: Til Bethlehem skulum gaanga greidt, og gaumgiæfa DRottenns Verked eitt, Ferdbwner strax ad Stundu.

Sem þeir koma i sagdann Stad, so vill Ritningenn greina, fundu allt eins og Engill kvad, Ungbarn og Meyu hreina, HErrans Dꝏsemdum hermdu frꝏ, hverier sem frettu Sꝏgu þꝏ, Tilburd þann undrast eina.

Vilier þu Sꝏl mijn Anda i, Endurlausnarañ skoda,

skoda, Trwar Honden fyrst þreise a þvi, þier sem DRottens Ord boda, Gaumgiæfne betre enn Offur er, Efasemd taktu burt fra þier, sijdst kann þig sw ad stoda.

Ef ad Vantrwen sinur fyrst, Filsne i Hiarta Manne, hlotnast þier ecke ad horfa a Christ, Hollded trwe eg þad banne, medan i Syndum situr kyr, seint munu opnast Nadar Dyr, rangræadum innra Manne.

Þegar JEsum ei funded fær, fyrer sier Trwen veika, grunda betur og gack þu nær, Guds Orde og hanns Sannleika, i þvi Lioosi þu lijta matt, Lausnara þinn og skoda bratt, so munt þu sijdur skeika.

Dapur er Salar Sioonen mijn, Syndanna hulenn Glyum, utann, minn JEsu, Orden þijn, audge mig Smyrslum nyum, Nyd-þeim mijn Trwar Augu a, Elskann þijn good mier hrinde fra, Vantrwar Villu-Skyum.

Byrtu Israels Foolke fieck, fagur Elld-Stoolpe umm Nætur, eitt Sky a Dagenn undanngeck, a þvi hofdu þeir Giætur, Ohulta Leid þeim vijsa vann, i Ville-Morku Tijma þann, DRottenn Myskunar mætur.

Vond Epterdæme og Illsku Sky, undann Guds Vormum ganga, afvega leidast opt af þvi, umm Eydemorku langa, Syndernar villa Sioo-ner þeim, finna ofmiog umm þennann Heim, sem vijsar a Vegenn ranga.

Elld-Stoolpinn þinna Orda mier, O JEsu! lijsi i He:me, þegar eg villtur velkest hier, so Vegenum alldrei gleyme; edur a haalum Hreckia Stig, sem Hollded leggur fyrer mig, i Þvermoodsku Þoku sveime.

Þitt liwsa Ord er Lampe vijst, og Lioos a Vege mijnum, þegar mier Byrtann þesse bijdst, med þijdum Geislum sijnum, upplioomast Saal og Sinned kallt, Syndanna Myrkur hverfur allt, af blessudum Biartleik þijnum.

Undradest Foolked Fregner þær, sem Fiar-Hyrdarar baaru, Guds Ord Maria good og skiær, geymde i Hiarta klaaru; Nær sem eg þenañ Fiarsiood finn, fagnar og leysist Hugur minn, af Eymdanna Angre saaru.

Margt þo undarlegt, Saal mijn sie, fyrer Sioonum Trwareñar, Dandsemder Guds ei draga i Hlie med Þul Faavitsku þiñar, holldlegann Skilning helldur gef, Hlijdnenne faangenn utañ Ef, O Drottenn kresst Dijrdar sinnar.

Siaa til þu hafer i Hiarta fest, Hiaalpraedes Orded blijda, laattu þier vera i Miñe mest, Myskunsemd O Drottens þijda, Rettlætes Soolen sañarlig, syndugra Lijking klædde sig, til Endurlausnar Lijdā.

Gef þu, JEsu, i Gieded mitt, Giædskunnar Lioosid biarta, O! ad eg fenge Orded þitt, iñrætt i mijnu Hiarta, so ad eg mege um ellijf Ar, af öllum Syndum hreinn og klaar, i Lijfsins Lioo-

ma skarta! Amen.

# 6. Psalmur.

## Um̄ Heimreysu Hyrdaranna og þeirra Packlæte.

Ton, Kom Ande Heilage.

Hyrdarar hielldu brætt, heim med Føgnude, swongu og herindu hætt, hærsta Lof Gude.

Sem Giædsku sina þar, siaa liet og heyra. Hier Saal mijn hlijd uppaa, med Hugskots Eyra.

Fedrunum fordum Tijd, Fyrirheit skiedu, sem nu Fagnadar frijd, fram̄koma riedu.

Laangade leinge Þiood, ad lifa næde, Tijdinđinn Glede good, og Guds Hiaalpræde.

Eins Kongar og Spaamenn, ætlndu mundu, med Augum sinum senn, siaa þaa Nijlundu.

Enn feingu ecke þo, ad siaa Christs Dagenn, af þvi Gud undanndroo, þann Audnu Hagenn.

Dijrdar=Raad Drottens þad, dult var Hofdingium, enn nu opinnberad, aumum Smælingium.

Allmiog Abraham vijst, epterlaangade, ad siaa mætte Son̄ Guds Christ, og saa med Fagnade.

J Trunne vænta vann, Visku Guds Orda, vid þad Traust villde hann, Voning skorda.

Hoog=

Hoogværd og Þelid þijdt, þocknast Guds Hiarta, Liwflætis Bragdid blijdt, betst kañ ad ſkarta.
Enn dramblaatt Hiarta hann, hatar œ Jordu, og stundum straffa vann, med Strijde hordu.
Af þvi ad utvaled, Aumingiann hefur, og Hefdar Hœsæted, hoogværum gefur.
J Læging Lausnarenn, liet sig hier finna, ei vill hanns Audmijktenn, Oflæte sinna.
Raunar nu rættest frood, Ritning Spœdooma, ad sœtækum giefenn good, Gudspiollenn hlioma.
Hyrdarar hier vid þvi, helldst kannast nœdu, trwader Audmijkt i, ad slijku gœdu.
Gladværer greiddu œ moot, Gude Þacklæte, af innra Manns Elsku Root, og Andans Kiæte.
Guds Hwse geingenn frœ, giæt þess mijn Sœla, til Ordsens þeinktu þœ, og þess Leindar-Mœla.
Hvad sem þu heyrder þar, Hiarta þitt geyme, leita Guds Losdijrdar, lastvar i Heime.
Utbijttu einnenn þœ, Ordum Guds sonnum, hvorium sem heyra mœ, Hiwum og Grønnum.
Sem annad edla Trie, i Blooma stande, andlega Avexte, af sier fœdande.
Pund Guds ei mœttu Mann, i Molldu grafa, af þvi vill allann hann, Abatann hafa.
HErrans Ord heitir þvi, Hveiti-Sœd rietta, sem Guds Barna Brioste i, best œ ad spretta.
Og færa Avoxt þann, sem alldrei rotne, þinne

Sal þarflegann, packnæmann DRottne.
Uppskera þa munt þu, þad Dijrdar Lijfed, sem endar Eymder nu, og Rauna Kijfed.
Liootum Heimleiddur fra, til Liooßens Vista, sem Gude sialfum hia, sijdan munt gista.
O Gud! Þad unn þu mier, um Eilijfd hliota, og medann mædest hier, Myskunar niota, AMEN.

# 7. Psalmur.

## Um Umskurn Christi.

Ton, Tunga mijn af Hiarta hliode.

ÞTTA Døgum epter þetta, Umskurn lijda skyllde Sveinn, og sitt Nafned ødlast rietta, epter þvi sem mællte einn, Engell fordum, i þeim Ordum, er til Meyar bodade hreinn.

Hanns var JESUS Nafned nijta, nefndt a þeirre Stundunne; Þeßa ma hreina Þijding lijta, þad er Manna Frelsare, sem Meinenn bæter, giorla grætter, Guds Utvalldra a Jordunne.

Eg vil, Sal mijn, Umskurn skara, yfervega Lausnarans, og mæla um hennar Merking klara, medur Lærdoom Sannleikans, innre Krapta i mier skapta, eble bleßud Naaden hanns.

Allt var Holld af Bloode bored, banvænt, spiallad, einkis verdt, i Illsku Forhwd Ovmskored,

Ordid Guds þad siinir bert, med Vondsku Hootum, Lifnad liootum, Logmaal broted hafde þvert.

Þessa Bolvan bijsna stranga, bar æ Herdum JEsus minn, þegar Pijnu Prauta langa, þolde af Gude forlaatinn, og þad Banned ort med Sanne, undergeckst i þetta sinn.

Hañs var Saal og Hollded bæde, hreint af Lijtum, fleckad sijdst, enn mijns er Edlis saurugt Sæde, Syndum þakid, bolvad vijst, nema eg hliooti, og nijtrar niooti, Naadar Guds fyrir J:sum Christ.

Hañ wt sijnu hellte Bloode, hier med Uñskurn Lijkamans, so i þvi mætte eg frijdu Floode, saaga Bwstad Hiarta-Rañs, og Forhwd Lasta, fraa mier kasta, sem fleckar Skrwdann iñra Manns.

Oumskored hef eg Hiarta, Huxun ranga gelme bar, og Lijkamans alla Parta, sem æfa kuña Syndernar, JESU mæte, giefeg giæte, greidt minn Hag til Betrunar.

Hvor sem Umskurn hliioota naade, hann var skylldur Logmaaled, upp ad fylla allt aa Laade, sem wtkrafde Guds Riettlæted, og saa Vande, Omælande, Ognar Straffed lagde vid.

Ert þu komenn upp ad fylla, allt Logmaaled, JEsu minn, og þann bera Angurs Kvilla, sem atti ad lijda Syndarinn, vafenn Meinum, i þier einum, Endurlausn og Hiaalp eg finn.

Sitt Riettlætis klaara Klæde, Christur hefur þier, Saal mijn, lient, uñskorenn og skijrdur bæde, Skriftenn þetta fær oss kient, so giæfi adskilia,

Gud-

Guddooms Vilia, um̃ gamla og nija Testament.

Adams gamla Edled rotna, ætte ad merkia Forhwdinn, sem i oss giorer dærleg drottna, med diarfann Vondsku Krapteun sinn, Holldsins blinda, Saureñ Synda, signud hreinsar Vatns-Lauginn.

Þa Moyses Guds Madurenn hreine, munde ei Bodord Umskurnar, Zippora hans Son med Steine, sialf Obeden sliott umskar, og Mann sinn blijda, Brwdurenn þijda, Blood-Brwdguma nefnde þar.

Lætur Drottenn Logmals Steina, Lasta Forhwd sniida af, enn JEsu miwkust Millden eina, M'nning hennar diwpt i Haf, nidursleigir, sinnst hun eigi, Forþienustan hans þad gaf.

Blood-Brwdgumenn ert þu ædstur, ordenn JEsu Christnennar, þinnar Nædar Geislenn glærstur, giefe mier Liooßed þeckingar, so Veg þinn rate, eñ vondum glate, Verkum gomlu Forhwdar, Amen.

# 8. Psalmur.

## Um̃ Nafned J E S U S.

Ton, Konung David sem kiende.

MJN Saala merk eñ fremur, mætast Nafn Lausnarans, hvar af oll Huggun kiemur, hrelldum Manne til Sanns, minstu Mynkunar hans, Frelsare sws hann heiter, Frelsun Guds

Bornum veiter, fraa Eymdum Andar Bañs.

Hugsvølun, Heilsa, Lijfed, Hiaalp og Endurlausñ frij, nemur burt Nauda Kijfed, nefnest hañ J E S U S þvi, ræder so Ritning nij, J E S U S aa Jordu borenn, J E S U S særdur umskorenn, J E S U S allt øllum i.

Nær sem eg nææ ad ræda, um̃ Nafned Skijrnar mitt, Ondu vill Angred mæda, Athæfe þecker sitt, þvi rosed hefe eg hitt, sem Gud mier heited hafde, hvort þo Skijrnenn wtkrafde, giefmier þad Christe kvitt.

Nær sem eg nææ ad tala, um̃ Nafned JESU þitt, Ondunne Ord Guds svala, uppliooomast Hiarta mitt, af þvi eg hreppe hitt, sem Gud mier heited hafde, hvørs þo Skylldan ei krafde, allt giefur Christur kvitt.

Alldrei hier einusinne, uppbyria, Saal mijn þu, Verk þitt wte eda inne, athuga þetta nu, nema i Nafne J E S U, um̃ Adstod aadur bidier, vid Ord Guds Trwnā stidier, bregdist ei Breitne sw.

A Kvolldenn, minnst þess, Madur, maatt þu ei sofna syr, ei helldur uppvaknadur, wtgaanga um̃ Hwsens Dyr, aadur en̄ andvarpir, til Guds med Orde einu, i J E S U Nafne hreinu, eg bid þar adgiætir.

Lijkamañ so ei sedier, ad Saalenn hwngrud sie, nie Hollded giaalijst gledier, med glislegu Sælgiæte, i J E S U Nææar Nafne, þier epter Þørfsum nijter, þad sem Drottenn wtbijter, af sijnu

Or

Orlæte.

Athugaverdt er annad, i þijns Lijfernes Sid, hier er berlega bañad, ad brwka JESU Nafnid, Hiegooma = Hialed vid, ad Parfleysu sijdst skal t sveria, þo satt Mæl hafer ad veria, þad sie þinn Mæte og Mid.

Atijd kann illa skarta, æ Twngu og Vorum hier, Nafned Spikarans svarta, slijkt Christnum fordast ber, Blóot illt og Bolfed hier, blijdre Guds Blessan sneider, med Bolfan Sælu deyd=er, og Afellis aflar sier.

Nær sem mig Kvelling kremur, Kross edur Angurs Præ, JEsu Christi mier kiemur, kiært Nafn i Huga þæ, mig Gud þar miñu æ, til hañs Miskunar mæne, mæddur, tæraft, græthæne, Traust hef eg allt þar æ.

Midt æ Medlætis Stundu, Mootgæangur þegar dvijn, jeg bid þig jafnañ mundu, JEsu Nafn, Sæla mijn, set fyrer Siooner þijn, Guds Son i Fætækt fæddann, fæmijtum Reifum klæddann, Hormung hladenn og Pijn.

Þitt Hiartans Andvarp eina, med Audmijkt framflytiest, æakalla, Oska og kveina, i JEsu Nafne best, þess betur bænheyrest, Soneñ fyrst Gud þier giefur, giefed med honum hefur, allt sem æligg=ur mest.

Jeg bid i JEsu Nafne, jætande Synda Pijn, gief þu eg Glæpum hafne, Gud minn, eg leita þijn, nær fallvallt Fiored dvijn, i JEsu Nafne Næda,

nær og hugga marg-þiaada, af Sorgum Sælu miin! Amen.

# 9. Psalmur.

## Um̃ Reysu Vitringanna til Jerusalem, og Spurning Herodis til Kieñimañaña.

Ton, Fader vor sem aa Himnum ert.

I Bethlehem þa boreñ var, bliidur JESUS og dvalde þar, Vitringar komu wr Austur-Att, i Jerusalem furdu bratt, epter spurdu: Hvar er nu sa, unge Konungur Judum hia?

Eina Stiørnu i Austur-heim, sem eignud verdur Konge þeim, siaalfer berlega saaum vier, siidann reysande komum hier, hann ad tilbidia hreinann nu, med helgre Bæn og rettre Trw.

Sia hvad diirdlegur Drottiñn er, þo dylest under Fatæki hier, Foolkenu boda Fæding hanns, fogur Himen-Twngl viist til sans, siinum Skapara so sem bar, Sæmd og Lotningu veita þar.

Þeink um̃ miin Saal, ad Son Guds er, sw saña Jacobs Stiarna hier, hvørs Valld og Hætign veglegar, vegsama Morgun Stiørnurnar, hanns Diirdar Auglit Himnum aa, heilager Englar jafnann sia.

Heidenna Manna Hiørtun i, hanns Nadar

Byrta lijste þvi, wr fiarlægum Londum ferdast
viist, hwer ad lijta JEsum Christ, honum gud-
legañ Heidur tiaa, heilagur Ande frædde þaa.

A Dogum þeim sem Davids Son, dijrdleg-
ur rijkte Salomon, wr Arabia vitia vañ, vegleg
Drottning ad skoda hañ, hæleita Speke hlijdde
aa, hoogvær prijsade Sælu þaa.

Davids Son JEsus þegar þar, af þijdri
Jomfrw fæddur var, wr Austurvege a hūs Fund,
audmiwker komu uñ sama Mund, Heims Spek-
ingar ad heyra og sia, hulda Guddoomsins
Vitsku þaa.

Herodes vard, þar heyrde þad, hræddur
og Foolked allt i Stad, Kiennedoom sam-
ann safna ried, so og Skriftlærdum øllum
med: Spurde: hvar skyllde fædast fws,
Frelsarenn Manna sæll JEsus?

Enn þeir svørudu aller þar: J Davids
Borg; þvi skrifad var: Bethlehem Juda
byggd ertu, Borgunum eingum minne nu,
af þier mun fædast frægur vel, Foringenn
yfir Jsrael.

Jllur Herodes Ottast vañ, af þvi hann meinte
Frelsarann, jardneskann Kongdoom kuña ad faa,
so kollsteipast yrde Volldum fraa, Spaadoom-
anna ei giætte greidt, gat sig siaalfann i Villu
leidt.

Eñ med þvi JEsus ei var þaa, openberadur
Jordu aa, til þess hañ Heimsins Tignar Skart,

tæke a sig og Skraut Ofarst, forgiefins Hræd-
slu Hiarta i, Herodes Kongur fieck af þvi.

Þitt var ei Riike af þessum Heim, þu gyrnteſt
ecke Veralldar Seim, sæte JEsu, eñ ſagder þo,
ſakfelldur fyrer Pilato: Ad þu Kongur værer
viiſt, þo Virding af þvi. hliter ſiiſt.

Það sem Herodem hrella vañ, huggar mig
aumañ Glæpa Mann, þvi Son Guds er minn
Kongur kiær, komenn af Meyu hreinn og ſkiær,
Ohræddur i þier niit eg nu, Nædar og Frelſis,
minn JEsu.

Ayndlegrar Stiettar alla ſenn, adſpyr Herodes
forvitenn, hvernenn Skrifternar hlioode þar,
um Hiingad-Komu Guds Sonar, ſo vita fenge
viiſt til ſanns, Viſſu um Fæding Lauſnarans.

Illſka og Flærd þar under bioo, athuga ſkalltu
Sal miin þo, Ordſins Þenarar eru hier, til
Uppfrædingar ſetter þier, Hiartans Einlægne haf
þar vid, hatadu Fals og Svikrædið.

Nær þiin Skinſemd ei ſkilur enn, Skriftlærda
DRottens Kiennemenn, Ordſins Þiidingu eft-
er ſpyr, ſo opnaſt mege Trwar Dyr, Lykill Vit-
ſku þeim liedur er, ſwka þeir giarnañ upp fyrer þier.

Hitt er og liika hrooplig Synd, ef hreckiafulla
Svika Mind, med Fraviitſku Skyne fegrar þu,
og falſar Chriſti Þioona nu, ſiealfur Skaparen
ſier og veit, ſoddan Vondſku i Hiarta-Reit.

Um þu mier fyrer utañ Þrett, Ord þiin, JE-
ſu, ad grunda rett, Aſtgiof og Verkan Anda þiins,

uppfrædе Skilning Hiarta mijns: Hvad sem Lifs Anda Hræring ber, heidre þitt Nafn um̃ Eilijfder! AMEN.

# 10. Psalmur.

## Um̃ Fals Rad Herodis vid Vitringana.

Ton, Nu bid eg Gud þu nader mig.

HErodes fullur Hræsne þa, heimugleg-a nam kalla a, Vitringana og villde mest, vita nær Stiarnann hefde sest, til Bethlehem þeim vijsa vann, vid þar hafde Skilmaala þann; Fared og spyried sliott ad þvi, fædda Barnenu Stadnum i.

Þier skulud segia þetta mier, þegar ad Barned funded er, so æsamt ydur ørt i Stad, eg mege koma og bidia þad: Svik og Prettvijsi i Briooste brann, bolvud Ofundenn nijste hann, under Hylmingu Audmijktar, Ulfur glepsande foolgenn var.

Underferle og Illsku Þel, alldrei kann Gude þocknast vel, fyrer hanns Sioonum sijst er leynt, Svikræde Manns og Gied Ohreint; Ioab Hreckvijsi i Hiarta bar, hulda med Skine Vinsemdar, snogglegann Bana beid af þvi, blindadur Abner Tryggdum i.

Hreint vill O Drottenn þitt Hiarta sie, honum þioonande i Elskune, þu skallt og vita ad hatar hñ,

Hræsne og Flærd, vid Nꜳungann, illa luktande ertu þa, ef þijnum Vørum geymer ꜳ, Hunanged sætt, enn innra er, Eitur faled i Briooste þier.

Jessabel Drottning Dygda snaud; diarflega Naboth svipte Aud, Judas forried med Kosse Christ, kañade Joseph Svika Lyst, Mardochæum vill hengia hꜳtt, Hamans Vielræde og Geded flꜳtt, Snøruna sialfur hreppte hann, hender þad tijdum prettvijsann.

Sꜳ sem Nꜳunga sijnum ill, Svik og Flꜳræde brugga vill, Sꜳlu viliande setur hañ, i Svika Noot og Kvala Bann, Hreckvijsra stundum Voge brast, þa bwed var ad speña fast, margur steindaudur dettur hier, i Dijke sem ødrum grafid er.

Hafi nu frijdur Frelsarenn, med Falsi vered umseteñ, i hvers Muñe ad Illsku Hoot, alldrei fundust nie Svikeñ lioot; Skyllder þu Sꜳl mijn þenkia þꜳ, þu muner klaklaust sneida hiꜳ, Veralldar illum Viela Sid, sm̃ vijs er þier a alla Hlid?

Kaleikur sꜳ sem saup hañ hier, settur verdur og tijdum þier, undañskora sig engeñ kañ, Adryckiu Skamt ad hreppa þañ, margur Ovørum verdur þvi, veiddur Svikaña Nete i, optlega Froomur falla hlaut, falsadur diwpt i Pretta Laut.

J einum Muñe Twngur tvær, Tꜳled Einfølldum smijda þær, Lof i Eyrum eñ Last ꜳ Bak, fra Lucku og Giæfu margañ rak, opt verdur þeim sem hugsar hꜳtt, Hiegooma Lofid nærsta flꜳtt, villt-

ur

tur er sia sem vill med þvi, vegsamast allra Munne i.

Herodes villde hier sem fyrst, i Helju færa Jesum Christ, frooma Vitringa bteckviis hañ, hyggst ad leida i Vanda þañ, so þeirra einlægt Aform þar, yrde Christo til Glotunar, twofalldt Vondskuñar Taaled þvi, twofolldu Hiarta geymde i.

Rædvanda Þeanka og Hiartad hreint, Herrañ gefi mier liooft og leint, flærdadum Heimsins Flærdar Sid, forda mier, JEsu, þess eg bid, iñrættu hiaa mier einlægañ, Elskn Þela vid sierhvern Mann, laat mig framgaanga falslaust hier, so fae eg Tijrdar Vist hiaa þier! Amen.

## II. Psalmur.

### Uñ Bæn og Offur Vitringanna.

Ton, Ofs laat þiñ Anda styrkia.

Vitringar blijdt nær høfdu, Herodis Rædu aa, i þeim Stad ecke tøfdu, enn leingra hielldu þaa, siaa þu, ad Stiarnan biørt og blijd, undann þeim gaanga giørde, greidde Veg heidnum Lijd.

Stadar so nema naade, nærst yfer Hws þvi, sem aadur uñ eg tiaade, inne var Barned i, glødduft Vitringar þar vid þaa, Jñgaungu ecke fresta, er þeir Stiørnuna siaa, Frelsarann finna giørdu, og frijda Meyu þar,

þar, fiellu flater a Jørdu, fwsir til Audmijktar, til-baadu þetta Barned blijdt, Gull, Myrru, gott Reykelsi, gaafu i Offur nijtt.

Laattu Guds Leidar-Stiornu, lijsa þier, Saal mijn kiær, fraa Myrkre Glæpa giörnu, gaanga skallt JEsu nær, Syndana flijdu Selskapenn, Guds Orda Byrtann blijda, betste er Leidtogenn.

Þu hefur Leid ei laanga, Lausnara ad hitta þiñ, Veg maattu greidañ gaanga, Guds i Mustere iñ, vit þu ad Hiarta þitt er þad, sem JEsus sialfur kiöre, sier fyrer Hvijlu Stad.

Eñ þu skallt ad þvi hyggia, ecke vill JEsus þar, hia Ohreinum Ösnum liggia; eru þad saurugar, Syrnder Holldsins og Glæpa Brek, þvijlijka Illsku Anda, wr þijnu Hiarta rek.

Sijdst maa Ismael erfa, Isaac frialsum med, Agar skal a burt hverfa, eins og fordum er sked; Blijdur Christur og Belial, Samneyte eckert eiga, athuga þetta skal.

Þessu nærst merkia maattu, mijn Saal, hvad þylldugt er, Guds Syne andlegt attu, Offur ad færa hier, a hreinu Altare Hiarta Ranns, þvi DRotteñ, þyggur giarnañ, Þacklæte Syndugs Manns.

Guds Syne Foorner færdu, frooder Vitringar þar, þeirra Þijdingu lærdu, þier til Uppfrædingar, allt er skrifad sem Ord Guds tiaa, Lijf og

Ande

Ande þau eru, ætijd minnstu þar aa.

Giet eg ad Gulled þijde, Guds Barna sanna Trw, Mootlæti margt þo lijde, missen ei Kraptinn sw, eins og Gulled i Ofne reynt, Trwenn ad vijsu verkar, Von og Þolgiædi hreint.

Vill mijn Trw veikiast tijdum, veitstu þad JEsu betst, þa ad slær Angurs Hrijdum, opt hefur stoorann Brest, eins og Horkveikur haalfslokiñ, ti laat þo wt af deya, Endurlausnare miñ.

Myrruñar Merking gefur, Mootkast og Anstreymid, beiskañ Smeck heilnæm hefur, Holldid tregast þar vid, illa luktande Synda Saar, af þessu Hreinsun hlioota, Heilsuboot er þad klaar.

Beiskann Bikar aa Jordu, byrlar mier Hormunginn, sicalfann hann sætann giordu, Sonur Guds JEsu minn, auktu mier Þolog trausta Trw, þegar eg kalla og kveina, Kross-þiaadum hiaalpa þu.

Reikelse hreint maa heita, hiartanleg Bænagiord, hun megnar haatt ad leita, i Hæderñar upp fraa Jord, gegnum Skyenn sier þreinger þa, i Naad og Giædsku Gede, Gud hana lijtur aa.

Hun er Ilmur aagiætur, eilijfum Drottne kiær, og reyndar Reikur sætur, sem riett til Himens nær, daglega henne offra aatt, Seal mijn af Þele þijdlt, þessu ei gleyma maatt.

Soddan Fiaarsioodu frijda, frambera skallt þu hier, fyrer Lausnarann Lijda, lætur hann þocknast sier, þetta andlega Foorna-Fie, er þu munt aptur

siidann, uppskiera i Olirdenne.

Aviisun eina fengu, i Draume Vitringar, annann Veg a burt gengu, aptur til Heimferdar: Herodes ei þad vita vann; Hanns Ræd ad eingu urdu, opt so til bera kann.

Vielræde vondra Manna, verdur til Skamar tiidt, þad sem Guds Bodord banna, blessast Illgiornum liitt, þvi Drottens Valld og riettviist Ræd, Slægd hinns Hreckviisa hindrar, Hreinlyndum veiter Ræd.

Af Hiartans Þele þiidu, þier vil eg hvert eitt Sinn, med Elsku og Astar Bliidu, offra, Lausnare minn, Saal og Liikama, so sem ber, þig bid til Packa taka, þann litla Skeink af mier! Amen.

## 12. Psalmur.

### Umm Hreinsun Mariu.

Ton, Til þiin Heilage HErra Gud.

HJER nærst, þaa Dagar Hreinsunar, hennar uppfyllast nædu, epter Løgmaale Mosis þar, Mey og Joseph þeis gædu, til Jerusalem høfdu hann, ad Hendur fela nyfæddann, DRottne, sem Skrifter skrædu.

Allt þad Karlkyns, sem vætgieck fyrst, af Liifi Mædra sinna, hærstum DRottne var helgad viist, hier umm Løgmaal ried inna,

inna, tvær skylldu offrast til þess þar, Turtil-Dwfur, sem skipad var, edur Par annad minna.

JEsus heilagur fæddest fyrst, af frijdre Jomfrw Mariu, hvers vegna Stand mitt helgadist, hlaut eg Blessan ad nyu, Lastaña Fiotrum leystest af, Lijf nytt Sælune DRottenn gaf, med Nædar Frelsi friju.

Heilog Vatns-Laugen hreinsa ried, hollðlega Fæding mijna, nyfæddum innra Manne med, mæta Nad gierde sijna, Kraptur þess rauda Christi Bloods, kom minne Sælu þa til goods, best kann þad Skart ad skijna.

Barna-Mædurnar mætti ei fyrr, Musteres Gaungu brwka, hver skyllde sitia heima kyrr, og Hreissing odlast mwka; Sialfur Gud Drottenn setia ried, Sængur Kvinnum þad Takmarked; nær Offur ætti ad lwka.

Þær um tilteked Tijma Skeid, teliast Ohreinar ættu, æminntu Logmæls Ordenn greid, Edses Saurgunar Hættu, fyrer Gude þo voru vijst, velþockadar, og bræst þad sijdst, Sæl mijn þad merkia mætti.

Evu var fordum ævijsad, epter sitt Falled Fiæda, sijn skyllde Born (og satt er þad) med Soott og Harme fæda; Athæsis hennar allt þar fra, adrar giallda, sem Von er æ: Helg var sw HErranns Ræda.

Aptur Maria frijdann fann, Fognud andlegra Giæda,

Giæda, Engell bar henne Bodskap þann, Barn eitt hun skylldε fæda, Afkvæmes hennar allt þar fra, adrar niooτa sem Von er a: Good er sü Glede Ræda.

Til Brenne-Foornar Ung-Lamb eitt, attu þær fram ad bera, ein Dwfa, so sem sagt var greidt, Synd-Offur skyllde vera, enn ef Lambed var ecke ad fa, annar Dwfu-Ungenn brendest þa, Logmals Ord lioost þad giora.

Mariu Þorf var ecke a, Offur Hreinsunar giallda, af þvi ad hennar Son var sa, Son Guds um Allder Allda, sem til Hreinsunar holldligs Manns, hellte wt Bloode Lijkamans, þad hann leid Krossenn kallda.

Eñ til þess Logmaal uppfyllτest, epter Logmaale kiede, helgrar Mariu Hreinsun betst, af Hiartans Elsku Gede, soddann Velgiornings minnτest med, sem Mÿskun DRottens veita ried, i ædstu Andans Glede.

Foornar-Lamb giordest Frelsarenn, fyrer oss Dauda seka, afþvode Synda Saurendenn, sette wt Borgun freka, þegar hann sælum Sigre med, Satans dempade Ofrljked, sem vora Saal villde fleka.

Hugleid þu Dæmeñ Dygda frood, daglega Saal mijn kiæra, Bornenn eru Guds Gaafann good, Gott skalltu honum færa, Offur, fyrer þitt Afkvæmed, er þad Packlæte og Lofgiord med, gofga hanns Giædsku skiæra.

Barn

Barn þitt til JEsum ber þu hier, Blessun so hreppa meige, hann vill ei annad þiggia af þier, þetta lꜳt bregdast eige, þad sem Gud sialfur gaf þiernu, giefa skallt honum aptur þu, af Hiarta ꜳ hvorium Dege.

Legg þu ꜳ JEsu blessad Brioost, Barn þitt i Æsku sinne, Sannleik Guds Orda lꜳt þvi lioost, lijda alldrei ur Minne, heilnæma mun þad hreppa þa, Hamingiu og Farsælld Jordu ꜳ, enn allt gott i Eilijfdenne.

O JESU Guddooms Giædskan trw, giæt ad Andvarpe mijnu: bid eg grꜳtande Born mijn þu, berer i Hiarta þijnu, liootann so fordest Lasta Keim, til Lijffins sijdann færest heim, frꜳ Daudans dapre Pijnu! Amen.

# 13. Psalmur.

## Uñ hinn gudhrædda Simeonem.

Ton, JEsu Christe þig kalla eg ꜳ.

SJA þu i Jerusalem var, Simeon gamall Madur, gudhræddur lifde þesse þar, þioon Drottens riettskickadur, epter Jsraels Huggun hann, hvørn Dag so vænta nꜳde, og giørla gꜳde, þess sen Gud Heime heita vann; og heiløg Ritning uñspꜳde.

Af Anda Guds var andsvarad, ei skyllde Daudann kanna, fyrr enn med Sioonum

 sꜳe-

sæe þad, sæta Hiaalprædeð Manna, Avijsun fieck i Anda þar, inn i Mustered gaunga, og Føgnud faunga, hvar J E S U frijder Forelldrar, frømdu Bænagiørd launga.

O! hvørsu Gude giedfelldt er, gott og loflegt Sidferde, i Herrans Otta hegda sier, helgur Simeon giørde, þolennmoodur so þreyð vann, þar til hann fieck að lijta, þa Náð Guðs nijta, sem i Christo af Hædum hann, Heimenum wt ried bijta.

Hiarta Riett-Christens heita mà, heilags Anda Bwstaður, happadriwgur og sæll er sa, sem hann herbergiar glaður; hvørium sem gooður Guð er með, gott allt veitest þeim sama, með Frægð og Frama, æstfoolgeð Drottenns Giædsku-Geð, geymer Saal og Lijkama.

Athæfeð froomt og auðmiwkt Þel, Umbun dijrmæta hrepper, lijtelaatum Guð launar vel, i Læging dramblaatum slepper, Augu trwadra i Anda sia, Endurlausnarann sæta, og Mýskun mæta, Huggun blijða i Heime fa, og Himnum Dijrð ægiæta.

Simeon Lijfsins Gøtu geck, Guðs Anda Leidsøgn fylgde, með Lijkamans Augum lijta fieck, Lausnarans sætu Millde: Hvørn Dag Saala mijn hlotnast þier, Herrans Auglit að skoða, sem blessuð boða, Orð Guðs trwuðum øllum hier, til eilijfs Lijfs þau stoða.

Ei kann eg Holldsins Augum með, Astvinu Drott-

Drottens lijta, fær þo i Trwnne Sæl mijn fied, hanns Sonar Giædsku nijka, þesse dijrmætust Sæalar Sioon, sorgande gledur Hiarta, med Bÿrtu biarta, i Augsÿn Drottens, er mijn Boon, eg mætte fagurt skarta.

A mijnum Trwar-Ormum hier, eg vil þig JEsu bera, breid þu þinn Fadm a mote mier, mun eg þa hoolpenn vera, unn mier ad sia i Anda þig, adur enn dey eg hiedann, og mest a medann, þar til um̃ Arenn eilijflig, med Augum sæ þig siedann.

Sælann maa kalla Simeon, þa Son Guds lijta naade, hæ-alldradur med Holldsins Sioon, hvar epter leinge þraade, riettlaatur, JEsu Riett-lætid, reiknade i mesta Gillde, og vijst sier villde, i helgre Trw þar hallda vid, hreinum Guds Ordum filgde.

Miklu sællre maa segia þaa, Sæl mijn, þess skallt þu giæta, sem med Augunum ecke sia, enn Guds Hiaalpræded mæta, med Trwar Hende taka ad sier, treystande DRottne einum, af Huga hreinum, soddann Athæfe sæmer og ber, sonnum Christs Læresveinum.

Þegar Stephanus Stein-Kast vid, stodugur uppgaf Anda, sa hann Gude a hægre Hlid, Herrann vorn JEsum standa, gladvær af þeirre Sælu-Sioon, signadann hrepte Dauda, med Trw Otrauda, leid so viliugur Lijfsens Tioon, leystur fra Sorgum Nauda.

Ef þu a JEsu Auga-Stad, Ond miin i Trwnne hefur, þoott Heled kome Hondum ad, Hrædsla þig eingen kiefur, Okviidenn mættu eflaust þa, i Gude burtu deya, og þolug þreya, Heimsens Adkast og þwnga Þrá, þig lættu alldrei begia.

Þegar eg Daudans Angist i, ormagna hlijt ad kveina, Styrk þinn JEsu i Strijde þvi, stadfastann læt mig reyna. Hiartans Augum þig horfe a, Himenenn openn stande, so Lijfs a Lande, Hiælprædes meige eg Hofnum na, hærstann Gud vegsamande, Amen.

## 14. Psalmur.

### Um Lofsaung Simeonis.

Ton, Fader a Himna-Hæd.

Simeon Sveinenn þann, seger Gudspialla-Mann: A sijna Arma lagde, einn Gud priisade og sagde:

Nu lættu Þioonenn þinn, þijdaste Drottenn minn, hiedann i Fride fara, fra Heimsens Glæpa Skara.

Af þvi ad Augum med, eg sa þitt Hiælpræded, er þu øllum tilreidder, i Augsijn Piooda framleidder.

Lijd heidnum lioomar þar, Lioos til Uppbyrtingar, og Guds andlegrar Hyrdar, Israels Piood til Dijrdar.

Saung,

Saung gladur Simeon, sannreyndur Drottins Þioon, fagraun Dikt Sælu sinne, set þad mijn Ond i Minne.

Frid-Land ad hafa hier, Heimureñ bañar mier, Mootkast og Ovilld eina, optlega hlijt eg reyna.

Verolld mæ reiknast riett, Reysu-Tiglldbwd Oþiett, æ hana Hreggenn hrynia, Hret-Bydreun yfer dynia.

J hana aller hier, inngæanga hliootum vier, strax æ ondverdum Alldre, med Eymd og Þiænning margfalldre.

Vor er ad vijsu laung, Vegferdar Reysan straung, æleides Odt æn Tafar, æfram holldum til Grafar.

Hrepper þar Hvijlldar-Stad, Hollded vort ærmagnad, æ medann sætt þad sefur, Sælenn vijst Fridland hefur.

A Himnum Hvijlld og Roo, henne vor JEsus bioo, i allskins Epterlæte, Unun og Dijrdar Kiæte.

Vilier þu fagra sæ, Fridar-Vist Gude hiæ, Sæl mijn, Simeons Dæme, set þier med Lærdooms-Name.

Fridsamenn fieck hann Deyd, fyrst hann trwadur beid, ç ter Frelsarans Funde, fagnande þar vid unde.

Fridsamann Afgæang enn, aller hlioota þeir Menn, sem Frid og Froomleik stunda, fram til sijdurstu Blunda.

O! hvorsu sæll er sæ, sem svikulum Heime frææ

 i Fride

i Fride fær ad gånga, frials vid Armædu strånga.

Mijn Sæl skal þad merkia ber, hvad mætur Simeon tier, kallar hann Guds Son gooda, gladt Lioos heidenna Piooda.

Forfedur vorer veſt, Verkenn Myrkranna fleſt, fromdu å fyrre Olldum, af fornum Adams Volldum.

Myrkra-Dal diwpum i, daglega geingu þvi, um Guds Ords blijda Byrtu, blindader lijtils hyrdtu.

Myrkra Børn vorum vier, villter rååfudum hier, dijrkudum Stocka og Steina, ſtigdum Skaparann hreina.

Blindader Jllſku i, ollu hofnudum þvi, sem Gud oſs ſagde fordum, i ſijnum Logmåls Ordum.

Augſijn Guds åttum frå, i ytſtu Myrkur þå, kaſtaſt um Allder Allda, Eymd ad lijda margfallda.

Edla Lioos upprann þar, upplijſte Sålernar, af Guds Håtignar Hædum, himneſkum fyllte Giædum.

Eſaias um þad, ådur ſieck predikad, i myrkvum Stad munde ſkijna, med fagra Geiſla ſina.

Lauſnarenn Lioos þad er, Liooma Guddoomſens her, Fodurſens Jmind eina, Ord Poſtulans þad greina.

Þeſse Guds Byrtan blijd, byrte upp heidenn Lijd

Lijd, biart Lioos þui ordner erum, Imynd Guds Sinar berum.

Ande Guds upptendrar, i oss Lioos Huggunar, sw Guddooms Giædskan biarta, glansar i voru Hiarta.

Sa Lioome lijser mier, þa Lijkamans Sioonen þver, Myrkur Daudans þui dvijna, dyrsir þad Saalu mijna.

Lattu þa Pioonenn þinn, þess bid eg, JEsu minn, Aundu sætlega sleppa, enn Saalena Fognud hreppa, AMEN.

# 15. Psalmur.

## Um Spadoom Simeons wt af Christo.

Ton, Skaparenn. Stiarna. HErra hreinn.

**V**Ø hanns Foreldrar undrast þar, af hønum þad sem talad var, Simeon bæde blessar nu, blijdur sagde vid Mariu Frw:

Sia þu ad þesse settur er, sumum til Falls, sem midur fer, enn til Uppreisnar ødrum sest, Israels Foolk þad reyner enn.

Er hann þad Teikn sem moote er mælt; marger sier vid hann giøra dælt, giegnum Saal þijna Sverded hier, saarlega mun og þreingia sier.

So auglioos verde allmargra, Innvortis Hugskot berlega. Giefdu mijn Saala

Gaum a ny, grandvarlega ad Efne þvi.

Undrunarlegur ollum hañ, med Undrum sendest Gud og Mañ, undrast Maria einen þar, undarlegt Raad Guds Hatignar.

Eitt er þad, Saal miin, Undraverdt, yfir þvi Spamann klagar hert, Hofud andlegrar Hyrningar, af Hwss-Byggendum forsmaad var.

Sia þu ad Ritning seger hrein, sett hefur Gud eiñ fastann Stein, til Grundvallar i Zion senn, so ad yfir hann bygge Menn.

Saal miin ad þessu hygg þu hier, Hyrningar-Steiñ sa JEsus er, merk ad a honum einum fast, Endurlausnen skal grundvallast.

Eingenn fær Grundvoll annañ lagt, eins og Postuleñ hefur sagt, helldur enn þann sem eitt siñ er, upprreystur; Þetta lesum vier.

O! Hversu græatlegt er þad þa, allmarger honum steita a, yfir hañ falla, og alldrei meir, aptur komast a Fætur þeir.

Oller þvi tijdum Vantrw verst, þo veite Gud hvad hanns er betst, verdur ad illu einu þad, ef Ogudlega er medhondlad.

Heimenum Sonenn sende Gud, sw Myskun var i forskulldud, so þeir hañ trwa eflaust a, Eilijfu Lifi skylldu na.

Gaafu ei Judar Gaum ad þvi, gengu Vondskunnar Blindleik i, Hialpræedes steittu Hellu a, hefur þad Falled skadad þa.

Veit eg ad þeirra Villan er, til Vidvorunar

skrifud mier, sicadu vel til miin Sæla nu, og Syne Guds ei hneixlest Þu.

Sonur Guds JEsus settur var, syndugum mier til Uppreisnar, Þegar eg flatur fallenn lœ, særoddum Heimsins Stigum œ.

Medal Ræningia rasa vann, sem rændtu mig Klædum særoddann, særdann lietu mig liggia Þar, lagt i Saurendum Veralldar.

Heimur, Diofullinn, Holld og Blood, helld eg væri su Illsku Pivod, er minni Hrosun olli frekt, alldrei gat eg Þadsyrri Þeckt.

Enn Guds Son JEsus er sœ Mann, sem upp mig reysa wr Saurnum vañ, Liooffens Arfskipte liet mig sœ, lifande Manna Jordu œ.

Lìwfaste Heimsins Lausnarenn, leid af Syndugum Mootmælenn, Þegar œ Jordu Þolde Pijn, og Þwnga Neyd fyrer Brotenn mijn.

Rættest Simeons Saga Þar, Sverded Mariu Hiarta skar, Þœ albloodugann sorgfull sœ, Son Guds Krossenum hœnga œ.

Andlega JEsu upp mig reis, wr Andar Hœska Sœlu leys, andlega Lofgiord eg skal hier, med Anda og Munne syngia Þier! AMEN.

# 16. Psalmur.

## Um Aunnu Spækonu.

Ton, Natturann oll og Edle Manns.

SPAkona hiet þar Anna eiin, af Assers Barna Lide, Phanuels Dootter dygg og hrein, dijrkade helga Side, hafde Sio Ar, i Hiarta klaar, hallded med Egta Manne, Meydoome frꝏ, sem Frædenn tiꝏ, fannst opt i helgum Ranne.

Vetur um Attrædt Fioora Frw, feinged hafde ad lifa, wt wr Mustere ei geck sw, um þad Lucas ried skrifa, Nootttu sem Dag, med helgum Hag, hærstum Gude þioonande, fastade tijdt, og bad migg blijdt, blessud i Eckiu Stande.

Þesse ad Stundu þangad geck, þackade DRottne einum, med Vijsdooms Anda vitnad fieck, vel af Guds Syne hreinum, til allra þar, sem eins Hugar, epter Lausnenne þrꝏdu, med Hugar Sorg, i sömu Borg: Sꝏl mijn ad þessu gꝏdu.

Skijrlijst Gude giediast vel, goodre Skickan kann vallda, HErrann ꝏlijtur Hiartans Þel, hann vill þad Endurgiallda, þad Hioonaband, er heilagt Stand, sem heidarlega er vandad, Osteckad, hreint, lioost bæde og leynt, med Losta Gyrnd ei blandad.

Einmana Stønd og Eckiudoom, opt fꝏ Guds Born ad reyna, eñ DRottens Hiꝏlpar Honden froom hugga vill þau alleina, Eckiurnar hann, ad Koda kann, Einstædings Saudum biarga, hañs Giædskan þijd, og Blessan blijd, breitt hefur so vid.

Guds Christne er Grasgardur hreinn, Guds Sonar ertu Læresveiñ, sittu þar sem hañ seger þier, sonn Hlijdne betsta Offur er, til Krossens ef hann þig kallar þar, kom þu gladvær an Moglunar.

Freisting þrwng ef þig fellur a, fordastu Einn ad vera þa, Gudhræddra Selskap gyrnstu mest, giefa þeir jafnañ Rœdeñ best: Huggun er Mañe Moñum ad, Myskun Guds hefurso tilskickad.

Hiartannlega vard Harmþrwnginn, HErrann JEsus i þetta Sinn, Hollded skalf vid þad feikna Faar, flutu i Vatne Augunn klaar. Sagde Grœtande: Saal mijn er, so allt i Daudann hrygg i mier

Hardt nær Stein-Snare fra þeim foor, fiell strax til Jardar DRottenn vor, flatur sitt blessad Andlit a, Ognarleg Kvol hann mædde þa, Hiartad bardest i Briooste heitt, bæde var Lijf og Saalen þreytt.

Samvitskan mig nu sialfann slær, sie eg þad giorla, JEsu kiær: Mijn Synd, mijn Synd, hun þiade þig, þetta allt leidstu fyrer mig. Auvi, hvad hef eg aunnur Þræll, auked þier Mædu DRottenn sæll!

Mier virdest so sem mijn Misgiord, sie meire ad Þijngd enn Himen og Jord, þvi JEsus þad Fodursens Orded er, sem allt med sijnum Krafte ber, flatur hlaut þo ad falla þar, þa fyrer mig bar hann Syndernar.

Hiartans Glede og Huggun traust, hier aïest þier

Þier, Sæal mijn, efalaust, Þad Gialld fyrer mijna Misgiord, er meira verdt enn Himen og Jord; hanns, Sorg, Skialfte og Hiartans Pijn, hiaa Gude er eilijf Kvittun mijn.

Fram Þegar JEsus fallenn var, fegurstu Bæn hann giorde Þar: Abba Fader aistkiære minn! Af mier tak Þennann Kaleikinn, Þo so sem hellst Þu sialfur villt: Sagde JEsus med Geded stillt.

Urrædenn beist er audmiwkt Gied, angrad Hiarte og Bænen med, hvenær semkiemur Hörmung ad, hugsa Þu Sæal mijn vel um Þad, Þolennmæde og Reglan Þver, meire Ressingar ablar sier.

O blivgur skalltu alldrei neitt, utheimta hvad Þu gyrnest veitt, til Holldsins Muna hendtugt Þier; hugsa jafnnan ad Drotten sier, hvad Lijfi og Sæal til Lids er nu, langtum betr, enn sialfur Þu.

Eins Lijkamenn og Sæalen sie, samaudmiwktlegt i Bænenne, allijtur Drottenn ijra hitt, er ad sijdur skal Holldet Þitt, fyrer Gud med Blygdun ganga fram; Giorde so fordum Abraham.

JEsu! Þijn grætleg Grasgards Pijn, gledur orÞiada Sæalu mijn, Þitt Hiartans Angur Hiartad mitt, fra Hrygd og Mædu giorde kvitt, Þvi skal mijns Hiartans Hiarta Pel, heidra Þig, minn Emanuel.

## 3. Psalmur.

# Uñ Herrañs Christi Dauda-Strijd.

Med sama Lag.

SENN vil eg Saal mijn uppa ny, Upphaf taka a Maale þvi: Uppstood Jesus, þo þreyttur sie, Prísvarsiñum fra Bæneñe, Læresveinarner svæfu fast, St. Petur þvi awijtast.

Til og fra geck hann Þrísvar þo. Þar fieckst ei minnsta Hvijlld nie Roo, Undannfære þvi eckert fann, allstadar DRottens Reide brann, giegnum Holld, Ædar, Blood og Bein, Blosse Gudlegrar Heiptar skein.

Himna Liooſid var honum byrgt, hellst þvi af Nott var orded myrkt, Aftvina Huggun einga fañ, aller svæfu uñ Tijma þañ, Jorden var honum Ohæg eins, engeñ feckst Boot til þessa Meins.

J þessum Spegle þad sie eg, þeim sem Drottenn er reidur miog, hverke verdur til Huggunnar, Himen, Lioos, Jord nie Skepnurnar; An Guds Naadar er allt uñ kring, Eymd, Mæda, Kvol og Fordæming.

Framar siest hier, hvad fárleg sie, Fordæmdra Kvol i Helvijte, fra einne Plagu til annarar, i ytstu Myrkrum þeir rasa þar. O hvad Synden afskapleg er, allt þetta færer hun med sier!

J þridia Maata af þessu siest, þad lærdu Saal mijn allra best, Guds Reide-Elld og eilijft Faar, utslockru og lægdu Herrañs Taar, allt honum þvi til Ama var, so allt verde þier til Huggunar.

Hrygd

Hrigdar-Sporenn þijn, Herra minn, i Himnarijke mig leida inn, i Nætur-Myrkrum laa Neyd aa þier, Naadar og Dijrdar Lioos gafst mier, Vinner þier einga veittu Stod, so Vinskap fenge eg vid sannann Gud.

Þar kom loksens aa þeirre Tijd, þreytte JEsus vid Daudann Strijd. Andlaat mitt bæde og Bana-Soott, blessadest mier þaa somu Noott, Daudenn tapade, Drottenn vann, dijrdlegann Sigur gaf mier hann.

Agieck so Daudanns Afled rijkt, eckert Dæme maa finna slijkt: Allur Lijkame Lausnarans, laugadest þaa i Bloode hanns, saa Dreyra-Sveitenn dunde aa Jørd, Drottenns Pijna þvi miøg var hørd.

J Adams Brote var Bloodskulld giørd, Bølvan leidde þad yfer Jord: JEsu Blood hier til Jardar hnie, Jørden aptur so blessud sie, Avøxtur, Groode og Alldin klaar, oss verde ad Notum sierhvørt Ar.

Saarkallda Daudans Sveita-Bad, umsijder þa mier kiemur ad, saarheite Dreyra-Sveite þinn, sefe og mijke, JEsu minn; Angistar-Sveita eilijst Baal, alldrei laat snerta mijna Saal!

Mier er so Kvøl þijn minnelig, aa Morgne hvørium þa uppstend eg, fyrst eg stijg nidur Fæte aa Jord, sære eg þier Hiartanns Þackargiørd, Blood-Sveite þinn eg bid mier sie, Blessun og Vernd aa Jordunne.

Hormung þa særer Huga minn, hef eg mig strax i Grasgard þinn, Dropana tijne eg Dreyra þijns, Drottenn, i Sioodenn Hiarta mijns, þad Gialld alleina gyllder mest, hia Gude fyrer mijn Afbrot vest.

Upphafalls mesta Ofognuds, Aklogun straung og Reide Guds, bætt er, fridstillt og forlijkad, Faderenn liet sier linda þad, Sonurenn bar hanns Bræde frij, borgadest Þrællenn wt med þvi.

Þess meir sem Pijnan þreingde ad, þvi innelegar JESUS bad, heilagur Engell Himnum fra, Herrann sinn kom ad styrkia þa. Enn hefur þu hier einn Lærdoom, ydka og lær hann Saal mijn froom.

Ef hier verdur, sem opt kann skie, Undanndrattur a Hiaalpenne, bid, styn, andvarpa æ þvi meir, sem aukast vilia Harmar þeir; Fodurlegt Hiarta hefur Gud, vid hvorn sem lijdur Kross og Naud.

Sia þu, ad Engell sendur var, Syne Guds hier til Huggunar, þeir goodu Andar oss eru nær, alla Tijma þa bidium vær, helldst þa Lijfs Enda lijdum ad, Lazari Dæme sijner þad.

Heidur, Lof, Dijrd a Himne og Jord, hiartanlig Astar Þackargiord, O Drottenn JEsu, þier fætast sie, swongenn af allre Christnenne, fyrer Strijded þig þinade frekt, þad er vort Frelse æfinlegt.

# 4. Psalmur.

Sam-

# Samtal Christi vid Læresveinana.

Ton, Einn Gud Skapare allra sal.

POstula kiøre Christur prias, i Kvølenne sier ad vera hia; baud þeim vøked og bidied vijst, brædleg Freystne so grande sijst.

Strax sem JEsus um Steinsnar nær, stie fram leingra (þess giætum vær), aller sofnudu sætt med Roo, sialfur HErrann einn vakte þo.

Adur var soddan um þig spaad, aaett framkom nu Drottens Raad, þu hlaust Guds Reide-Þrwogu einn, þreittur ad troda, JEsu hreinn.

Ef eg skal ecke sofa i Synd, so er Nætturan veik og blind, um Steinsnar maattu eitt mier þaa, alldrei, minn JEsu, vijkia fraa.

Nætur-Hvijlden mijn nætturlig, noog er mier trygg, þa veit eg þig, hiaa mier vaka til Hiaalpræd-es, hvort Kvølld vil eg mier Oska þess.

Prisvar JEsus til þeirra foor, þo ad hann mædde Pijna stoor, hann bad Petrum med hriggre Lund, hiaa sier vaka um eina Stund.

Enn hann sofnade æ þvi meir, ei helldur vissu sialfer þeir, hvøriu svøradu hønum þa; Herrans Pijnu miøg jook þad aa.

Mig hefur liufur Lausnarinn, leidt inn i Raadar

Gras=Gard sinn, vakande so eg være hier, Vitne Skijrnen mijn um̃ þad ber.

Ungdooms Bernskan, (sem vonlegt var), villde mig ofmiög svæfa þar, Forelldra Hirting hoogværlig, hanns vegna kom og vakte mig.

Alldurenn þaa mier ödladest, aafiell Giaalijfes Svefnenn mest, Kiennemenn ÐRottenns komu þraatt, kolludu mig ad vakna braatt.

Fullvaxenn Gleymsku Svefnenn saar, sookte mig heim og vard miög daar, Dim̃an Heims Elsku droost ad med, dapurt vard mitt til Bænar Gied.

Þa kom Guds Anda Hræring hrein, i Hiartad mitt inn sem Lioomenn skein, enn i Heimskunne so eg svaf, sialldañ mig neitt ad slijku gaf.

Faarlega var mijn Fijslskannblind, forlaat mier JEsu þessa Synd, hvar med ad jook eg Hörmung þier, enn Hefnd og Refsing sialfum mier.

Laattu, þo alldrei leidast þier, liwfe JEsu, ad benda mier, hugse til mijn þitt Hiartad milldt, hyrtu mig lijka sem þu villt.

Vil eg nu Hiartans feigenn faa, Frelsare minn ad vaka þier hiaa, Andenn til reidu er i Stad, ofmiög Holldid forhindrar þad.

JEsus unnte med liwfre Lund, Læresveinum ad hvijla um̃ Stund. Þvi hann vorkynnte þeim og mier, þad eitt mijn blessud Huggun er.

Sijdarst allra þaa sem hann þar, Svikara

ara Lid fyrer Hende var, baud þeim: vaked og bidied best, burt er nu Værdar Tijdenn mest.

Soddann Aminning, Saala mijn, sannlega skyllde naa til þijn, so þig ei skade Svefnenn vær, Svikarenn er þier ecke fiær.

Dauden forrædur Fiored þo, fyrr enn varde, þvi margur doo, hann er i Naand þo fiæest sijst, sierhvorn Dag er hanns Ahlaup vijst.

Daudenn þa mæter dapur þier, Doomenn hefur hann epter sier, Andskotenn bijdur hvenn þar, i Baaled vill draga Saalernar.

Siaa þu vel til ad soddann Her, sofande komi ecke ad þier, i hreinne Ydran þu hvorn Dag vak, Herskruda Drottenns aa þig tak.

Bænen maa alldrei bresta þig, hvenn er Freisting ymislig, þa Lijf og Saal er lwed og þiaad, Lykell er hun ad DRottenns Naad.

Andvana Lijk til einkis neitt, er ad Sioon, Heyrn og Maale sneidt, so er aan Bænar Saalen snaud, sioonlaus, kolld, dauf og riett stein daud.

Vak þu minn JEsu, vak þu i mier, vaka lat þu mig eins i þier, Saalenn vake þa sofnar Lijf, sie hun ætijd i þinne Hlijf, Amen.

# 5. Psalmur.

## Um Gydingana Komu i Grasgardenn

Ton.

Tón, Heidrum vier Gud af Hug og Saal.

HErrann JEsus þad mæla var, Mannfiøllde kom i Gardenn þar, Judas, sa HErra sinn forried, Sveinar Prestanna og Strijds-Foolk med, Skrid-Bittur baaru, Blis og Sverd; Brouet miog wt i þessa Ferd. Um þad eg framar þenkia verd.

Verdur þad opt þa varer minnst, voveifleg Hætta hvers finst, ein Rootť er ei til Enda trigg, ad þoi aa Kvølldenn, Saal mijn, higg; hvad helldst sem kan ad koma uppaa, kioos JEsum þier ad vera hiaa, Skielfing eingenn þig skadar þa.

Enn Judas hafde adur sagt, Audkiente þeim, og so vid lagt: hvørn eg kysse, hand-taked þann, høndled med Giæsne og bindid hann. Varastu, Saal mijn, Svik og Prett, þo sijnast meigi Hylming sett, ORottenn augliost þad dæmer riett.

Enn JEsus adur allt fornam, hvad atte vid hann ad koma fram, þo gieck han sialfur þeim aa moot, þannig rædde med Riærleiks Hoot: ad hvørium leited hijngad þier? Hoopur Illmennis þannenn tier: JEsum Nadverska nefnum vier.

Jeg er hann, sagde JEsus þa: Judas sialfur stood Flockinum hiaa; øflugt var ORottenns Orded þad, aller til Jardar fiellu i Stad. Hvad hanns Ovine hrelldemest,

mest, huggar nu mijna Sæalu beist, i allre Neyd þad auglijsest.

Þa eg fell edur hrasa hier, hærstur DRottenn vill reidast mier, þa seger JEsus: Eg er hañ, sem endurleiste þarn Syndarann, med mijnu Bloode og beyskre Pijn, Bræde, Fader kiær, stilltu þijn; Eflaust er þad Afsokun mijn.

Diofull, Synd og Samvitskan ill, Sæala mijna þa kvelia vill; Eins seger JEsus: Eg em hann, sem afmaa þijna Misgiørd vañ, lijka sem Vindur liettfær Skij, laangt feyker burt og sieast ei þvi, æ mig trw þu, so ert þu frij.

Þegar mig særer Soott eda Kvol, forgleg Fa-tækt og Heimsens Bol, jeg veit þu seger: Jeg er hann, JEsus sem lækna vill og kann, Audlegd æ Himnum ættu vijst, Synd þijn og Hrigd i Glede snijst, Heimenn sigrade eg, hrædstu sijst.

A Dauda-Stund og Doomsens Tijd, DRottenn, þad skal mijn Huggun blijd, Ord þitt er sama: Eg er hann, sem inn þig leide i Himna-Rañ, Pioon minn skal vera þar eg er; þvi hefur þu JEsu losad mier, gladur eg þa i Fride fer.

Jeg sege æ moote: Jeg er hann, JEsu, sem þier af Hiarta ann, Ord þitt laat vera eins vid mig: elska eg, segdu, lijka þig. Eilijft þad Sam-tal ockar sie, uppbyriad hier æ Jordunne. Amen eg bid so skule skie! A M E N.

## 6. Psalmur.

# Um̃ Judas Koſs, og Chriſti Fangelſe

Ton, Einn Herra eg beſt ætte,

Relſarenn hvørge fliJde, Fiandmenn þa ſlaa ſenn, HErrann be'd þeirra hinn þiJde, þeim leyfde a Fætur enn. Hvørn helldſt þeir hugſe ad finna, hann ſpyr, (ſem liooſt eg giet) Jafnt ſem fyrr Judar inna: JE-SUM af Nazaret.

Eg em hann aptur ſagde, annad ſinn JEſus hatt. Læreſveinunum lagde, Liijknar-Ord þetta bradt: Ef miJn ydur lyſter leita, þa læted þeſſa frij; Bwenn var hann ad heita, Hiaalpræòes Orde þvi.

Hier af mæ heyra og ſkilia, HErranns vörs JEſu Makt, ecke gat an hanns Vilia, a hann neinn Hendur lagt. Vid mig þo Hatre hreiſe, Heiptar-Menn illgiarner, engenn kann, utann hann leyſe, eitt ſkierda Haar a mier.

Fodurnum Hiarta hliJdeny, hann gaſſt a þeirra Valld; Saal miJn, þvi ſiert Okviijdenn, ſia þitt Ohliijdnes Giallð, viliugur villde hann bæta, viiſt er þiJn Skyllda audſien, Aſt og Aud-ſveipne mæta, att þu ad leggia igien.

Judas kom ſlioott ſem kunne, kyſſande JEſum nu, mællte flaaradum Munne: Meiſtare, ſæll vert þu! HErrann Hoog-værdar-riJkur, hann ſagde: Þu miñ Vin, med Koſſe Son Mannſinns ſviJkur, SiJdſt

mun

minn þvi Hefnden lin.

Evu Munn Eplid eina, aumlega giñti uṁ Siñ, Hals-Koss þvi fieck ad reina, Frelsarinn, Muñur þinn: Blijdmælum Diøfuls bægdu, so bleckest eg ecke af þeim, Heims Hrecke lijka lægdu, Lijf mitt og Æru geym!

Audsien eru Augum þijnum, øll Viel og Laun-Svik hier, hritt þeim wr Huga mijnum, hreint skapa Gied i mier, vyrdstu mig Vin þinn kalla, verda læt Raun þar aa, Hollds Brest og Hræsne alla, hindra og rek mier fraa.

J Hættu og Haaska mikenn, hefur mig Satan leidt; O hvad opt eg verd svikenn! Ei giet eg hiaa þvi sneidt; Son Mannsins Svikum mætte, saũlega uppaa þad, Svikanna Haaskenn hætte, hiaa mier ei finde Stad.

Muñur þiñ (ad eg meina), miñest vid JEsum bert, þa Holld og Blood hañs hreina, hier fær þu Saal mijn snert. J Guds Nafne ad þier gaaðu, gef hønum ei Koss med Viel, i Trw og Jdran þig tiaadu, tilbw þitt Hiarta vel.

Þaangad þegar ad Stundu, þuste Jllræðes Lid, liwfasta Lamb Guds bundu; Loked var øllum Frid, hardsnwnum Reipum reyrdu; Raanglætes mijns hann gallt, O Rottenn i Drooma keirdu, dofnade Holldęd allt.

Judar þig, JEsu, streingdu, jeg gaf þar Efne til, Synder mijnar þier þreyngdu, þess nu eg nø-



rast

rast vil, Glæpa Bond af mier greider, og gef mier Frelsid þitt, andlegum Dofa eyder, sem æfiell Hiartad mitt.

Guds Son var gripenn Hondum, giefinn so yrde og frij, hañ reirdest hordum Bondum, hlaut eg Mykun af þvi, Fiotur þwng og Fængelsi, frekt lǽ, minn HErra, æ þier, Daudans og Diofuls Helsi, duttu þvi laus af mier.

Bid eg þijn Bondenn hordu, binde nu hvern miñ Lid, fra allskins Glæpa-Giordum, og goldum Heimsins Sid: Laus og lidugur Ande, Lijfs medann dvelst eg hier, þier sie jafnann þioonande, þessa Boon, veittu mier, Amen.

# 7. Psalmur.

## Uñ Vorn St. Peturs, og Malchus Eyra-Saar.

Ton, Giædsku Guds vier prijsum.

Lausnarans Lærefsveinar, þaa litu Atburd þann, og Juda Athafner einar, aller senn spurdu hann: Eigum vier ecke ad slaa, Ovina Sveit med Sverde? So hier ei þijngra verde. Skal mijn, hier giøra ad gaa.

Ef þu æforma villder, eitthvad sem Vande er-a, þarfleg Raad þyggia skyllder, og þig vel fyrer sia, af þvi optlega skier, sia sem er einn i Raad-

um, einn mæter Skada brædum, seint þa ad ydrast er.

Enn med þvi mannleg Vitska, i morgu nær skamt, æ allt kann ecke ad gitska, sem er þo Vandasamt; Kost þañ hinn betsta kioos: Guds Ord fær synt og sannad, hvad sie þier leyst eda bannad, þad skal þitt Leidar-Lioos.

Petur med svellu Sinne, Sverd wr Slijdrum droo, hanns træ eg Bræden briñe, og heint i Flockenn sloo, Malchus hlaut hier af Tioon, hann miste hid hægra Eyra, Hogged took ecke meira, þesse var Biskups-Þioon.

Lausnarenn liooft nam svara, Læresveinunum fyrst: Læted þessa framfara; frekast ad sinne Lyst; Petre so sagde nu, Sverds Dauda sa skal sekur, sem Sverd æn Leifses tekur, Sverd slijdra Simon þu.

Meinar þu Faderenn millde, munde ei senda hier, ef eg þess Oska villde, Engla til Fylgdar mier, fleire enn Toolf Fylkingar? Eda mun skyllt eg ecke, æsteinktann Kaleik drecke, sem mier þo settur var?

So mun uppfyllast eiga, hvad er i Ritning tiæd, og sijdann sannast mega, hvad sieft fyrer laungu spæd. So epter Sermon þann: Eyra Þioonsens æhrærde, sem ædur Petur særde, læknade ad heilu hann.

Skal miin, lærum og siaum, med sannre Hiartans Lyst, Tveñslags Sverds gloggt vid gæum, greina skal þar um fyrst. Sverd Drottens Doomareñ ber, Sverd eigeñ Hefndar añad, sem ollum verdur bannad: Þad kienner Christur hier.

Bid eg hier gloggt ad giæter, good Valldstioorn Heidarlig, Saklausañn siist þu græter, nie sialfann meider þig, vird Sverd Guds Vandlætis, Blood skalltu þvi ei banna, burtsniid þu Grein Lastanna: Merk Dæme Moysis.

Þitt Sverd, sem þitt er eiged, fyrer þijna eigeñ Sok, skal ei wr Skeidum dreged, skijr eru þar til Rok, JEsus þad bañar bert, honum er skyllt þu hliider, hoogvær umberer, lijder, þad moote þier er giort.

Ræn ei Gud siinum Rette, þoi reiknast Hefnden hanns, Valldstioorn til Verndar sette, vijda um Bygder Lands, ellegar ad þvi gaa, Sverd Drottens sem hier nefnest, sannlega a þier hefnest, Tioon þitt tvøfalldast þaa.

Malchus sem miste Eyra, merker þaa alla frij, sem Ord Guds ecke heyra, eiga þo Kost a þvi, Heyrn er þeim hægre slioo, vinstre Hlust heillre hallda, Haad og Spielne margfallda, nooggieta numed þo.

Skalka Mark matte kalla, Malchus hier fenge riett, a Guds Ovine alla, Einkeñe sliikt er sett, Ord hañs ei akta hier: Jeg bid og jafnañ segie, JEsus miñ, lattu eige, þad Merke sioast a mier.

Enn finnur þu hier framar, Frelsarans Dæmed best, Hermungar hættusamar, og honum lagt mest, sitt Trauft þo sette hann, og Guds Fodurs Gi(r)dsku rijka; gior þu pad Saal mijn lijka, ef Kroß þig henda kann.

Kvøl sijna JEsus kallar, Kaleik ogskeinktann sier; Kroß þinn og Syndir allar, eins maattu nefna hier, þvi DRottenn drack þier til, fyrer þig þa hann pijndest, so þu mijn Saal ei tijndest, gior honum giarnann Skil.

Þu maatt þig þar vid hugga, hann þecker Veikleik Manns, um̃ þarftu ecke ad ugga, Adryckiu Skamtenn hanns, vel þijn Vankvæde sier, hid stvrasta drack hann sialfur, sætare og minne enn haalfur, Skiersur er skeinktur þier.

Heipt mijna og Hefndar-Næme, hefur þu JEsu bætt, mier gafst Manngiædsku Dæme, þa Malchum sieckstu grædt; eg þarf og einnenn vid, Eyrad mitt læknad vrde, so Ord þitt heyre og virde, þijdlega þess eg bid.

Hialpa mier HErra sæle, ad hallda Kroß-Bikar minn, so mig ei undann mæli, nie mogle um̃ Vilia þinn, eg bid Almætti þitt, vorkynni minni Veiki, ef verda kann eg skeiki, hrestu þa Hiartad mitt.

## 8. Psalmur.

Predikun Christi fyrer Gydingum.

Ton, Sai friāls vid Løgmaal fæddur er.

Talade JEsus Tijma þann, til vid Ovine sijna, sem komner voru ad høndla hann: Heyrum þaa Kienning sijna.

Sem til Illvyrkia erud þier, vægeingner mig ad fanga; ædur gat eingenn meinad mier, i Mwsterinu ad ganga.

Daglega hef eg sijnt og sagt, Sannleiksins Kienning mæta; eingenn gat Hendur aa mig lagt; ættud nu þess ad giæta.

Yfer stendur nu ydar Tijd, uppfylld so Ritning verde, Myrkranna geisar Magtenn strijd. Mæla so JEsus giørde.

Liwsliude blessad Lausnarans, lijttu hier, Saal mijn kiæra, saa vill ei Dauda syndugs Manns, soddann mættu nu læra.

JEsus þeim sijnde i sannre Raun, Saalar-Heill, Naad og Frelse, Guds Syne Judar gulldu i Laun, Grimd, Hatur og Faangelse.

Fyrda þvi, Saal mijn, eingenn er, ei skallt þvi Dæme tijna, þo Verollden laune vondu þier, Velgiørd miog litla þijna.

Gydinga Dæme skynia skallt, skil þig vid Odygd slijka, Packlæte fyrer Goodgiørd giøldt, Gude og Monnum lijka.

Jeg læt mier þessu jafnframt sagt, JEsu, af Ordum þijnum, eingenn gat Hendur aa þig lagt, ad eigenn Vilia sijnum.

Þann takmarkada Tijmans Punct, tilsette

Fad-

Faderenn millde, nær þad Anaudar Oked þwngt, yfer þig gaanga skyllde.

Eins Upphaf lijka og Ending med, allrar Hormungar minnar, Fader himneske, er fyrirsied, i Forsioon Myskunar þinnar.

Þesse nu Tijmenn ydar er, Ovinum JEsus sagde, HErrans eg þetta Maaltak mier, i Munn og Hiarta lagde.

Nu stendur yfer Nædar-Tijd, Naudsyn er þess eg giætte, lijdur mig DRottens Bidlund blijd, Brot mijn so kvittast mætte.

Ef eg þa Tijd sem Gud mier gaf, gaalaus forsooma næde, DRottens Tijme þa tekur af, Tvijmælenn oll i Bræde.

Þvi leingur sem hanns Bidlund blijd, beded forgiefens hefur, þess hardare mun Heipten strijd, Hefndar þa DRottenn krefur.

Guds vegna ad þier giæt, mijn Saal, Glæpum ei leingur safna, giorum Ydran, þvi meir eñ Maal, mun vera Synd ad hafna.

J Dag vid skulum skipta um̃ skiott, skal Synd aa Flootta rekeñ; Hvor veit nema sie nu i Nott, Naaden i burtu tekenn?

Talar JEsus um̃ Myrkra Magt, merked þad Valldstioornendur, ydur skal nu i Eyra sagt: Um̃dæmed Heims tæpt stendur.

Liooſed Myrkrenn burt leider frij, med Lioſma Byrtu sinnar, varastu ad skijla Skaalkum̃ þvi, i Skugga Magtar þinnar.

Minnstu ad Myrkra Magten þver, þa Myrkur Daudans skallt kanna, i ytstu Myrkrum eingenn sier, Adgreining Hofdingianna.

Myrkre liettare er Magten þijn, minnst þess, fyrer þinn Dauda, þa DRottenns Hœtignar Dijrden skijn, hann dœmer eins rijka og snauda.

Fyrst Magt Heims er vid Myrkur lijkt, miijn Sal, hallt þier i Stille, varastu þig ad veida rijkt, og Rijkes-Manna Hylle.

DRottenn JEsu, þu Lijffsens Ljos, lijs þu Valldstioornar Monnum! So þeir sem rada yfer ofs, efleft ad Dygdum sonnum.

JEsu, þijn kallda Kvala-Stund, Kvala-Tijd af mier svipte, Guds Barna gafft mier Glede Fund, good voru þau Umskipte.

Myrkranna þreyngde Magten þier, mig so keyster wr Vanda, Kvalanna ytstu Myrkur mier, meiga þvi alldrei granda.

# 9. Psalmur.

## Um Flootta Lœresveinanna.

Ton, JEsu Christe þig kalla eg ꝛc.

PAA Lœresveinarner sau þar, sinn HErra gripenn Hondum, og hann af Foolke verstu var, vœgdarlaust reirdur Bondum: Aller sier honum flœdu fra, forlietu DRottenn hreinann, i Hœska einann. Ad soddann skul-

skulum vid, Saal mijn, gaa, siaaum hier Lærdoom heinann.

An DRottens Raada er Adstod Mañs, i eingu minnsta Gillde, saanijtt reyneſt opt Fylge hañs, er frekaſt hiaalpa skyllde; Hvor einn vill forda siaalfum sier, ef sijneſt Haaske bwenn, ad Hende sawenn, far þvi varlega, ad fallvollt er, Frænda og Vina Trweñ.

J sama Maata sier þu hier, Saal mijn, i Spegle einum, ad hryggelegar sie haattad þier, eñ Herrans Læresveinum; Þeir hofdu Leyse Lausnarans, Lijfe ad forda sijnu, fraa saarre Pijnu, nauduger mistu Naavist hañs; Nu giæt ad Raade þijnu.

Hvad opt, JEsu, þier flwde eg fraa, frekt aa moot Vilia þijnum, þa Glæpa Vegenn geck eg aa, Synndum filgiande mijnum! forskulldad hafde eg fyrer þad, Flootta-Madur ad heita, til Heliar-Reita; Enn þu vyrdteſt mier aumum ad, aptur i Myskun leita.

Enn varstu, JEsu, epter þvi, i Ovina laatenn Hondum, einn so eg være alldrei i, Eymd og Freystingum vondum, aller forlietu eignañ þig, allt so mig hugga kynne, i Mannraun minne; Eg bid: Drottenn, laat ecke mig, einsamlann nockru sinne!

Læresvein, Saal mijn, sia þu þann, sem JEsu epterfilgde, raanglaat Ungmenne rænctu hann, riett nakenn vid þau skyllde. Versnoggur Flootte betre er, enn Brædralag

 Driett-

Oriettinda, vid Selskap Synda, Avinning laat þig eingann hier, i þeirra Flocke binda.

Burt þadan JEsum færde flioótt, Flockur Illrædis Manna; Lamb Guds saklaust, þa leid ad Noott, leiddu þeir til Kvalanna, mysktunarlaus sw Medferd bræd, mier vyrdest epter Vonum, i Naatt-Myrkrunum, þeir hafa bæde hrakt og hrækt, hrunded og þiakad honum.

I Daudans Myrkrum eg dæmdur Þræll, dragast ætte til Pijnu, enn þu tookst, JEsu, Son Guds sæll, saklaus vid Straffe mijnu; Þannenn tilbiost þu Lijfsens Leid, lioomande Sealu minne, þo Lijf hier linne; Andlaats Kvölum og kalldre Neyd, kvijde eg þvi eingu Sinne.

Hroktu þvi so og hrædu þig, HErra minn, Illsku-Piooder, ad hier nu bære a Hondum mig, heilager Englar gooder; Mædu som urdu Myrkurenn þier, mæta lietu þig hordu, og Hindrun giordu, Guds Dijrdar Lioos so lijse mier, a lifande Manna Jordu.

Kvala-For, JEsu, þesse þijn, sem þa gieckstu einusinne, vere Kraptur og Vernden mijn, so Vegenn Lijfsins eg finne; Laat ecke Dioful draga mig, i Dofennleik Holldsins blinda, til Sektar og Synda, eg bid af Ast og Alwo þig, Akiefd hanns burtu ad hrinda.

## 10. Psalmur.

# Um̃ fyrsta Ransak fyrer Caipha.

Ton, Allt mitt Rad til Guds eg set.

TIL Hannas Hwsa HErrann Christ, hardrader Judar leiddu fyrst; Beysk fra eg Bond hann sære, hønum strax þadann vijsad var, Vidtekt feck ei nie Hvijlder þar, miøg so þott mæddur være.

Burt sende þvi med beyskre Pijn, bundenn Caiphæ Mæge sijn, Hannas vorn Herrann sæta; Høfud-Kiennemanns hærstu Stiett, hafde sa þetta Ared riett, Guds Logmals ætte ad giæta.

Ur Himnarijkes Hvijldar-Stad, hofdum vid, Sal mijn, forskulldad, wtreckenn vijst ad vera, eñ JEsus took nu uppa sig, Onædan þessa fyrer þig: Lof sie þeim liwsa HErra!

Hiartad bæde og Hwfed mitt, Herberge vere JEsu þitt, hia mier þigg Hvijlld hentuga, þott þu komer med Krossenn þinn, kom þu blessadur til mijn inn, fagna eg þier fegins Huga.

Caiphas hafde hier um̃ spad, hentugast munde þetta Rad, ad dæe einn fyrer alla. Embættes mællte Andenn þar, af þvi Hiartad ei visse par, Sannleik Guds sinnte valla.

Balaams Dæme eins var eitt, Andagypt slijk var hønum veitt, spaklega Twngan spade, hann hafde i Sinne Hreckia-Rad, Hiartad feck eck-

Sann

Sannleiks gaad, þvi hann Fegyrndenn þiaade.
O JEsu! laat þinn Anda hier, alldrei vijkia i burt fraa mier, leid mig Veg Lijfsins Orda, so Hiartad bæde og Maaled mitt, mikle samhuga Nafned þitt, Hollds Synd og Hræsne forda.
Til Caiphas voru komner seyn, Kienne-valldeð og Stioornar-Menn; Biskupenn þegar ad Bragde, leitar Andsvars til Lausnarans, um Læresveina og Kienning hanns; Enn JEsus aptur sagde:
Opennberlega, enn ecke leynt, i Mustere-nu kiende eg beint, hvad spyr þu mig um þetta? Kunngiøra meiga þar um þier, þeir sem Lærdoomenn heyrdu af mier, þar laattu þig leidrietta.
Giæt ad, mijn Saal, og siaadu þar, Sonur Guds under Ransak var, krafdur þad Kvollded eina; A Kvollde hvoriu þu koma skallt, Kvollds-Reikning vid þig siaalfann hallt, med Kvollds-Offurs Jdran hreina.
Þu Guds Kiennemann, þeink um þad, þar mune um sijder grennslast ad, hvornenn og hvad hier kiennder, ad Læresveinum mun lijka spurt, sem liet þitt Saaleyse villast burt; Hugsa gløggt hvar vid lender!
JEsus vill, ad þijn Kienning klaar, kroftug sie hrein og openskaar, lijk hvellum Lwdurs Hlioome, Laun-Smiadran oll og Hræsnen haal, hindrar Guds Dijrd enn viller Saal, straffast med straung-

skraungum Doome.

Vangiætslann mijn er margvijslig, Mildaste JEsu, beide eg þig, vægdu Veikleika mijnum! Forsoomun eingenn fannst hiaa þier, Fullnadar Boot þad tel eg mier, Styrk veit þu Pioonum þijnum.

Eins er hier einnig ollum riett, alvarleg Kenning fyrersett, Ord Guds elske og lære: Trwenn Jnvortes eble Gied, einardleg Jaatning lijka med, Avoxt hid Ytra fære.

Biskups Pioon einn i Bræde þo, blessadann JEsum Pwstur sloo, so þad Ritningenn seger, Hoogværlegt Andsvar HErrann gaf. Honum, Saal mijn, þad lær þu af, uñ Sakleyse þitt ei þeger.

Hvart Samvitskan Adam sloo, illann Kinnroda fieck hann þo, i fyrsta Falle sijnu: Þess vegna JEsus Hogged hast, hlaut ad lijda og rodna fast, allra fyrst i hanns Pijnu.

DRottenn JESU! Eg þacka þier, þetta leidst þu til Frelsis mier; Eg bid Astsemd þijna: Samvitsku Slogenn Svida skiæd, aa Saalu minne þu mijk og græd, burt-tak þu Blygdan mijna, AMEN.

# II. Psalmur.

## Uñ Afneitan Peturs.

Ton, Allt eins og Bloomstred eina.

Gud

GUDspialls Historian getur, gripenn þa JEsus var, aller senn utann Petur, yfirgafu hann þar, og Læresveinn einn annar maleingar gengu hlioodt, Herrans Braut Hryggdar sana, harla dimt var af Noott.

Caiphas Kiennemanne, kunnugur Læresveinn, inngeingur ørt med Sanne, wte stood Petur einn, Ambaatt upplwka beider, Okendann Petrum þa, i For-Sal til Lijdsins leider. Lærdoom hier finna maa.

Kross-Ferle ad fylgia þijnum, fijsir mig, Jesu kiær, vorkyntu Veikleik mijnum, þo verde eg Aleingdar fiær, þa Trw og Þol vill þrotna, þreinger ad Neyden vond, reis þu vid Reyrenn brotna, og riett mier þijna Hønd.

Kol-Elld, þvi kalldt var nærsta, kveikt hafde Þræla Lid, Petur med Sturlan stærsta, stood hia þeim Logann vid, Ambaatt hann ein Sprogsette, af sier þad heyra liet: Mun þesse Mann, hun frette, med JEsu af Nazareth?

Hann neitar hradt ad Bragde, hræddur vid Ordenn bist, þann sig ei þeckia sagde: Þa gool nu Hanenn fyrst; Ætlar sier wt ad rijma, ønnur Þerna hann sa, talar i annann Tijma, til þeirra er stoodu hia:

Af Nazareth nu er þesse, nijkomienn JEsu med, hinnar Gied trwe eg þad hvesse,

hver

hvør Madur spyria ried: Ert þu einn af hanns Sveinum? Enn Petur neita vann; Sagde med Eyde einum: Alldrei þeckta eg harn.

Þridia Sinn þar til løgdu, Þioonar Caiphas bert, Malfæred sumer søgdu, seger til hvør þu ert; Frænde Malchus ried mæla: Munde eg þig ecke sia, giet eg siist Grun mia tæla, i Gardenum JEsu hia?

Petur med blirgu Bragde, bradlega sagde Nei: Soor sig og saart vidlagde, soddann Mann þeckte hann ei. Gløggt þegar giørdest þetta, gool Hanenn Annad Sinn. Siist mætte Sorgum lietta, Siwt slaug i Briooßted inn.

Sæl mijn, þier Fære forda, freklega voga siist, tan Leysis Drottens Orda, Ostyrkt er Holld-ed viist; Þykest þu stødugt standa, stilla þinn Metnad þarft: Hvør sier vogar i Vanda, Von er sæ falle snart.

Adur i Allden-Garde, Ohræddur Petur var, Karlmensku Hugurenn harde, hanns sig auglijste þar; Audvird Ambatt hann hrellde, ofmiog þvi skielfast vann, fræ Sannleik sijdann fellde: Sama þig henda kann.

Kol-Ellde kveiktum jafnast, kitlande Veralldar Priæl, Þrælar Syndanna safnast, samann vid Losta Bæl, fuller med Fals og Villu. Fordast þeirra Glis; Ætijd er med þeim Illu, Einsolldum

solldum bwed Slis.

Ambeatt med ygldu Bragde, er þesse Verollð leid, morgum Mein-Snorur lagde, miog ꝏ Spott Yrdenn greid; Pijed med Prælum sijnum, Pioona Guds lastad sær. Styrk mig med Mætte þijnum, moot henne O Drottenn kiær!

Epter Afneitan eina, wt villde Petur gaa, hugde hann Braut sier beina, bwna þeim Solle fra; Þa kom ꝏtt odru verra: Umkrijngdu Prælar hann, afsoor sinn sæla HErra, sier og formæla vann.

Hægt er hverium ad stofna, i Hættu og Vanda-Spil; Forvitnes Dælskan dofna, dregur þar margann til, Ogiæfu Gilldran þraungva, greip skiott þann kunne ad na, Utkomu Von fieck einga. Ad þvi i Tijma ga.

Opt ma af Mæle þeckia, Mañeñ hvor hellst hann er. Sig mun fyrst sialfann bleckia, sa med Last-Mælge fer; Goodur af Giede-hreinu, Good-Ordur reyneſt vijst, fullur af Illu einu, Illyrdenn sparar sijst.

Hryggeleg Hrosinn hendte, heilagann Drottens Pioon, Synden miog sart hañ spente, Sâlar var bwed Tioon. Hvad mun eg Mattar naumur, meiga þa standast vid, Vangiætenn, vesæll og aumur, Vielum og Hreckia Snid?

I Veralldar Vondsku Solle, velkest eg, Jesu! hier; Falle þad opt mier olle, Ostodugt Hollded er, megnar ei mogte ad standa, mijn Hreysta nattúrlig,

ærlig, lcatru þitt Lioos og Anda, leida og styrkia mig, Amen.

## 12. Psalmur.

### Um Ydran Peturs.

Ton, Kom Andi Heilage.

PEtur þar sat i Sal, hia Sveinum inne, Tvennt hafde Hana = Gal, heyrt ad þvi Sinne.

Bwenn var Prisvar þaa, þvert hann ad neita, sier JEsum sælann fraa. Sorg maa þad heita.

DRottenn vor veik sier vid, (vissum þad gietur), liwfur med Lijknar Sid, og leit aa Petur.

Strax flaug i Huga hans, (hvad þo sisst varde), Lausnarans Ord og Ans, i Alldingarde.

Blygdadest braadt vid þad, Briooft fullt af Trega, geck wt wr greindum Stad, og græt beysklega.

Siaa þu med sannre Trw, Saal mijn Astkiæra, hvad framar hefur þu, hier af ad læra.

Hvatt galar Haneñ hier, i hvers Mañs Gede, drygdar þaa Synder sier, sem Petur skede.

Saarlega Samviskann, sekann aaklagar, innvortes aumann Mann, angrar og nagar.

Fær hañ sig frialsañ sijst, þo siñest hrelldur, sem Fugl vid Snoruing snijst, þeim Snaran helldur.

Vijkia þo vilie hann, fra Vondsku Hætte, orka þvi ecke kann, af eigenn Mætte.

Upp þo sier ætle braatt, aptur ad standa, fellur hann þegar þraatt, i þijngre Vanda.

Logmaal Guds hroopar haatt, Hana Galañad, seger og sijner þraatt, hvad sie þier bannad.

Þad þvijngar, Þrwgar med, þad slær og lemur, sorgande syndugt Gied, særer og kremur.

Þad verkar Sorg og Swt, þeim seka Mañe, hjalpar þo eingum wt, wr Synda Banne.

Hollded þar þriootskast vid, og þyker illa, eyksta þann Synda Sid, Svik, Hræsne og Villa.

Eiñ JEsu Alit skijrt, Anda Guds þijder, sa giører hægt og hijrt, Hiartad um̃ sijder.

Lætur hann Logmaal bist, lemia og hræda, efter þad fer hann fyrst, ad frida og græda.

Ord JEsu Edla sætt, er hanns Verkfære, hellst fær þad Hugann kiætt, þo hrelldur være.

Hann giefur hreina Trw, hann fallenn reysir, hañ veikañ hresser nu, hañ bundeñ leysir.

Ei er i sialfs Valld sett, [sem nockrer meina], Yfirboot, Yd[illegible]an riett, og Trwen hreina.

Hende þig Hrøsun bread, sem helgann Petur, under Guds [illegible]tu Raad, hvert ydrast gietur.

Heim[illegible] [illegible]ve[illegible]sta vijst, vid þad ad dyliast, þu muner [illegible]ier lijtst, vid Þrauter skiliast.

Ef JEsus ad þier snijr, med Astar Hoote, lijttu þa Huga hijr, honum a moote.

Graata skallt Glæpe saart, eñ Gude trwa, Elska

hanns

hanns Orded klaart, fraa Illu snwa.
Onijt er Ydran tæp, ad þvi skallt hyggia, ef þu i giordum Glæp, gyrnest ad liggia.
Petur þa formerkt fieck, Fall-Hrøsun slijka, wr Synda Salnum geck, so giørdu lijka.
O JEsu! Ad mier snw, Asioonu þinne; Siaa þu mig særdann nu, aa Saalu minne.
Þegar eg hrasa hier, hvad miøg opt sannast, bend þu i Mýskun mier, so mege eg vidkannast.
Opt lijt eg upp til þijn, Augum graatande, lijttu þvi liwft til mijn, so leysist Vande.

# 13. Psalmur.

## Um̃ Caiphas Doom.

Ton, JEsus Guds Son Eingietenn.

FOringiar Presta fengu, Fals-Vitne mørg tilsett, fwslega fram̃ ad gengu, fuller med Svik og Prett, samhliooda urdu eige, uppdiktad margt þo sege, JEsus þa þagde sliett.
Lær þu, ef Lygum mæter, Lijfs-Reglu, Saal mijn, hier, med Forsi og Þioost ei þræter: Þraalega so tilber, Hoogvær Þogn Heipter stiller, Heimsk-Ordur Sannleik spiller, opt fyrer sialfum sier.
Hyrt alldrei hvad sem gyllder, ad hætta aa Osatt Maal, hvert veria edur sækia villder, verdur



þad

þad morgum Tæl; Munnur. sa laungum lyg-
ur, fra Lucku og Blessan hniigur, hann deyder
siina Saal.

Sañleiks Vitne þo sege, sekañ mig Gude hia,
Ottast þarf eg nu eige, Assokun hef eg þa, Liwg-
Votta Lyge megna, leid JEsus minna vegna,
Klogun mig keypte fra.

Caiphas frette fyrstur, Falsklega HErr-
ann ad, sialfur: Hvert sie hann Christur?
Og so enn framar kvad; Vid sannann Gud
eg þig sære, ef Sonur hanns ertu hinn kiæ-
re, seigdu oss satt uñ þad.

JEsus jaatar ad Stundu, Jafnframt
þvi so nam tia: Son Mannsins sia þeir
mundu, sitia þadann i fra, til Kraptarens
hægre Handar, og hier epter komanda,
skiærasta Skye a.

Kenñemann reif siin Klæde, kvad sliikt
Gudlastan er: Adspyr med Ogna Bræde,
uñ þad hvad hallded þier? Allt Raaded
under teknr: Er hann viist Dauda sekur,
soddann sampyckium vier.

JEsus ei añsa hyrdte, ædur þa loged var, Guds
Nafn þo giarnañ virdte, gaf þvi Caipha Svar,
Lygd Heims þo liited sæter, Lausnarans Tæmes
giæter, leita Guds Lof-Diirdar.

Hygg ad og herm hid sanna, hvenær sem til er
reynt, hrædst ei Hootaner Mañа, hallt þiñe Jaat-
ning beint, Giæt vel ad geymer þetta, Guds Ord

og Trwna rietta, medkiendu liooft og keynt.

Caiphæ Logsogn leida, lært hafa marger enn, hvad sem Hofdingiar beida, hiner ꝍlykta señ, Vinskap sig villa lꝍta, viliande raungu jꝍta; Fordeft þad froomer Menn.

Sw er mijn Huggun sama, sem þijn var, JEsu minn, Krossenn þa ad vill ama, Ossookn og Hormung stinn, hiꝍ þinne hægre Hende, hier þo ad Lijfed ende, Fagnadar Nægd eg finn.

Pier til Gudloftun lagde, liwgande Kieñimañ, Dauda sekann þig sagde. Sañlega Urskurd þañ, ꝍtte eg ad heyra helldur, hardt med riettu sakfelldur, vijst eg noog til þess vann.

Andlegt Valld einum Roome, wrskurdar Daudann þier. Drottenn i Nꝍdar Doome, dꝍmer þvi Lijfed mier. Þacka eg Elsku þinne, þu keypter Sꝍlu minne, Frijun og Frelse hier.

# 14. Psalmur.

## Um Pioonanna Spott vid Christum.

Ton, Allfagurt Lioos oss byrtest brátt.

EPTer þann Doom sem allra fyrst, andlegꝍr dꝍmdu um Herrann Christ, hafa þeir, þviad þꝍ var Noott, þegar til Hvijldar geingꝍd skiott.

DRottenñ vor epter þreyttur þar, þrælum til Giætslu fengenn var; Giørde-ad heñ-

hønum Gis og Daar, gudlausra Manna Flockur praar.

Hædung, Spottyrde, Hroop og Bryxl, hvør liet med ødrum ganga a vijxl, hræktu og sloou Herrann þar; Hann þo a medann bundenn var.

Sia þu og skoda, Saala mijn, saklausa Lambsins beyßku Pijn: Hugsa vandlega um̃ þad allt, af þessu hvad þu læra skallt.

Hann sem ad Nætur Hvijld og Roo, hvørre Skiepnu af Myskun bioo, i sinne Ogna Eymda Stærd, eingann Kost fieck a neinne Værd.

Hvijldar-Noott marga hef eg þaad, HErra JESU! af þinne Naad, Kvol þijn Eymdum mig keypte fra, kanast eg nu vid Giædsku þa.

Nær sem eg reyne Sorg og Soott, seinast ad kiemur Daudans Noott, Nætur-Kvala sem neyddu þig, nioota laattu þa JEsu mig!

Samvitsku-Slög og Satans-Hæd, sefe, JEsu, þijn blessud Naad, Ofbod Daudans og Andlaats Pijn, aftake og mijke Giædskan þijn!

Margur, (og vijst þad maklegt er), miög þessum Skælkum formæler; Þo finnast nockrer hier i Heim, ad Hegdan allre lijker þeim.

Hvad giora þeir sem hier a Jord, hafa ad Spotte DRottens Ord, lifa i Glæpum lioost til sanns, lasta og forsmaa Pioona hanns?

Saa sem Guds Naad og Sañleikañ, sier, þecker, veit og skynia kañ, Kukl og Fiolkyngekyñer sier,

Cai-

Caiphas Præłum verre er.

Sonenn Guds ecke þecktu þeir, þvi syndga hinꝫ erlængtum meir, sem kallast vilia christner best, Christum þo lasta allra mest.

Hræsnarar þeir sem Hrecke og Synd, hylia þo under Froomleiks Mynd, lijkiast þessum sem Lausnarann, lomdu blindande og spiodu hann.

Hvorium sem Spott og Hædne er kiær, hann geingur þessum Selskap nær, Forsmæin gudræckenns saklæks Manns, Fyrerlitning er Skaparans.

O vesæll Madur! ad þvi gæ, epter mun koma Tijme sa, sama hvad nidur sader hier, sialfur ann Efa upp þu sker.

Ef hier a Jordu er Hroop og Hæd, Hædne og Gudlast nidur sæd, uppskored verdur eilijst Spie, Agg og Forsmæn i Helvijte.

Ætla þu ecke, aumur Mann! afkomast mune strafflaust hann, sem Sonenn hefur hier hædt og spiad, horfe Faderenn uppa þad.

Hvad JEsus nu um Nætur-Skeid, naudsꝫ staddur hier af Monnum leid, Ogudlegur um Eiꝫ lijfd þa, af illum Dioflum lijda ma.

Okiendum þier, þo aumur sie, alldrei tillegg þu Hæd nie Spie, þu veist ei hvorn þu hitter þar helldur enn þesser Gydingar.

Sæalfann slær mig nu Hiartad hart, hef eg ann Efa mikenn Part, af soddann Illsku astundad, audmiwklega eg medgeing þad.

Saad hef eg nidur Synda-Root, Svijvirding mijn er mørg og lioot, Uppskieru Tiimann Ottast eg, angrast þvi Saalen nærsta mieg.

HErra minn JEsu! Hormung þ jn, Huggun er bæde og Lækning mijn, Sakleyse vijst þu saader hier, Sælunnar Avøxt gafstu mier.

Blood-Dropar þijner blessad Saad, ber þann Avøxt, sem heiter Naad; Þann sama Gud mier sialfur gaf, Saaluhialp mijn þar sprettur af.

Hæddur varstu til Heidurs mier, Hegg þijn og Slog mijn Lækning er, alldrei mun Dioful eiga Valld, at mig ad leggia Synda Gialld.

Enn þier til Heidurs aptur at moot, ydrast vil eg og giora Boot, Hallds Vilia giarnann hepta minn: Hialpe mier JEsu Kraptur þinn!

# 15. Psalmur.

## Umm Raadstefnu Prestana yfer Christo.

Ton, Christe er Koma fyrer Hondum.

Miog arla uppe voru, Olldungar Juda senn, so til Samfundar fooru, fyrster þo Kiennemenn, i Raadslag lietu leidast, (lijkar þad ollum vel,) hvørnenn þeir giæte greidast, Guds Syne komed i Hel.

Heimtu med Heiptar-Lundu, HErrann vorn til sijn bratt, Ordsøk þvi einga fundu, aller senn mælltu hatt: Seg oss ef ert

ert þu Christur, einaste Son Guds sat. Grædarenn Giædsku lystur, gaf Andsvar þar uppa:

Þo ydur eg þad sege, ecke samt trwed þier, andsvared mier og eige, ef eg spyr nockurs hier; Mannsens Son sitied sitia, senn hia Guds hægre Hlid, i Skye mun einnenn vitia, aptur med Dijrdar Sid.

Ertu Guds Son, þeir sögdu? Svarade DRottenn: Ja. Diarfer þann Doom a lögdu: Dauda-Madur er sa. Uppstoodu strax ad Stundn, Strijd þeim i Hiarta brann, Frelsarann Fiøtrum bundu, færdu Pilato hann.

Hier mattu Saal mijn sanna, so geingur þad til vijst, Astundan Illvyrkianna, Umhyggiu vantar sijst, arla þeir Blunde bregda, binda fast oll sijn Raad, klooklega Hreckium hegda, hvor sem þess feinge gaad.

Enn þu sem att ad vera, utvalen DRottens Þioon, Verk hanns og Vilia giøra, og varast þitt Saalar-Tioon, Andvara eingann hefur, Umhyggiu lijtell sest, vid Glis Heims gaalaus sefur. Gud nade soddann Brest!

Marger upp arla rijsa, ei gieta sofed vært, epter And Heimsins hnijsa, Hollds Gagned er þeim kiært; Saalen i Briooste sofnud, sijnest ad mestu daud, til allra Dygda dofnud, sem DRottenn

 helldst

helldst þo baud.

Forsioonar Verk-Menn viiser, Viingarde Drottens i, fyrst þa Dags-Lioomenn liiser, livost bid eg giæte ad þvi, umm sitt Embætte hygge, oarla giord Vænen sie, Idiulauser eiligge, i Liikamans Gioaliise.

Hæturs-Menn Herrans vaka, hugsande ad giora Tioon; Epter þvi oattu ad taka, ef ertu hanns Tryggda-Pioon: Vilier þu vid þeim sporna, og varast þeirra Hœd, oarla Dags alla Morgna, vid Ord Guds halltu Rœd.

Þeink nu i þiinu Hiarta, þar nærst i annann Stad, hvar umm Herrann ried kvartg, hyggia mœttu þar ad: Ordum hanns ecke treystu, illgiarner Judar þeir, wr Spurning eingre leystu, œ þvi vestnudu meir.

Hver trwer nu hardt þo hoote, HErrann syndugum Liid? Allfæster inna œ moote, Ydrunar Sporenn bliid; Hyrtingar hioalpa ecke, Heimur vestnande fer, Blindleikenn trw eg oss blecke, hwed Straff nœlægt er.

Viist er eg veikur ad trwa, veitstu þad, JEsu, best, fra Syndum seinn ad snwa, soddann mig œngrar mest; Þo framast þad eg megna, þiinum Ordum eg vil, treysta og giarnann giegna; Gief þu mier Rœd þar til.

Þar nærst ad þessu giæter, þad er og Lærdooms Grein, ef þu Oriette mæter, Afsokun duger ei nein, hafdu þa Vidlund hiira, HErrann mun til þiin

sioa

fiaa, laat Polgieds Dæmed dijra, DRottens þig hugga þaa.

Mier er sem i Eyrum hlioome, Urskurdur DRottens saa, aarla aa effta Doome, upp þegar dauder staa, Affsokun ei mun stoda, Andsvör nie Spurningar, saa stendur vijst i Voda, sem ver: dur sekur þar.

Hier er nu Kostur ad heyra, HErrann talande i Naad, opne JEsus mitt Eyra, so ad þvi feinge gaad; Hoogvær vors Bata bijdur, blessadur þessa Tijd, annars Heims er hann strijdur, ollum forherdtum Lijd.

Arla Urskurdenn logdu, aa þig Gydingar þo, JEsu, og sekann sogdu, selldu þig Pilato: Arla aa effta Dege, Affsokun gyllder sw, til Dauda eg dæmest eige, DRottenn, þess minnest þu.

Arla Dags uppvaknadur, ætijd eg minnest þijn, JEsu minn Hiaalpar hradur, hugsa þu æ til mijn; Arla aa effta Doome, Affsokun vert þu mier, minnstu þa Frelsarenn froome, hvad fyrer mig leidstu hier.

# 16. Psalmur.

## Um Judasar Ydran.

Ton, Konung David sem kiende.

JUDAS i Gyrndar Græde, af Gydingunum

nuum fyrst, Priuatiju Peninga bæde, þui sveik hann HErrann Christ; Lioost þegar lijta vann, ORottenn var nu til Dauda, dæmdur og þwngra Nauda, ydradest epter hann.

Greidt i Mustered geingur, (greiner so Ritning fra), um Silfred sinnte ei leingur, senn vill þad Prestum fa, sagde med sarum Mood: O hvad eg giørde illa, þa yfer mig kom sw Villa, ad sveik eg saklaust Blood!

Lidsemd Prestarner løgdu, litla, sem Von var ad, hardlynder hønum søgdu: Hvad eigum vier med þad? Þu matt einn siaa um þig. Sylfrenu a Goolfed grijtte, gieck þadann, miøg sier slijtte, og hengde sialfann sig.

Raadstefnn Herrar hielldu, hættu þar seinast vid, fyrer Akur sialfer seldu, Sylfred Leyr-Kiera Smid. Adur sagt um þad var, i Spaadooms Søgnum sonnum: Sa var Vegferdar-Mønnum, giefenn til Greftrunar.

Siaa hier, hvad illan Enda, Otrygd og Svikenn fa: Judasar Lijkar lenda, Leiks-Broodur sijnum hiaa, Andskotenn Illsku flaar, enn hefur Snoru snwna, snogglega þeim tilbwna, sem fara med Fals og Daar.

Otrw sinn eigen Herra, ætijd um Hælsenn slo- eing-

eingeñ feck af þvi verra, eñ sa meinlausum bioo, Forræde, Fals og Viel, Judas þvi Heinging hente, hañ folskum til sijn bendte, eins og Achitophel.

Fe = Gyrnden Judam fellde, fyrst var hañs Adtekt siw, Guds Son Gydingum selde, gleymde þvi Eru og Trw, so til um sijder geck, kastade keyptum Aude, þaa kvalde Sorg og Daude, Huggun alls einga feck.

Under = Root allra Lasta, Agyrnden kolluð er, Froomleika fraa sier kasta, Fiaarploogs Menn Agiarner, sein freklega elska Fed, Aude med Okre safna, andlegre Blessan hafna, enn setia Saal i Ved.

Annad hvert er i Vonum, Audurenn, fagurnu, hafnar þier, ellegar honum, hryggur burtkastar þu, þaa Daudenn þreinger ad, Agyrnden Otæpt svelger, af þvi Saalena velger, i kolldum Kvala = Stad.

Falsi og Fe = Gyrnd rangre, forda þier, Saal mijn blijd, so mæter ei Ogn nie Angre, þa adfer Daudans Tijd, vird lijtels Veralldar Ploog, Hvor sa sier lynda lætur, þad lienar Drottenn mætur, sa hefur alls Nægta noog.

Opt JEsus adur hafdi, Aminning Judas giort, Hreckvijsin Hiartad vafde, hann hiellt þad einkis verdt, nu kom þar eiñig ad, Tilsogn hatade hreina, Hüggun fieck þvi ei neina, vargstu Vijte þad.

Enn hvad framleidde hann illa, adur Lijferne sitt, þesse þo var hanns Villa, verre enn allt añad

hitt,

hitt, ad hann Orvænting med, Saal og Lijf sette i Vanda. Synd ꝏ moot heilogum Anda, helld eg hier hafi skied.

Þ Drottne ef villtu deya, Drottne þa lifdu hier, til ills læt ei þig teigia, Ord Guds sie kiær ast þier, sæll er sa so vid bijst, eñ ef þig Ofall hend er, aptur i Tijma vender, undañdrag Idran sijst.

Brot þijn skallt bliwgur jata, enn bid þo Gud uñ Raad, af Hiarta hryggur græta, enn heilnæm þyggia Ræd: Umfram allt þenktu þo: Son Guds bar þijnar Synder, og so þu Myskun finder, Saklaus fyrer Sekann doo.

Drottenn, læt mig ei dyliast, diarflega Synder vid, þo hier uñ Stund mege hyliast: HErra trwr, þess eg bid; Nær Heime fer eg fra, Orvænting ei mier grande, Ord þitt og Sannleiks Ande, Hiarta mitt hugge þa!

# 17. Psalmur.

## Uñ Leyr-Kera-Smids Akureñ.

Ton, Fader ꝏ Himna Hæd.

SO sem fyrr sagt er fra, Silfur-Peninga þa, hverier loks Judas hrelldu, Höfud Prestarner selldu.

Og keyptu eiñ til Sanns, Akur Pott-Makarans, þar mꝏ fullt Frelsi hafa, framande Menn ad grafa.

Þar finnst ein Þijding fijn, þess giættu, Saala mijn

mijn: Af Guds ꝍſettu Rꝍde, um̃ þad Zachari=as ſpꝍde.

Lijkeſt Leyr=Kera Smid, Lijkſamur Drotteñ, vid ſem fyrr Eſaias ſagde; og ſiꝍlfur þad riett wtlagde.

Af Leyr med Lijſſins Krapt, liet hann Mann=kyned ſkapt: Hrein Kier til Heidurs ſetur, hin önnur læ͡gra metur.

DRottenn einn Akur ꝍ, er hönum falur ſꝍ, minnſtu hann Myſkun heiter, mꝍddum Lijd Huggun veiter.

JEſus einn er ſꝍ Mann, ſem Akurenn keypte þann, enn hanns Blood Dropar blijder, Borg=unar Giallded þijder.

Framande Foolked þad, ſem feck ei neinn Hvijl=dar Stad, erum vier Sorgum ſetuer, af Synd=ugu Edle gietner.

Illſkuñar Edled vort, Utlenda hefur giort, oſs frꝍ eilijfre Glede, i Adams Falle þad ſkede.

Sꝍlen i Utlegd er, ꝍ medañ dvelſt hun hier, i Holldſins Hreyſi naumu, halldeñ Fꝍngelſi aumu.

Dauden med dapre Swt, dregur um̃ ſijder wt, hana, þa Hreiſid brotnar, Hollded i Jördu rotnar.

Eins og wtkaſtad Hrꝍ, [ef eg riett ſkyniad ſꝍ], Hiꝍlparlaus Sꝍl mꝍ heita, Hvijlldar kann ſier ei leita.

Hꝍttu og Hörmung þꝍ, Herrann minn JE=ſus ſꝍ, Ond vora af Aſt og Millde, wr Utlegd kaupa villde.

Faderenn sak þad liet, Fridar-Stad Sealum hiet, ef Sonurenn Gialld þad greidde, sem Guds Riettlæted beidde.

Opnade Siodenn siñ, Sonur Guds JEsus minn, Hrodstrijktur, kvalenn, krijndur, og Krosse til Dauda pijndur.

Blood-Dropar dundu þar, dijrasta Gialld þad var; Keyptann Akur þvi eigum, Ohrædder deya meigum.

Hier þegar verdur Holld, huled i Jardar-Molld, Sealen Hrygdarlaust hvijler, heñe Guds Myskun skijler.

Eñ þu skallt ad þvi gæa, Akursens Grestran þa, eingver utann þeir fengu, i Jerusalem gengu.

Christnen Guds hier um Heim, heiter Jerusalem; J hana innkomast hlijtur, hver sem Myskunar nijtur.

J heñe hver eiñ sæ er, æ JEsum trwer hier, skijrdur og alla Vega, Jdran giører daglega.

Okvijdeñ er eg nu, af þvi eg hef þa Trw, Myskun Guds Sealu mijna, muñ taka i Voktun sijna.

Hvørneñ sem Hollded fer, hier þegar Lijfid þver, JEsus i Umsioon þiñe, Obætt er Sealu miñe.

Eg lofa Lausnarenn þig, sem leyster wr Utlegd mig, Hvijlld næ eg Naadar spakre, nu i Myskunar Akre

Þu gafst mier Akurenn þinn, þier gef eg aptur minn; Ast þijna æ eg rijka, eigdu mitt Hiartad lijka.

Eg gef og allann þier, æ medann toore eg hier, Avoxtenn Ydiu minnar, i Akre Christne þinnar.

Eins bid eg aumur Þræll, ad unner þu JEsus sæll, lidnum Lijkama mijnum, Legstad i Akre þijnum.

Hveiti Korn þecktu þitt, þaa uppriis Hollded mitt, i Bindene Barna þinna, Blessan lææt þu mig finna!

# 18. Psalmur.

## Um Aklogun Gydinganna fyrer Pilato.

Ton, Sæler eru þeim siaalfur Gud.

MIkla sem gloggt eggreina vann, med Guds Son bundenn fara, Prestarner, so ad vijndest hann, til Pilatum Landsdoomara; J Þijng-Hws inn, þad sama Sinn, sagt er þo eingenn kiæme, so ecke meir, saurgudust þeir. Siaa hier Hræsnennar Dæme.

Jnngaang um Hws-Dyr Heidingians, hielldu þeir Synd bannada, enn saurgast aa Bloode saklauss Manns, syndest þeim eingann skada. Heims Bornum hier, Ovirding er, aumstoddum Hiaalp ad veita, Guds Ords Forakt, Agyrnd og Prakt, eingenn Misgiord skal heita.

Pilatus sem þad formerkt feck, fyrst er þeim Metnad særte, aan Dvalar siaalfur wt þvi geck, Embættis Skylldu giærti,

Sakargypt þar, vill fulla fa, framborna af þeirra Munne, Dar-Yrdenn fliot, Drambseme moot, Doomarenn finna kunne.

Lat þier ei vera Asmaan ad, ef þu villt froom-ur heita, af Pilato liooft ad læra það, sem Lof-legt er epter ad breyta, Rangleted hanns, þess heidna Manns, hallt þier Mijnkun tvofallda; Þeim nidur fer, enn honum hier, hvor vill þann Christenn hallda?

Alitid stoort og Hefdar Hatt, hrædast skyll-der þu ecke, Sannleikans giæta ætijd att, eing-enn Kiass-Mal þig blecke. Aru-Gyrnd lioot, Hofmoodug Hoot, hæfir sijst Yfir-Monnum, Dramblatum þar, þu gef Ansvar, þo byggt a Rokum sonnum.

Aulldungar Juda allra fyrst, uppbaru Sok þrefallda: Foolkenu þesse frasnijr vijst, fyrerbijdur ad giallda, Keysarans Skatt, þad segium vier satt; Sialfur vill Kongur heita; Og Christur sa, sem koma a, Kvittun og Frid ad veita.

Hier koma fram þau riettu Rok, Rædu og Þanka minna! Þier, JEsu, giefinn var þrefold Sok, þad kann eg gloggt ad finna; Þrefalldleg Sekt, mig þiade frekt, þar um eg klagast mætte: Þrefallda Stygd, og þvnga Lygd, þu leidst med sogdum Hætte.

Frasnwed Gude, allt mitt er, Edled og Lijk-sam.

fraa.eyta, odrum þvi gief eg opt af mier, ill Dæme so ad breita; Einn hier aa moot, med Elsku Hoot, oll Guds Born rett þvi triva, fraa Bolvan, Deyd, Diofle og Neyd, Drottenn ried Lijdnum snwa,

Gude aatte eg ad greida frij, Gialld Hlijdne og Þackar-Skylldur, raanglega hef eg halldid þvi, hondlad sem Þræll ogylldur: Audsveipnen þijn, fyrer ollum skijn, Astseindar Herrann kiære: Þu baudst: Giefed [gafst siaalfur med], hvad Guds og Keysarans være.

Sannlega hef eg hrokad mier, hærra enn vera skyllde, Bod og Skipun mijns Herra hier, halldedi minnsta Gyllde, Kongdoom i Heim, og Heidre þeim, hafnader þu og flijder, Haatignen þijn, aa Himnum skijn, hun mun byrtast um sijder.

Rægdur varstu fyrer raanga Sok, Riettlaate JEsu millde, uppaa þad oll mijn Illsku Rok, af plaanud verda skyllde: Aklogun sw, sem þolder þu, þess bid eg Herrann froome, sie mitt Forsvar, þa finnst eg þar, fyrer þeim straanga Doome.

# 19. Psalmur.

## Jaatning Christi fyrer Pilato.

Ton, Mitt Hiarta hvar til hryggest þu.

SVdingaar hofdu af Hatre fyrst, hardlega klagad JEsum Christ, sem aadur sagt er fraa, Landsdoomarenn giorde ad gaa, gloggt hvad

þijdde Frambburdur sa.

Aklogun fyrsta Andleg var, um þad Pilatus sinnte ei par, onnur um Skylldu Skatt; Hann visse vel þeir sogdu ei satt, soddann Mælum þeyande hratt.

Enn sem þeir nefndu Kongenn Christ, kom hønum þa til Hugar fyrst, hvad ædur heyrde og nam, af Judum mælt um Messiam, ef mætte skie þad kiæme nu fram.

Pilati Sinne i sumum finnst, sem um Guds Dijrkun hugsa minnst, Hofdingium Hræsna tijdt, Undersæta Frelsed frijdt, Ficar ⸗ Ploogs giarner ræka nu lijtt.

Hyrdstioorenn spurde Herrann par: Hvert hann sie Juda Kongur sæ? Enn JEsus aptur tier: Talar þu so af siælfum þier, eda søgdu adrer þvilijkt af mier?

Par vard Pilati Peled kallt, þig hatar, sagde hann, Foolked allt, hvad illt hefur þu giørt? Aptur JEsus ansar bert: Er þad nærsta þenkingar verdt.

Mitt Rijke er ecke hiedann af Heim, hardt mundе annars moote þeim, strijda minn Maktar ⸗ Her, sem nu mig seldu i Nauder þier, so nædu ecke Gydingar mier.

Pilatus aptur ansa vann: Ertu þo Kongur? Sagde hann. Jatade JEsus þvi; Hingad barst eg Heimenn i, ad herma skyllda eg Sännleikann frij.

Hver

Hvør af Sannleiknum sialfur er, sar mijna Røddu heyrer hier. Hœdnis-Svor hinn til sann: Hvad er Sannleikur? sagde hann, so geck burt med Urskurdenn þann.

Hier mættu, Sal mijn, heyra fyrst, HErran JEsus er Kongur vijst, þo ecke ad Heimsins Hætt; Soddann vel þu athuga ætt, þad eykur Glede Hiartanu þrætt.

Kongs-Tign þijn, JEsu, eilijf er, aller þiggia sijn Volld af þier, Hofdingiar hier um Heim, þu lienar, gefur, lænar þeim, Londenn, Rijke, Metord og Seim.

Fyrer þinn Krapt og Frelsis Hond, forsvara Kongar Rijke og Lond, sem er þeim underlagt; Enn moote Diofle og Daudans Makt, duger eingenn Hofdingia Prakt.

Þu hefur sigrad Synd og Deyd, sialfan Dioful og Vijtes-Neyd, hvader eitt herlegt Strijd, allann so þinn leyster Lijd, Lof sie þier um eilijfa Tijd.

Andlegt þitt Rijke og eilijft er, Ord Sannleiks þvi riett stioornar hier, þinn Vellides Vondur sæ, Ovine slær mier alla fræ, i þeim Krapte sigra eg þæ.

Enn fyrst þitt Rijke andlegt var, um þad Heimurenn sinnte ei par, hann fann ei Hofmood sinn, hiæ þier, JEsu HErra minn, hatade allan Goodvilia þinn.

Undrast þvi, Sal mijn, ecke þarft, þo Adkast Veralldar lijder margt; Par um þier þeinkia ber:

Ertu nu i Utlegd hier, annars Heims þitt Fodur Land er.

Sannleika Kongsins Sannleiks Raust, sia þarf ad elska Hræsnis-laust, sem er hanns Under-Mann, þvi Slægd og Lijge hatar hañ, hreinhiortudum Mysktunar ann.

Ef þu, Saal miin, i Gude glodd, gyrnest ad heyra Kongsins Rodd, giættu þa giorla hier, hvad boda Drottens Pijoonar þier, þeirra Kienning Rausten hanns er.

Ransaka, Saal miin, Ord þad ort, ad verdur spurt: Hvad hefur þu giort? Þa HErrañ helldur Doom. Hiaalpar eingum Hræsnen toom, hrein sie Trw i Verkunum froom.

Enn sokum þess þu ei saklaus ert, sialfur spyr þig hvad hefur þu giort, um hvorn umlideñ Dag, Ydran gior og græt þinn Hag, Guds Son bid þad færa i Lag.

Allt hef eg, JEsu, illa giort, allt þad ad bæta þu komenn ert, um allt þvi eg kvittur er; Allt mitt Lijf skal þioona þier, þar til bid eg hiaalpa þu mier! AMEN

## 20. Psalmur.

### Hñur Aklogun Gydinga fyrer Pilato.

Ton, Ovinnanleg Borg er vor Gud.

Pilatus hafde proofad nu, Pijslar-Sok JEsu gies-

giefna, klien virdtest honum Kongs Tign sw, þa Christur Sannleik ried nefna, Heims Sannleik heidra lietst, hædde Guds Sannleik mest, Sañenden elska ber, Ord DRottens lꜳttu þier, kiærast þo allra Efna.

Jafnoodt þa gainga Jarlenn ried, til Juda wt ad Bragde: Einga Søk þessum Manne med, mꜳ eg finna, hann sagde; Gydingar helldur hardt, HErrann kløgudu uñ margt, med Æde, Ogn og Dramb, eins riett sem meinlaust Lamb, Lausnaren liwfur þagde.

Hañ hefur uppæst Lijdenn Lands, leinge miøg vijda kiende, frꜳ Galilæa og so til sanns, uñ sijder allt hijngad vende. Pilatus hugde hier, hrinda þeim Vanda af sier, Herodes hafde þvi, Hyrdstioorn þeim Parte i, til hanns þvi HErrann sende.

Fyrer mig JEsu þolder þu, Piñning og beyska Pijnu, Hiartad gledst þvi eg heyre nu, hroosad Sakleyse þijnu; Synden lꜳ faart ꜳ mier, Sek fañst eingenn hiꜳ þier, so er Sakleyse þitt, sannlega orded mitt, vid Mꜳlefne tookst þu mijnu.

Løgmꜳl DRottens þa Hefndum hardt, hootar mier epter Vonum, aptur minn JEsus ansar snart: Eingenn Sek fiñst med honum, Sakleyse mitt til sanns, sege eg nu orded hanns, eingenn Aklogun fioot, orka skal neitt ꜳ moot, mijnum þol-lyndes Pioonum.

Onytiu-Hial og Mælgen mijn, mier til Falls koma ætte; Eñ, JEsu, blessud Pøgnen þijn, þad allt fyrer mig bætte, Skyllda mijn aptur er, epter ad breyta þier, þeigiande i þijdre Trw, þola, nær lijd eg nu; Þørf være þess eg giætte.

Pilatus meinte Mannvits-Slægd, munde Obrygdul standa, koma vill' þvi med Kiænsku-Nægd, Kong Herode i Vanda. Kunna þa Adferd eñ, allmarger Verralldar Menn. Bid Gud, og giæt þijn vel, giarn er Heimur ꝏ Viel, gꝏ-taufsum Svikenn granda.

Krofs-Gꝏngan, JEsu, þesse þijn, þar fyrer eflaust skede, so hvijlast mætte Saalen mijn, sætt i eilijfre Glede. Embættes Omak lꝏngt, opt þo mier finnest strꝏngt, til Lofs og Þocknunar þier, þad vil eg giarnañ hier, lijda med ljwfu Gede.

## 21. Psalmur.

### Uṁ Herodis Forvitne og hvijta Klæded.

Ton, JEsu Christe þig kalla eg a.

Þ'Egar Herodes H'Errann sa, hañ vard miøg gladur nærsta, af hønum heyrt hafde og helldst vill sia, hanns Asynd lijta glærsta: Forvitenn mørgu friette ad; Fijsn Holldsins Kapp ꝏ lagde, med bistu Bragde. JEsus took ecke under þad, vid øllum Spurningum þagde.

Marg-

Marger finnast eñ hier um̃ Heim, Herodis Lijkar rietter, Guds Ord er Skiemt og Gaman þeim, sem Glens ednr nijar Frietter, Forvitnen Holldsins hnijser þratt, i HErrans Leyndardooma, med Fijsn ei frooma, aumre Skynseme ætla ofhatt, alldrei til Skilnings koma.

Mañvits Diwpfindne og Menta Glis, marger þa vilia reyna, ad Orde DRottens þeir giora Gis, Gaman loflegt þad meina; Varastu, Saal mijn, Vijtenn reynd, vird þu i hærsta Gillde, þa miklu Millde, alvarlega med goodre Greind, Gud vid þig tala villde.

Gud giorer ecke ad Gamne sier, Glæpa-Moñum ad hoota, Kalls-Mælge honum og eingenn er, ad þu meiger Myskun hlioota; Audmiwktega med allre Geat, wattu um̃ slijkt ad ræda, og fleire fræda, enn af þier heyrast alldrei lgat, Ord DRottenns skuler þu hæda.

Heyre eg um̃ þig minn Herra rædt, i Hiealpræddes Orde þijnu, allt sijnest mier nu bwed og bætt, Boled i Hiarta mijnu, i Sacramentenu sie eg þig, so sem i Lijking skiærre, med Naad mier nærre. O hvad gledur sw Asynd mig! Eingenn finnst Huggun stærre.

Herodis Fijsn var holldleg sw, hann ried Forvitne ginna, enn mijn Saala af Ast og Trw, andvarpar þig ad fiña, lofsamleg er sw Luckn-Stund, þa lijt eg þig HErrann þijde, i þinne Prijde, gief mier loksins þann Fagnadar Fund, þo fyrst um̃

Sinn hier bijde.

Pad kieñer Herrans Pognen frøom, þar nærst i annann Maata, hann vill ei siјnum Helgedoom, fyrer Hunda kasta laata. DRottenn forsmaaer drambsamt Ged, diarflega margs þo freyste, og frekt sier treyste, hugstolltum nidur hrinda ried, hoogværa Saal vidreyste.

Herodes og hanns Hof-Foolk lijtt, um HErrann agta villde, færde hann i eitt Fat-ed hvijtt, Forsmaan þad heita skyllde, til Pilatum sijdann sendur var. So komst i Fridar-Stille, sa Offsenn ille, drambsøm Ofunden ædur har; Ovinskap þeirra að mille.

Hvijtt Klæded giørde Hædung hier, HErra minn JEsu sæte, Dijrdar-Skrwda so skeinkter mier, skijnande Guds Riettlæte; Sakleysis Merked þetta þitt, þijns Fodurs Giædskan hreina, þa þeckte alleina, hann sier og proofar Hiartad mitt, hvad sem illgiarner meina.

Heilagra Saalna Hoopur skiær, a Himnum med Skickun frijda, til Heidurs þier JESU HErra kiær, hvijtum Klædum sig skrijda; Eins hier a Jordu upp fra þvi, ekkauft i Miñing slijka, med Roksemd rijka, byrtust Snioo-hvijtum Bwning i, blessader Englar lijka.

Veittu, JEsu, þa Myskun mier, Meinleysis skrydd ur Klæde, þioone eg tallaust med Trygdum hier, i Trw, Von og Polennmæde: Riettlætes

Skrwd-

Skrwda Skarted þitt, skijne ꝏ Sꝏlu minne, þo Lijf hier lmne, eins laattu Hollded einneñ mitt, afklædast Prioostsku sinne.

Forlijkast giordu Fiand-Meñ tveir, þa foorstu þar, JEsu, mille; Eg veit mier gafstu miklu meir, Mytkun og Fridar-Stille, hiꝏ Gude Fodur so til sanns, siest eingenn Reide leingur, nie Stygdar-Streingur, daglega mille mijn og hanns, minn trwr Frelsare geingur.

Hvar sem Ofridur hreyfir sier, af Holldsins Veikleik brꝏdum, mille christenna Manna hier, moote Guds Vilia og Rꝏdum, gack þu þar, JEsu, mille mest, med þijnum Fridar Anda, og varna Vanda, hiꝏlpa þu so vier hugsum best, i hreinum Kiærleik ad standa!

## 22. Psalmur.

### Um̃ Krossfestingar-Hroop yfer Christo.

Ton, Fader vor sem ꝏ Himnum ert.

KRꝏ Herode þꝏ Christur kom, kallar Pilatus sniøllum Room, Gydinga-Lijd, og lioos gaf Røk, Lausnarenn hefde einga Søk, sampyckur være og sier til þess, sialfur Kongurenn Herodes.

Sannlega DRottenn Sakleysed, sier, elskar bæde og styrker med, Hiarta og Muñur hvors eins Mañs, hlijtur ad hioona Vilia hañs. Mꝏlefned gott

gott fær goodann Room, giæt þess, mijn Sæl, og vert þu froom.

Sidur Gydinga sæ var þa, Saka-Mann einn þeir skylldu fæ, um Paaska-Tijmann fræ Pijslum frij, Pilatus ætte ad gegna þvi. J Frelsis Minning wr Egypto: Alldrei baud D Rottenn soddann þo.

Siæ til, mijn Sæl, ad Sidvaninn, sijdst meige villa Huga þinn, fordastu honum ad fylgia hier, framar enn Guds Ord leyfer þier. Good Meining einga giører Stod, gyllda skal meira D Rottens Bod.

Pilatus Judum sagde so: Siæed nu gløggt um Koste tvo, eg bijd hier JEsum ydur fram, eda Mordingiann Barabbam. Hann meinte ad yrde helldst med þvi, HErrann fræ Dauda giefenn frij.

Þu sær nu gleggt af þessu sied, þar sem D Rottenn er ecke med, i Verke, Aforme og Vilia Mans, verda til einkis Raaden hans; Siervitska Holldsins svikul er, so sem Pilatum skiede hier.

Yfer-Mennerner allra fyrst, Oskudu ad D Rottenn krossfestist, Almwgann so i annann Stad, eggiudu mest ad bidia um pad, Barabbas Utlausn skyllde skie, skilenn JEsus fræ Lijfe sie.

Veralldar Dæmenn varast skallt, vogadu ecke ad giora þad allt, sem Hofdingiarner nu hafast ad, þo Heimurenn kalle loflegt þad; Ef blindur leider blind

blindann hier, bædum þeim hætt vid Falle er.

Hver þig eggiar a Illverk bræd, alldrei gack þu med þeim i Ræd, vinn þu þad ei fyrer Metord Manns, ad missa Guds Næd og Vinskap hans; Hverugur annars bæter Bol, þo bæder rate i Straff og Kvol.

Yfir-Monnunum er þvi vandt, Undersaatarner, hniisa grant, epter þvi sem fyrer Augunn ber, audnæmast þo hid Vonda er; Hvad Hofdingiarner hafast ad, hiner ætla sier leyfist þad.

Ill Epterdæme æ alla Grein, eru samlijkt vid Mylnu-Stein: Vilier þu vera af Fære fri, cals, festu hann alldrei þier vid Hals; I Guds Otta fræ þier Slæpum hrind, good verttu od-rum Fyrermynd.

Hws-Frw Pilati holl gaf Ræd, hefde hann betur ad þvi gæd: Goodar Kvinnur þess giæte mest, giarnann æstunde Dæmenn best: Abigael fær Æru og Sæmd, illa Jessabel verdur ræmd.

Set eg þad nu i Sinne mier, sæte JEsu, ad giæta ad þier, aller hroopudu allt um kring, yfir þig Dauda og Kroßfesting; Sem Lamb Meinlausast þagder þu, þar af stendur mier Huggun trw!

Lögmalsins Bolvan bitur og sterk, Banvænn Diofull og oll mijn Verk, þo hroopa vilie nu hvor fyrer sig, Hefnd og Fordæming yfir mig; Mijn eg, minn JEsu, þijn i þvi, fræ þeirra Klogun verd eg frij.

Afelles Doomsens Ogna Hroop, ytstu Myrkranna Vein og Op, alldrei mun koma ad Eyrum mijn, Eyrunn blessud fyrst heyrdu þijn, Kall og Hœreyste kriingum sig; Frœ Kvol og Angist þad frelsar mig.

Hroopar nu yfir mier Himen og Jørd, Helgun, Frid, Nœd og Scattargiørd, hvert hell dur og geing wt eda inn, i þijnu Nafne, JEsu minn, Bœnar-Hroop mitt i hreinne Trw, Himneskum Gude þocknast nu.

Enn þier til Heidurs allann Tijd, Englar DRottens og Christnen frijd, hroopar nu bœde œ Himne og Jørd, Hosanna, Lof og Packargiørd, Amen, seger og uppœ þad, Ønd mijn glad vœr i hverium Stad.

## 23. Psalmur.

### Um Christi Hwdstrijkning.

Ton, Ø∫s lœt þinn Anda styrkia.

Pilatus HErrann hœrsta, Hwdstrijkia lœtur þar. Nakenn vid Stoolpann stœrsta, streingdur þœ JEsus var, Strijds menn med Svipum hroktu hann; Saal mijn, hier sioa og skoda, hvad Sonur Guds fyrer þig vann.

Helgasta Holldeð frijda, frœ Hvirfle Ilium ad, Drottne vard sœrt ad svijda, svall allt af Benlum

uum þad, hver hans Lijkama Limur og Ed, af Sarum sundur flakte, sw Hyrting miög var stæd.

Blessadur Dreyrenn dunde, Drottens Lijfs-Edum wr, sem Regn þad hradast hrunde, Himens i Dimu Skwr, blæmade Holld enn boolgnade Und, Sonur Guds seart var kvalenn, Saklaus a þeirre Stund.

Eg var sem Fiotrum færdur, Fangelsi þwngu i, a Ønd og Samvitsku særdur, Synden mijn olle þvi, sw daudleg Sæalar Sootten hier, um hveria Ed wr sier dreifde, eckert sannst heillt ä mier.

Svipan Logmalsins lamde, Lijf og Sæal-hell-dur frekt, Ottenn Kvalanna kramde, komenn var eg i Sekt, Bauvænlegt orded mitt var Mein, Hiartad af Hryggdum stunde, hverge fieckst Lækning nein.

Sæastu þa JEsu sæle, Sæar mijn Obærelig, til Lausnar þijnum Præle, þvi lietstu binda þig, gecksti so under þa Grimdar Kvol, ad eg kvittadur yrde, vid eilijst Hryggdar Bol.

Siwkdoom min sialfur barstu, so vard eg heill med þvi, Hörmungum hladenn varstu, fra Hryggdum er eg nu frij, Hegning þu feckst so hefde eg Frid, Beniar þijnar mier bættu, Boot sw þar atte vid.

Hiartad vill Hrædslan kreinkia, med hördum Sorgar Stijng, þegar eg giore ad þenkia, um þijna Hwdstrijking; Avi! Eg gaf þar Efne til, þu eiñ galdst Prioorsku minar, þess nu eg ydrast vil.

Pvi

Þvi fell eg nu til Foota, Frelsarenn JEsu þier, lattu mig Nafns þijns nioota, Naad og Vægd syn þu mier; Eg skal med Hlijdne heidra þig, nu og um Eilijfd alla, þa huggar þu Herra mig.

Gledstu, mijn Saal; Þig grædde, Gudssonar heilagt Blood, þo Synd og Sorgen mædde, sie hier er Lækning good; Naad fyrer Reide nu er vijs, Brot Þrælsins Herrann bætte, bar þvi sijns Fodurs Hrijs.

Skoda þu Skylldu þijna, skijrlega Saal mijn nu, Sonurenn sig liet pijna, so læknud yrder þu: Heilbrygd þioona þu honum rett, med Trw, Hollustu og Hlijdne, haf Gaat a þinne Stiett.

Þockn eist honum ad þiaka, þitt Holld Orkumslum med, þijdlega þvi skallt taka, Þolennmoodt Hiarta-Gied, æsier Drottenn og elskar betst: Lausnara ad lijkiast þijnum, Lof er þier allra mest.

Eckert ma sooma sijdur, sijkaatur Þrællenn er, þa Herrann Harmkvæle lijdur, haf slijkt i Minne hier! Hryggdar Mynd hanns er Heidur þinn: Laat mig þad læra og hallda, liwfaste JEsu minn.

# 24. Psalmur.

## Um Purpurann og Þyrne-Koronuna.

Ton, Til þijn heilage HErra Gud.

ALLvyrkiar JEsum epter þad, inn i þijngs Hwsid leiddu, afklæddu fyrst, og fliott þangad, Soolked allt koma beiddu, Purpura

pura⸗Klædes forna Flijk, (fæst marre varla Hœdung slijk), yfer hanns Benin breiddu.

Helgunar Klæded hafde eg mist, hlaut þvi nakenn ad standa, Adam olle þvi allra fyrst, Arf liet mier þann til Handa; Syndanna Flijk eg færdest i, Forsmaan og Mijnkun hlautst af þvi, med hverskyns Hœska og Vanda.

Burt⸗took Jesus þaa Blygdun hier, þeran þvi liet sig pijna, Riettlætes Klæðnad keypte mier, kann sia fagurt ad skijna; Athvarf mitt jafnann er til Sanns, under Purpura Kaapu hanns, þar hyl eg Misgiörd mijna.

Þyrne⸗Koronu þwngre þeir, þreyngdu ad HErranns Enne, Bæl⸗Elld: heitum brenndu meir, Broddar svijdande i henne, Augunn hanns bæde og Andlit med, allt af Bloodenu fyllast ried, slijkt trwe eg Kvala kienne.

Fyrer Ohlijdne Adams var, oll Jorden kijst i Banne, Avort þvi slijkann af sier gaf, Ord Guds trwe eg þad sanne: Þessum Bolvunar Þyrne⸗Krans, þreyngt var ad Hofde Lausnarans, til Huggunar hrelldum Manne.

Enn JEsu Hl[illegible]dne aptur hier, allre Jord Blessan færer, h[illegible] Avort hun þvi ber, hveria Skepnu vel nærer. Fyrer Giædskunnar Giörning þann, gofge, lofe og prijse hann, hvad sig um Heimenn hrærer.

Bolvan mier yfir Hofde hieck, hvotud i Lcg⸗

mals Bræde, eñ JEsus hana undergeck, so aft-
ur eg Blessan næde. Gud minn Koronu gaf
mier þar, Giædsku og Dijrdar eilijfrar, hier og
a Himnum bæde.

Reyr-Staf hønum i Hønd med Spie, Hyrdstioorans Þrælar fengu, heilsudu Konge og krupu a Knie, Kalls-Ord a vijxl þa gengu, Reyrnum hrøktu uñ Høfud hanns, hræktu i Andlit Lausnarans, med Kvala Kappe straungu.

Þa þu geingur i Guds Hws inn, giæt þess vel, Saal mijn frooma, hæd þu þar ecke HErra þinn, med Hegdun Lijkamans tooma; Beigdu Holldsens og Hiartans Knie, heit Bæn þijn Astar Kvedia sie, Hræsnen mun sijst þier sooma.

Sialfs mijns Verdskulldan sie eg hier, sodd-
ann atte eg ad lijda, uñ Eilijfd, þa sem alldrei
þver, med Ogn og sarum Kvijda, hefde mier ecke
Hormung þijn, hiaalpad, JEsu, fra þeirre Pijn;
Blessad sie Nafn þitt blijda.

Øll þijn Læging er Upphefd mijn, Astkiære JEsu millde, Heidur er mier ad Hadung þijn, hvør sem mier nidra villde, Hoggenn sem leidstu, hressa mig, a Himnum verd eg nu fyrer þig, met-
enn i miesta Gyllde.

Medann Lijfs Ed er i mier heit, eg skal þig DRottenn prijsa: Af Hiartans Grunne i hvorium Reit, Heidur þijns Nafns auglijsa:

Fes,

Fegenn vil eg i Heime hier, hlijda og fylgia i ollu þier. Laat mier Pijna Lidsemd vijsa!

## 25. Psálmur.

### Um Utleidslu Christi wr Pijng-Hwsenu.

Ton, Konung David sem kiende.

LANDS-Dóomarenn þa leidde, Lausnarann wt med sier; Gydingum Ansvør greidde, gløgglega og so tier: Hier siaed þennann hier! Sannlega ydur eg sege, Søk finnst med hønum eige, sw Dauda-Dooms verd er.

Þa geck JEsus wt þannenn, Þyrne og Purpura bar, sagde: Siaed, hier Mannenn! Sialfur Doomarenn þar; Gydingar gaafu Svar: Burt med hann, so. þeir segia, saa skal a Krosse deya; Ofl þeirra ein sw var.

Ord og Affsokun gillte, eingenn i þessum Stad, Heipten so Hugann fyllte, Hiartad vard forblindad; Sijdarst þeir søgdu þad: Lioosleg a Lijfs-Straffs krefde, Løgmaaled, þvi hann hefde, giørt sig Guds Syne ad.

Riett Løg sem ritud finnast, raangfærdu Judar hier, oss ber þar a ad minnast, ill Dæme for-dunst vier, Doomuren D Rottens er, hin þo med

Heiptum klage, og hreinann Saňleik aflage; Siae Vallds Menn ad sier.

Þaa eg heyre, minn Herra, hvørsu þu kvalenn vart, giorvoll vill Gleden þverra, galdstu mijn nærsta hardt, þvi eg braut myked og margt; Enn þa mier Gudspioll greina, gloggt þitt Sakleysi hreina, Hiartad fær Huggun snart.

Athuga, Saal mijn, ættum, Utgaungu Drottens hier, ó vid riett minnast mættum, hvad Mykt um hanns veitte þier; Hyggium ad, hann wt ber, Þyrne-Koronu þietta, þar med Purpuraň lietta, bloar og Bloodugur er.

Med Blood-Skulld og Bølvan stræanga, beyskum reyrd Kvala-Hnwt, aattum vid greidt ad gaanga, fraa Guds Naad rekenn wt, hrakenn i Heliar Swt, iklædd Forsmaanar Flijkum, fraa skwfud Drottne rijkum, nakenn og nidurlwt.

O Synd! O Syndenn arga! Hvad illt keinur af þier? O! hvørsu Meinsemd marga, maa DRottenn lijda hier! Þitt Gialld allt þetta er, blindad Holld þig ei þeckte, þegar þijn Flærd mig bleckte. JEsus Mykune mier!

Enn med þui wt var leiddur, alsærdur Lausnarenn, giordest mier Vegur greiddur, i Guds Naadar Rijke inn, og eilijft Lijf annad Sinn: Blood-Skulld og Bølvan mijna, burt took Guds Sonar Pijna. Dijrd sie þier Drottenn miň!

Utgeing eg ætijd sijdann, i Trauste Frelsarans, under Blæ Himens blijdann, Blessadur viijst til

sanns, nu fyrer Nafned hanns: Utbored Lijk mitt lided, leggst og hvijlest i Fride, Scal fer til Sælu Ranns.

Dijrdar-Koronu dijra, O Rotten giefur mier þaa, Riettlætes Skrwdann skijra, skal eg og einnen sia, Upprisu Degenum aa, hærstum Heidre til reiddur, af heilögum Englum leiddur, i Sælu þeim sicalfum hiaa.

So munu Guds Englar segia: Sicaed nu þennann Mann, hvorn allskyns Eymd ried beygia, aadur i Heimsins Rann, opt var þa hrelldur hann, fyrer Blood Lambsins blijda, hvenn er nu ad strijda, og sælann Sigur vann.

Þa munt þu, Sæal min, svara, sijngiande fögrum Toon: Lof sie mijnum Lausnara! Lamb Guds a hærsta Troon, Sigur gaf sijnum Þioon: umm blessadar Himna Haller, honum segium vier aller, Heidur med sætum Soon.

Son Guds ertu med sanne, Sonur Guds, JEsu minn, Son Guds syndugum Manne, Sonar-Arfskeynkter þinn, Son Guds eiñ eingietinn: Sÿne Guds sijnge gladur, sierhvor lifande Madur, Heidur i hvort eitt sinn.

## 26. Psalmur.

### Samtal Pilati vid Christum.

Ton, Hærste Gud Herra millde.

HJer þaa um̃ Guds Son heyrde, heiden̄ Lands-Doomare, hann spyr (þvi hrædast giørde): Hvadann vor DRottenn sie? Enn JEsus þijdur þagde, (þad og vel maklegt var) Pilatus brædt ad Bragde, bistest, og aptur sagde: Villt þu ei veita Svar?

Mijn er, þad maatt þu jaata, Magten so tignarlig, eg maa vel lausann lata, lijka krossfesta þig. JEsus svarar og seger: Sijst aatt þu Valld aa mier, ef þier være þad eige, ad ofann giefed, so meiger, Heidre þeim hallda hier.

Saa hefur Synd enn meire, er selde mig þier aa Hønd. Pilatus hygg eg þad heyre, hann grundar Maalenn vond. Giørde strax Grida ad leita; gaafu Prestarner Ans-Vægd ef þessum villt veita, vijst maatt þu ecke heita, kiær Vinur Keysarans.

Heidingiar hallda giordu, Him-Guder þeirra sen̄, Børn ættu alenn aa Jørdu, eins og holldleg-er Menn; Hann Ottast hier ef være, HErrann Godanna Kyns, hugde þvi helldst ad bære, hygge-lega framfære, Ransookn Riettdæmesins.

Skurdgod sijn heidner hielldu, hafande i mestu Akt, forgiefins Hug sinn hrelldu, hrædder vid þeirra Makt. O! hversu framar ætte, einn sierhvor christenn Mann, Ottast DRottenns Almætte, med Ast og Blygdunar Hætte, sem stollt,

stolltum steypa kann.

Af stoorre Makt sig ried stæra, stolltur Pilatus hier, riett Maal til vangs ad færa, reiknade leifes-legt vier; Kann vera margann meige, Meining sw villa þvætt, þo Løgenn brioote og beyge, bañad sie þeim þad eige, fyrst Valld þeir hafa hætt.

Gud er sa Volldenn giefur, giæte þess ædre Stiett, sitt Liene hvør einn hefur, hier af Gude til sett; Hann liet þig Heidur hliota, heidrast þvi af þier vill, Virdingar vel mætt niota, enn varast Drambseme-hroota, Roog og Ranginденn ill.

Yfervalld eiñ Gud sende, Under-Meñ giæte þar ad, Sverd O Rottens hefur i Hende, heidrastul-um vier þad. Hlijduger Fride hallda, Hlijfd og Forsvare næ, Pverlyndes Priootskan kallda, þunglegre Hefndar-Giallda, ad vijsu sier væn-ta mæ.

Eins sem hvør einn misbrijtur, epter þvi straff-ast hann, hardare Hefnder hlijtur, hinn sa meira til vann, þeim mun ei Plaagan þverra, sem priootskast i Synda-Root, sa Pioon æ Von hinns ver-ra, sem Vilia þecker sijns HErra, þo giere þvert æ moot.

Vardveite Vallds-Menn alla, vor Gud i siñe Stiett, so varest i Voudsku ad falla, vel stunde Løg og Riett, hiner i Hlijdne stande, hvør so sem skylld-ugt er; hrein Trw og helgur Vande, halldest i voru Lande, Amen, þess Oskum vier.

# 27. Psalmur.

Pilati Samtal vid Gydinga a Doom-Stoolnum.

Ton, Skaparenn Stiarna HErra hreinn.

Pilatus heyrde hootad var, hønum Keysarans Reide þar, ad leidde JEsum annad Sinn, uppsetst þeger a Doom-Stoolinn.

Gydingum sijdann sagde hier: Siaed, þar ydar Kongur er. Þeir badu: Tak þennan burt fra oss, bradlega lat hann deya a Kross.

Skal eg krossfesta Kong ydvarn? Kallar Pilatus Hædnes giarn. Eingann Kong segia þeir aptur hier, utann Keysaran hofum vier.

Gudspialls, Historian hermer fra, heite sa Stadur Gabbatha, hasa Stein-Stræte þijder þad. Þar matt þu, Saal miin, gieta ad:

Vei þeim Doomara er veit og sier, viijst hvad um Maaled riettast er, vinnur þad þo fyrer Vinskap Manns, ad sviikia af Gotu Sannleikans.

Pilatus Keysarans hræddest Heypt, ef hønum yrde vor Velldum steypt; Þetta sem helldst nu varast vann, vard þo ad koma yfer hann.

O vei! þeim sem ad Oriett Log, umgangast og

þar

Þau tijdka miøg, Sannleikinum meta sitt Sagn meir, Svijvirding ORottne giora þeir.

Huga snij eg og Mæle mijn, minn goode JEsu! enn til þijn: Pilatus Kong þig kallar hier, Kroßfesting Judar Oska þier.

Vijst ert þu, JESU, Kongur klaar, Kongur Dijrdar um eilijf Aar, Kongur Englaña, Kongur vor, Kongur Almættes Tignar stoor.

Þo stoodst þu bundenn þar fyrer Doom, þo leidst þu Hroop og Kvala-Room, affsegia giordu aller þig, undrar stoorlega þetta mig.

O JEsu! þad er Jaatning mijn: Jeg mun um siider nioota þijn, þegar þu Dijrdar ORottenn minn, Doom-Stool i Skyum setur þinn.

Frelsadur kiem eg þaa fyrer þiñ Doom, Fagnadar sælann heyre eg Room: J þijnu Nafne utvallder, utvalenn kalla mig hiaa sier.

Kong minn, JEsu, eg kalla þig, kalla þu Þræl þinn aptur mig, Herra-Tign einga ad Heimsins Sid, helld eg þar meiga jafnast vid.

Haafa Stein-Stræted Heimsins sleppt, hefur mier opt i Vanda steypt, þaangad liet JEsus leida sig, so Lijknen hanns kome yfer mig.

JEsu, þijn Christne kijs þig nu, Kongur hennar einn heiter þu, Stioorn þijn henne so hallde vid, ad himneskum naae Dijrdar Frid.

## 28. Psalmur.

# Um Pilati Handa-Þvott og Doom.

Ton, Nu bid eg Gud þu nærder mig.

PIlatus sa ad sønnu þar, sijn Raad mættu ei gyllda þar, Upphlaup sier bwed hræddest hann, hugde ad stilla Vanda þann, fullnægia villde Foolksins Boon, sa skyllde JEsus Daudans Tioon, Sannleika eingum sinnte meir, so dæmde allt sem beiddu þeir.

Hendur i Vatne þa nam þvo, þar nærst vid Juda mællte so: Siælfer um ydur siaei þier, saklaus vid riettlatt Blood eg er. Allur Almwgenn uppa þad, andsvarar greidt i þessum Stad: Hanns Blood, (þo nu hann kvelie Kross), kome yfer Børnen vor og oss.

Pilatus hafde proofad þar, Pijslar Sok DRottens eingenn var, fyrer og epter eins ried hann, wrskurda JEsum saklausann, þo moot Samvitsku sinne þvert, sialfur viliande dæmde hert. Gud giefe ad Yfervølldenn vor, varest þau Dæme Glæpa stoor.

Hvad margur nu i Heimenum, hier fyrer lastar Pilatum, sem þo elskar og ydkar mest, Athæfe hans og Dæmen vest! Otten i Doome opt fær Sess, Yfer-Herrarner nioota þess; Almwgans Hrôsun olle þvi, illgiarner Skælkar hlaupa frij.

Abata-Von og Vina-Hoot, Verkenn dylia þo

þo sieu lioot, lijka kiemur sw Fordyld fram, sem forsvarad gietur Barabbam; Giefst þa Raunen hvad gyllda skal, Gull-Twngan sw sem Achan stal; Mœskie og þigge Mwtur hinn, meir enn Pilatus þetta sinn.

Eg spyr: Hvad velldur Odyggd flest, eykst nær daglega og fiolgar mest? Umsioonarleysi er Ordsok hærst, eigen Gagnsmuner þessu nærst: Myskun, sem heiter Skœlka-Skiool, skyg̃neftepter um̃ skœnijtt Hool: Ottenn Logenn so þvijngar þrœtt, þora þau ecke ad lijta hœtt.

Fyrer Foolkenu þegar þar, þvode Pilatus Hendurnar, fyrer Gude sier þann gierde Grun, gyllda munde sw Assokun. Varastu Madur Heimsku hañs, hier þo þu viller Sidonet Manns, almœttugs DRottens Augsijn skiœr, allt þitt Hiarta ransakad sœr.

Villtu þig þvo, þa þvo þu hreint, Þel Hiartans bæde lioost og leynt; Ein Laug er þar til edla good, Ydrunar Tœr og JEsu Blood: Grœt þijna Synd, enn set þitt Traust, a Sonar Guds Pijnu æfalaust: Lœt af illu, eim ydka gott, allann varast þu Hræsnis-Þvott.

Bloods-Hefnd a sig og Born sijn med, blindadur Lijdur hroopa ried, efldest so þesse Osken kolld, enn i Dag bera þeir hennar Giolld. Att hugagiarn og ordvar siert, einkum þegar þu reidur ert; Formæling illann finnur Stad, fœst meiga Dœmenn uppa þad.

DRott-

O Rottenn JEsu! sem dæmdur vart, Dooms-are kiemur þu aptur snart; Dooms-Menn lꜳttu til Dijrdar hier, Doomana vanda riett sem ber! Hvo þu vor Hiortu og Hendur med! Hrein Trw vardveite roosamt Gied! Þitt Blood flecklaust sem flóde ꜳ Kross, frelse þad Börnen vor og oss!

# 29. Psalmur.

## Um̄ Barabbas Frelse.

Ton, Eins og sitt Barn.

HEllde Pilatus saklausann, Son Guds til Krossens Dauda; Upphlaups-Madur sa Vijg eitt vann, þa Frelse fann, feck Lijf, enn miste Nauda.

J Myrkva-Stofu sat bundenn beid, Barabbas trw eg hann heite. Mꜳ hier finnast ein Merking greid, um̄ Mannkyns Neyd, mieg skijr ad ollu Leite.

Barabbas frꜳ eg Födurs Nid, flester lærder Menn þijde; Adam lijkest þar eflaust vid, og allt hanns Lid, sem ꜳ fiell Daudans Kvijde.

Upphlaups-Madur hañ ordenn var, þa Epled i Munn sier leidde, sialfs Guds Bodorde sinnte ei par, og sijdann þar, sig og allt Mannkyn deydde.

J Diofuls Fiotrum fastur lꜳ, fangeñ til eilijfs Dauda: aller hanns Nidiar wt i frꜳ, med Eymd og Prꜳ, ꜳttu Von Kvala og Nauda.

Hier

Hier þa JEsu var Heled kallt, af heidnu dæmt Yfirvallde, fieck Adam aptur Freisid snialt, og Foolk hanns allt, sem fagnar þvi Lausnar Giallde.

Nu fyrst eg Adams Nidie er, nær mier gengur þad Dæme; Saal mijn, set slijkt fyrer Siooner þier, og skadu hier, sannferdugt Lærdooms Næme.

O hvad opt hef eg aumur giort, Uppreisn moot O Drottens Anda! Daglega þvi hanns Bodord bert, so braut eg þvert, mier var þo i Hlijdne standa.

Mun og ecke vid Manndrap frij, mijna Saal þraatt eg deydde, ill Dæmenn gaasust af mier nij, og Nauder i, Naungann þar med leidde.

Ofrægur er eg ordenn mest, allar Skepnur þad sanna, skaradum ecker Forsvar sieft, Fangelsid verst, fyrer þvi hlijt eg kanna.

J Myrkra-Stofu eg bunden bijd, Bölvan Logmaals mig hræder, dapurt nalægest Dauds ans Strijd, og Doomsens Tijd, daglega Sorgen mæder.

Heyre eg nu þann Hiaalpar Room, ad hafir þu JEsu villde, fyrer mig lided Lijflaats Doom, þijn Lijknen froom, lausann mig kaupa villde.

Sio heilaga Aflausn, Hryggd og Swt, af Hiarta mijnu greider, Syndanna leysir Hleckia Hnwt, og hier nærst wt, wr hordu Fangelsi leider.

Hvad Dauda Saknæmt skaft a mier, (sodd sann eg Myskun þecke), til Dauda allt var dæmt a þier, minn Drotten hier, Domenum kvijde eg ecke.

Lijf mitt og Saal þig lofar nu, leyst fra Dauds-

ans Fángelse, eg life eda dey, þad er mijn Trw, Obrygdul sw, i þijnu JEsu Frelse.

Himneskre Páska-Hátijd á, hef eg nu þess ad bijda, Myrkra-Stofunne frelstur frá, eg fagna þá, i Flocke Utvalldra Lijda.

So er nu Barabbas ordenn frij, Adam og eg hanns Nidie. Hver christen Sála Heime i, vorn Herra þvi, heidre, lofi, tilbidie.

## 30. Psalmur.

### Um Christi Krossburd.

Ton, Uppá Fialled JEsus vende.

STrijds-Menn Christ wr Kaipu færdu, og klæddu hann sijnum Bwning i, sollnar Under sárt vid hrærdu, þær svidu og blæddu uppá ny, á blessudu sijnu Bake særdu, hann bar sinn Kross og mæddest þvi.

Skiede so á samre Stundu, Simon nockurn bar þar ad, framande Mann, er geck um Grundu, gripu Judar þann i Stad, Krossenum á hanns Herdar hrundu, hann gieck naudugur under þad.

Þeir sem (Sál mijn) Synder drygia, Samvitskunne þvert á moot, Under DRottens vondurnya, ef ecke giora á Lostum Boot: Vid jkulum frá þeim Flocke flya, og Fyrergiefningar bidia af Root.

Uppá Heimsins Ofacklæte, er hier Dæme lioost

kiooſt til Sanns, margann læknade Soll Guds ſæte, ſiwkann medal Almwgans, nu var ei neiñ ſm̃ Boled bæte, og bæri med honum Kroſsiñ hañs.

Simon bæde og Syne hanns bœda, ſiœlf hier nefner Hiſtoriann, Gudhræddur ſkal nioota Nœda, og Nidiar marger epter hañ, Myſkunſemd vid Menn ſœrœda, miñaſt Gud og launa kann.

Framande Madur mætte Chriſte, med honum bar hanns þwnga Kroſs. Hier mœ ſiña, hvorn þad lyſter, hreina Þijding uppœ oſs, Gydinga Foolk þœ Guds Nœd miſte, gafſt Heidingium Dijrdar Hnoſs.

Synda Under yfaſt mijnar, opt œ hverre Stundu nær, Samvitſkunnar Sorg ei dvijnar, Svida-Meined illa grær, Bleſſadar, JEſu, Beniar þijnar, bid eg mijke og lækne þær.

Þeſſe Kroſſens þwnga Byrde, þier var Drottenn logd œ Bak, ſo Fyrermyndan fylld ſw yrde, þa Foornar Videnn bar Iſaak, ſœ þiñ Gœngurenn Sorgar-ſtyrde, af Sœlu minne took Omak.

Minneſt eg œ Þiœning þijna, þig ſw mædde Byrden ſtrijd, ſannlega fyrer Sœlu mijna, ſodd ann leid þijn Giœdſkan blijd; Vegna þeſs mier virdſtu ad ſyna, Vorkunſeme nær eg lijd.

Holld er tregt minn Herra millde, i Hormungunum ad fylgia þier, þo eg fegen feta villde, Footſpor þijn ſem ſkylldugt er, Viliенn minn er i veiku Gyllde, þu verdur þvi ad hiœlpa mier.

Elſku Ged ſo þitt eg þecke, þiœdum villtu ſiña Lid,

Lid, lætu mig Drottenn einann ecke, i Anaud minne þess eg bid, Nafned mitt, þo Nauder hnecke, Naad þijn blessud kanneſt vid.

Komer þu under Krossenn stranga, christ:nn Saala, giær þess hier, ef Hollded tekur ad megla og manga, minnstu hver þijn Skylldan er, lat: tu sem þu siaer ganga, sialfann JESUM undann þier.

Under Krosse Jllvyrkianna, alldrei hier þig siña lat, varastu Glæpe vondra Maña, æ Verk: um kijnum hafdu Gat, Jdka Bæn og Jdran sanna, Elska giarnann Hoof og Maat.

Haf þu, JEsu, mig i Minne, Mædu og Dauds ans Hrelling stytt; Born mijn hia þier Forsioon finne, fra þeim ollum Vanda hrytt, lættu stan: da a Lijfs Book þinne, lijka þeirra Nofn, sem mitt, AMEN.

# 31. Psalmur.

## Predikun Christi fyrer Kvinnunum.

Ton, Sa frials vid Logmaal fæddur er.

FOlked sem DRottne fylgde wt, fyll: test margt Angre hørdu, Kvinnurnar gretu ſart med Swt, ſem hanns Kvøl aumka giørdu.

Siere til þeirra Son Guds ſier, ſagde þa ÆErrann mætur: Grated þier ecke yfir mier, O! Jeruſalems Dætur.

Sonu

Sonu ydar og eigenn Eymd, Eflaust þier grata meged, nælgast sw Tijd sem nu er geymd, nær þier harmande seged:

Sæl nu Obyrian Barnlaus er, og Brioost þau ei sogenn voru, hrynie yfir oss Hallarner, Hæder og Fiøllenn stooru:

Ef giørt er so vid þad græna Tre, gieta hver til þess næde, hvad hid þornada þar mun ske? Þad trwe eg JEsus ræde.

O hvad Veralldar Virding er, vollt og svikul ad reyna! Giæt þess, mijn Sal, og siaadu hier, sannproofad Dæmed eina.

A Pælma Sunnudag sialfur inn, Son Guds i Borg nam rijda, Astviner hanns þad sama Sinn, swngu Lof aan alls Kvijda.

Faam Dogum sijdar sialfur wt, færdur med Kross nam ganga, þad hlutu hanns Viner ad sia med Swt, Sorg Hiartans barru stranga.

Hafi so vered vollt og flaa, Verollden HErra sijnum; Hvers maa sier vænta Þrællenn þea? Þess giæt i Huga þijnum.

Þeim sem hun bijdur Blijdleik sinn, bwenner Sorgen mesta, hyrtdu þvi alldrei Huga þinn, vid hana, mijn Sal, ad festa.

Sannlega skylldugt sege eg mier, saara ba Kvol ad grata, sem, Drottenn JEsu, þwngt ad þier, þreyngde i allann Maata.

Samt er þier ecke þient med þvi, þott eg þig aumka villde, eilijfa Hætign ert þu i, upphaf-

 om

enn JEsu millde.

Þar maa nu helldur aukast af, Angur Saurs vitskunninar, Ordsok eg til og Efne gaf, allrar Hormungar þinnar.

Erfide hef eg auked þier, offkwnat med Syndum mijnum, Slæpanna sem eg giorde hier, galdstu aa Hollde þijnu.

Hræddest eg mier sie hulenn geymd, sw Hefndar Pijnan stranga, þui eg van til ad eilijf Eymd, yfer mig skyllde ganga.

Enn þo gled eg mig aptur vid, Aforþtenn Kvosla þinna, þar af odlast eg Frelse og Frid, og Forlaat Synda minna.

Anzistin Saar og Sorgar Laat, er Saal h...ist biaadu mijna, snijst i Fognud og fegenn Graat, fyrer þaa Mijskun þijna.

Bid eg nu, JEsu, blijde þig, sem Boot mier giorder vinna, laat eingann gialld'a epter mig, Illsku nie Synda minna.

# 32. Psalmur.

## Um græna og visna Tred.

Ton, Nu kom Heidenna Hialpar Raad.

Sæteiner JEsus um græna Tred, giet ur hinns visna einninn med. Vid skulum, Saal mijn, skoda aa ny, skijrann Lærdoom aa Maale þui.

Frioos-

Frioofgunar Eyken vokvud væn, vel=bloomgud stood med Laufin græn, þegar a Jordu-komst til Salis, Son Guds iklæddur Holldе Manns.

Lijfsins Avexte likwsa bar, læknade Jesus Soott ernar, frá Diofle leyste og Daudans Pijn, dauf um gaf Heyrn enn blindum Syn.

Af hverre Grein draup Hunang sætt, Hialpræded Kienning fieck hann tæddt, oll hanns Umgeingne astudleg, angradar Saaler gladde mieg.

Gude var þeckt þad græna Tred, glodduft Himnar og Jorden med; J hañs Fæding þad vitnast vann, og vid Jordan þaa skijrdest hann.

Riettlætes allann Avoxt bar, inn til Kross-Dauda bliidenn var, Sakláusa Lambed Son Guds eitm, af Synd og Lijtum klaar og hreinn.

Þo mætte ei þad edla Tre, Angurlaust vera a Jordunne, Guds Reide Stormur geysa vann, geck þvi Refsingen yfir hann.

Ef þu spyr ad: Hvad valldа vann, villde Gud lata Saklausann Sonen komast i Sorger þær, sem honum var þo Hiarta klær?

Þu skallt vita ad visnad Tre, var Mannkyn allt a Jordunne, ofan ad Rootum uppþornad, Avoxt Rænglætes færde þad.

Skadsemdar Tred sem skiemde Jord, skipade Drottens Reide hord, upphoggva, svo þad ecke þar, Akrenum sie til Spillingar.

Vor JEsus Monum Vægdar bad, vinnast mætte ei ad fengest þad, utan hañ tæke uppa sig,

Jllverka Giollden hryggelig.

HErrann iklæddest Hollde þa, hijngad kom til vor Jordu a; Visnadre Eyk gafst Vokvan god, þa vard wthellt hanns dijra Blood.

Saklaus þvi leid hann Sorg og Hæd, syndugt Mannkyn so fenge Naad, hid græna Tred var hraked og hrist, hier af þad visna bloomgadist.

Guds Dijrdar Sæte sitt Holld i, Sonurenn mætte ei hefia þvi, fyrr enn i Heime harda Neyd, hafde þolad og Krossenns Deyd.

O! hvad Mañs Holld er Heimsku fyllt, hryggelega wr Mæta villt! Viliande i Lostum liggur þad, leikur sier allskyns Glæpum ad.

Márger ætla fyrst ecke strax, æfellur Hefnden sama Dags, Drottenn þæ alldrei mune meir, minnast æ þad sem giordu þeir.

Þvi gooda Trenu þyrmt var sijst, þurrum Fausk mun þvi Bæled vijst: Hafe Faderenn hirt sinn Son, Hefndar mun Þrællenn eiga Von.

Ef nu Guds Millden ástwdlig, Ohegnda, Saal mijn, lijdur þig, hanns Polennmæde halldtu hier, Hiælpræde Medal gefid þier.

Visnad Tre eg ad vijsu er, vægdu Rettlætes Herrann mier, Giædskunnar Eyken græn og fijn, geymdu mig under Skugga þijn.

Von er ad mier sie Mootkast vijst, mun eg umflya Daudann sijst: Helldur mæ ei fyrer utann Kross, eignast æ Himnum Dijrdar Hnoss.

Tæpte eg mijnum Trwar Staf, æ Tred sem dryp

driipur Hunaang af, Sioon Hiartans öllu Angre i,uppliisest, nær eg smacka af þvi.

Þegar mier gaanga Þrauter nær, þier snw þu til miin, JEsu, kiær, Hiartad hresse og Hugg miñ, himneskur Naadar-Bokve þinn!

## 33. Psalmur.

### Uñ Christi Krossfesting.

Ton, Konung David sem kiende.

KOm loks med Krossens Byrde, Christur i Hausa-Stad: Orþiaadur fraa eg hann yrde: Edik Galle blandad, hønum þeir hielldu ad: ORottenn vor Diirdar millde, drecka þo ecke villde, þa hann smackade þad.

Fals under fegru Maale, Fordilldar Hræsnen ber, Binaatta temprud Taale, og trwarlaus Yðran hier, Edik Gall-blandad er, soddann Swikdreggia Wijne, (þo sialfst glislega skiine,) HErrann hrinder fraa sier.

Þad tek eg viist til Þacka, þa þu villt, ORottenn kiær, swort med þier sialfum smacka. Sie þiin Myskunen skiær, i hvorre Neyd mier nær! Gall-Beyskiu Bolvaneñar, og Bikareñ Heyptareñar, burt tak þu fraa mier fiær!

Nakenn JESUM aa Jørdu, Juðar krossfestu þar, med Heyptar Sinne hørdu, Hønd-

Hendur og Fæturnar, teigt allt og tegad var, gieck so Jarn-Gaddur nijstur, giegnum Loosa og Ristur, Skinn og Bein sundur skar.

Tveggia Mordingia mille, Mijskunar-HErrann hieck, Spaadoomenn fra eg so fylle, sem fyrr meir um þad gieck, ræder so Ritning þeck: Pioon minn sa einn utvalenn, er med Spillvyrkium talenn, Försmaan nóg þunga fieck.

Nu eg mineft a nærsta, naken þa Adam stood, vid Tried med Hormung hærsta, Hiarta-Sorg, Bøl og Mood, þvi Verk hans voru ei good: Innvortes Angred kvalde, under Trianum sig falde, þess galdt oll Heimsens Piood.

Nu aptur JEsus nakenn, negldur a Trienu stood, pijndur, hrodstrijktur, hrakenn, Hiartans bar saarann Mood, þo voru oll Verk hans good: Einn fyrer eingum faldest, opinberlega kvaldest, þess naut oll Heimsens Piood.

Horfi eg a Hondur þijnar, Herra minn JEsu kiær, fyrer Misgiorder mijnar, Meinenn stijk lidu þær, Blood-Dreyrenn dunde skiær, Saurgun Saalar og Handa, sem mier komu i Vanda, af hreint med ollu þvær.

Fws var eg fram ad hallda, Ferel Glæpanna hier, þess Fætur þijner gialda, þad vard til Lijknar mier: O Rotten, eg þacka þier, fram a Fridarens Leider, Footspor mijn jafnann greider, hiedan a

af hvar eg fer.

Gud giæf! mitt Holld mætte, med þier kross-fest ast nu, fra ollum Illsku Hætte, Ok mijn er daglig sw, min HErra! þad veitst þu, uppa þad Ønd mijn kynne, Ohindrud Giædsku þinne, þiona med þijdre Trw.

Einn med Illrædes Mønnum, aller þig hielldu þa, sem i Heilagleik sønum, sialfur komst Himnum fra, nu eg þess niota ma, af þvi eg er utvalen, med ødrum Guds Børnum talen, þar treyste eg eflaust a.

Eg mun æ medann hiare, minndst a Krossenn þinn, Heimsens liwfe Lausnare, lijfgar þad Huga minn, hvort eg geing wt eda inn, af innstum Altar Grunne, ætijd med Hiarta og Munne, segiande hvort eitt Sinn:

JEsu Christi Kvøl eina, a Krossenum fyrer oss skien, sie mijn Sattargiørd hreina, og Synda Kvittunen, af sialfum Gude sien: Uppa þad Ønd mijn vonar, i Nafne Fødurs og Sonar, og heilags Anda, A M E N.

# 34. Psalmur.

## Fyrsta O R D Christi a Krossenum.

Ton: Lifande Gud þu lijt þar a.

ÞEgar Kvalarar Krossenn a, keyra vorn HErra giordu, flatur med Trenu lagdur la, Lausnaren nidur a Jørdu, Andlited horfde i þeim Stad,



og

og Augunn hanns blessud Himnum ad, hann stunde af Angre hordu.

Sinn Fadm allt eins og Barned blijdt, breidde moot Fodurnum kiæra, Blooded dunde og Tåreñ tijdt, titrade Hollded skiæra. Hier skoda Madur Huga þinn, Hvad kunne meira nockurt Sinn, Dröttenn til Hefndar hræra?

Ovinum Fridar blijdur bad, Bruñur Myskunarinnar, hañ vill þeir niööte einneñ ad, Avaxtar Pijnu sinnar, Sagde: FAder, þÆim fyrergief þu! forblindader EJ. VJta nu, sialfer HVad vondt þÆir VJnna.

Launsnara þijnum lærdu af, Lunderne þitt ad stilla, Hoogværdar Dæme gott hann gaf, nær giora Meñ þier til illa: Bloot og Formæling varast vel, og Valld Guds allar Hefnder sel, Heypt lát ei Hug þinn villa.

Hvott þu vid adra saklaus siert, sannlega skallt þess giæta, samt fyrer Gude sekur ert, sem ma þig sirialst ad græta. Iller Menn eru i Hende hanns, Hyrtingar-Vondur syndugs Manns, eingeñ kañ þess ad þræta.

Ovinum ills þo Osker hier, ei mijnkar Heipten þeirra, Oþoleñmæde eykur þier, afræker Bod þijns HErra, þu styggir Gud med soddann Sid, Samvitskan miog þar sturlast vid, Tioon þitt verdur þvi verra.

Upplijstu Hug og Hiartad mitt, HErra miñn JEsu sæte, so ad eg Dijrdar Dæmed þitt, daglega stund-

stundad glæte; Þeir sem Ofurþient angra mig, Oska eg hellst ad betre sig, so hiaa þier Myssku mæte.

Heimsens og Dioffuls Hreckia Viel, Holld-ed bræalega villa, þess vegna ecke þecke eg vel, þo nu margt giore eg illa: Vere so til eg blindest hier, bid þu þaa, JESU, fyrer mier, þad mun Hefnd harda stilla.

Eg maa vel reikna aumann mig, einn i Flock þeirra Manna, sem i Kvølenne þiaadu þig, þad voru Giølld Syndanna. En þu sem bætter Brot mijn hier, bid þu og lijka fyrer mier, so faae eg Frelsan sanna.

Fyrst þu badst Fridar fyrer þaa, er Forsmaan þier giørdu mesta, vissulega eg vita maa, villtu mier allt hid besta, þvi eg er Guds Barn og Brooder þinn, blessade JEsu, HErra minn, Naad kann mig nu ei bresta.

Allra sijdarst þaa ætla eg hier, Andlaate mijnu ad giegna, sie þa, minn Gud, fyrer Sioonum þier, Sonar þijns Pijnan megna, þegar hann lagdur laagt aa Trie, leit til þijn Augum grææatande, vægg þu mier þa hanns vegna!

# 35. Psalmur.

## Um Yfirskriftena aa Krossenum.

Ton, Naatturan øll og Edle Manns.

**Y**Firskrift Pilatus eina liet, yfer Krossenum standa: JESUS nefndur af

NAzareth, nijr KOngur GYdinga Lands:
( DRottne med sann, Doomarenn sau, Daryra.
Sok einga stærre ). Margur las pad, i peiss-
um Stad, pvi hann var Borg so nærre.

Pad var ritad og pannenn sett, i prenn-
slags Tungumaale: Vallds-Menn Juda
pad vissu riett, vilia pvi Pilatus bi male;
Hañ ansar greidt, ei skyllde neitt, uñ breitt,
og framar tiade: Hvad skrifad er, skal
standa hier. So skiede af DRottens Raade.

Par nu a Krosse Herrann hieck, hier ad,
mijn Saala, giætum, Virdingar Titel fagrann
feck; med Forprijs Sakleyses mætum, ad Hiaalp-
ar fws, heiter JESUS, Heimsens Lausn-
arenn goode, hvor Dioste fra, oss frelsa ma,
flecklaus med sijnu Bloode.

NAzarenus hañ nefnest þar: Neatturu Spille-
ing Manna, frææskileñ einn ad vijsu var, velþecka
Hlijdne saña, sijnde hañ hreint, liosst bædi og leynt,
lifande Gude einum, hañs Tignar Son, trwr,
forsiaall Pison, tryggur i ollum Greinum.

KOngur GYdinga klaar og hreinn, i Kraps-
te gudlegum drottnar, sa Davids Stool skal
erfa einn, alldrei hanns Rijke þrotnar, Israels
Hroos, heidenna Lioos, heitenn Forfedrum leinge.
Soddann Titel, soomde riett vel, Saal mijn, þiñ
HErra feinge.

Soddañ Virdingu villdu hann, vonder Gyd-
ingar sneyda, Heyptar Ofunden i þeim brann, af
hvi

þvi Pilatum beida, Ordtak þad brædt, ad aũañ Hætt, wrfæra settum Mæta, hann kvad vid nei, þvi þad vill ei, þeim DRottenn veitast læta.

Dramblæatum setur DRottenn Skamt, med Diorfung synar og Hrecke, þeim lijdst so sem hann leyfer framt, leingra komast þeir ecke; Allt skal mitt Traust, efunarlaust, ad hanns Makt jafnann standa, hvad munu mier, þar Mennerner, meiga i nockru granda?

J þrennslags Twngum var þetta skræd, þviad vor HErrañ millde, villde sijn Elska, Ast og Náad, allre Þiood byrtast skyllde. Hvort Twngu-Mæl, med Huga og Sæl, heidre þig, JEsu goode! sem Kvølen þijn, og Krossens Pijn, keypte fra Syndañ Mooде.

Gief þu ad Moodur-Mæled mitt, miñ DRottenn, þess eg beide, fra allre Villu klært og kvitt, Krossens Ord þitt wtbreide, uñ Landed hier, til Heidurs þier, hellst mun þad Blessan vallda, medañ þijn Náad, lætur vort Láad, Lijde og Bygdum hallda.

Handskrift var ein yfer Hofde mier, hun mijna Sæalu grætte: Nũ stood, JEsu, yfer þier, sem Angur vors Hiarta bætte. JEsu, þu ert, wtvaleñ þert, under Kongs Stioornan þiñe, ærla og sijd, uñ allann Tijd, Ohætt er Sæalu minne.

# 36. Psalmur.

Uñk

# Um̃ Utgaungu Kvennanna til Grafarennar.

Ton, Dagur i Austre allum.

ARla sem eg nam greina, wtgeingu Kvinnurnar, Hiartans Elskuna hreina, hvør þeirra byrte þar, er þær til HErrans høfdu, hrædduſt ei Fair nie Vans, aſtrijkar ei vid tøfdu, andvana ad vitia hanns.

Vilier þu fa ad finna, Frelsarañ, Saala mijn, Naad hanns og Aſt ad vinna, um̃flija Heliar Pijn, arla i Æsku þiñe, attu hañs leita fyrſt, haf Gud i Huga og Minne, Hollþens þier forda Lyſt.

Arla hvørn Morgun minnſtu, mijn Saal, i aññann Stad, af Hiartans Alwd innſtu, ei laat þier gleymaſt þad, ollu fyrr ad þu leiter, i Bæn og Þackargiord, þijns Guds; Ef þanneñ breyter, þier bleſſaſt Himen og Jord.

Hier ad auk attu ad leita, ad DRottne, Saal mijn blijd, arla med Ydran heita, a þægre Naadar Tijd, medann þu matt hañ finna, og Millden hanns bijdur þijn, og þier vill Aſt hañs ſinna, Arma breidande ſijn.

Sein Ydran sialldann færer, syndugum rietta Boot: Huggun Guds Hiartad nærer, ef henne ei ſtondum moot. Nu eru eñ Naadar Tijder, nu Dagur Hialpræđes; ydrande liwfer Lyder, læred ad giæta þeſs.

Aller hugleida ættu, ervidt þad veita kann, i Daudañs ytſtu Hættu, ad ſiña Lausnarañ, ef ad Mann=

Manneskiañ ædur, ecke hanns leitade, Daudenn bistur og brædur, bægt lætur slijkt i Tie.

Pad Epterdæme eina, ydrande Næningians, ei leider, (ad eg meina), alla til Himna-Rañs; Dviss er Lijffins Ende, engeñ þvi fulltreyste, Nææd-en sie samt i Hende, þo seint hennar leitade.

Opt leita eg Angre vafenn, ad þier, minn JEsu kiær, i Hryggd og Hormum kafenn, Hiartad þa Sorgen slær, segenn kiis eg þig finna, þo fresteft marga Stund, sem þu vilier ei sinna, syndugs Manns hrelldre Lund.

Eg veit Misgiorder mijnar, mig skilla DNott-ne fræ, giørvsll þvi Gleden dvijnar, Geded Har-marner þiæ: Ecke neiñ Yndes Hagur, ecke neitt hugga kann, eingenn Ununar Dagur, ef aptur ei finn eg hann.

Lææt mig til Leingdar eige, leita þijn forgiefins, minn Gud, æ Mootgængs Vege, i Mædu Hugs-skotsins, Þol og Trw finnst mier þverra, þad æd-ur lijted var, kom til mijn kiære HErra, kom snart i Leiternar.

Hryggelegt er ad hreppa, HErrañs Nælægd um Stund, og honum aptur sleppa, epter þann Glede-Fund. O JEsu! Eg þijn leita, O JEsu! Leita mijn, og vyrdst mier aunum veita, ad alldrei missee eg þijn.

## 4. Psalmur.

Uiñ Erende Kveñaña til Grafareñar,

 ad

## od smyria Lijkamann JEsu.

Ton, Einn HErra eg best ætte.

MEyeingnar af Borginne, æsettu Kvinnurnar, dyggvar med døpru Sinne, Drottne til Virdingar, ad smyria Holld hanns hvijta, hafande Efnenn good, harmþrungnar Ferdum flijta, fram þaangad Grøfen stood.

Fra Galilæa fooru, swsar med HErranum, og vid hans Andlaat voru, allnærre Krossenum, Greftrunar hans þær giæta, grant vissu þennann Stad, hvar JESU Hollded mæta, hafde vered jardad.

Krwser þær fullar færa, fyllra þo Hiartad var, med Ast og Elsku skiæra, eckert sparadest þar, Umkostnad einganñ telia, Omaked reikna sijst, Heidur sier hærstann velia, HErrann ad smyria vijst.

Hier mættu Madur finna, mestu Kiærlekans Dygd, Kvinnurnar lææta ei linna, lofsverda Ast og Trygd, vid HErrañ, hvorn þær meina, hvijla andvana Nææ, og Hugsun ei hofdu neina, hann munde lifa þaa.

Eg veit þu ert fra daudum, upprisenn JEsu minn, lifande laus af Naudum, lijka i Himeninn, fareñ med Sigre frijdum, fyrer oss bidur þar; Eñ Ast til þijn er hiaa Lijdum, ordeñ sem kulnad Skar.

Eg blygdast alla Vega, af Dæme Kvennanna, Hiartad er hrellt af Trega, þvi hreina Elskuna, giore

giøre eg sijst þier sijna, so sem ad skylldugt er, enn treyste æ Naad þijna, ad hun forlæte mier.

Lijt eg enn lijtt til Fara, hiæ lofsverdu Kvinnunum, þad Lioos, sem þurfte ad skara, i þeirra Naudsyniuni, þær meintu Lijked liggia, lagt i Grøfenne kyrrt, ad hanns Søgn ecke hyggia, er þeim fyrr hafde byrt.

Þær høfdu heyrt, hann hafa, hermt sig æ þridia Dag, upprijsa æn alls Vafa, ad þvi sig gæfu ei par, veiktrwadar ei vona, være þad frammkomed. Sætaste JEsu! sona, sijnest stadt mannlegt Ged.

Eg sie hier ækaft strijda, Orku og Veikendinn, Kvennanna Kiærleiks Blijda, kom þeim til, Jesu minn, af sterkum Astar Hætte, ad smyria Hollded þitt, enn Trwen af minnsta Mætte, mætte beriast vid sitt.

Brækadann Reir ei brijtur, þijn blessud Astseme, veik Trwa Naadar nijtur, naumt þo hun hallden se, Kveiks-Reiken kiæfer eige, kiæraste Ande þinn: A Trwar veikum Vege, vere Gud Styrkur minn.

Hugsa umm Sæl mijn hijra, hvar þau Smyrsl kunner fæ, sem Guds Sonar Giædskan dijra, gyrnest nu Himnum æ: Utaus Ydrunar-Tæarum, ei læt þar verda æ Stans, med Sorgar-Trega sæarum, so smyr þu Fætur hanns.

Høfud hanns Heidre blijdum, hier nærst þu smyria skallt, hanns Lof med helgum Lijdum, hlioodma læt þu ævallt, fyrer Myskunn margfallda, sem

Milld.

Milldon hanns veiter hier, honum Prijs hærstañ giallda, hugsa þijn Skylldan er.

Þu ætt i þridia Mæata, þess giættu Sæal mijn kiær, tregdulaust til ad læta, Trw good sem orkad fær, þaa Smurning, hvor ed heiter, Hiartans Medaumkan blijd, og Olmusu Verk, sem veiter, voludum Þurfa-Lijd.

Aumstadda christna alla, andlegann Lijkama, Guds Sonar kann eg kalla, af Kienning Ritninga. Ef þu med Ast og Blijdu, annast sæatækann hert, O Rottenn med Þele þijdu, þad reiknar vid sig giört.

Ei skalltu eptertelia, ei reikna misræadid, þad JEsu þu kañst velia, og þurfande taka vid, alldrei nockud wtsijgur, sw andlega Smurningeñ, Ilmur hennar uppstijgur, af Jord i Himenenn.

Eg veit ad Ilmur sætur, af þessum Smurningum, leggur ofann miog mætur, i moote trwudum, eñ helldst æ effta Dege, þa Endurlausnareñ tier: Sann-blessada eg sege, sem hafa biargad mier.

Med Oleo heilags Anda, ædur þu smurdur vart, mætte ei moote standa, mannlega Holldsens Art, ad ei uppryjsa næder, ei villder Smurningar, med þeirra Sæasu giæder, Guds Skepnr voladar.

Minn Hiartans HErrann kiære, hiælpa mier allann Tijd, ad eg Olmusu tære, aumstoddum Þurfa-Lijd, og æ þeim effta Dege, med Ordum þijn huggadur: Kom þu af Kiærleiks Vege, kom þu nu blessadur.

5. Psalm-

# 5. Psalmur.

## Um Jardskialftann.

Ton, Til þijn heilage HErra Gud.

Uppriſu JEſu eg viijſt ſiñ, ordeñ Skialſta Landanna, Jørden vard Okyr i þad Sinn, eins og Ritningar ſanna, J hanns Dauda ſkalf ædur Folld, þær ætte ad leggiaſt nidur i Molld, Skapare dijr Skepnanna.

Vid Jardſkialftann nam ſkelfaſt ſkiott, ſkickud Vakt Grafarinnar, eins ſem daud nidur fiell hun ſkiott. Feck ei giætt Skylldur ſinnar. Jll Samvitſka, þu aume Mann, alltijd hræder þig ſyndugann, og ſvipter Styrk Sælarennar.

Lijflauſum Hlutum eingenn er, Adſtod af þinne Pijnu, O minn JEſu! Eñ aumum mier, i Synda Bole mijnu, ſtendur æ Hiartans Hugar Hræd, þvi hafder þu giordt mier fulla Nægd, ſem lijſter i Læte þijnu.

J þinne Pijſl, ſem ofbyde, allre Høfud Skepnunne, þegar þu lokſins lietſt a Tre, lijtt fylgde hun Natturuñe, eñ a þinne Uppriſu Tijd, oll Natturan vard glod og blijd, þad hæger Hugraun minne.

Soolen byrteſt þa biort og ſkijr, bræddt nam ſig Jorden hræra, lieku ſier Biorg ſem lyſtug Dijr, Lof ſem þau villdu færa, Sigurvegara ſonnum

þitt,

þa, sem Daudanum var risenn fra, Skapara þeirra skiæra.

Okyrr vard Jorden i þad Sinn, eins sem hun Dans-Leik hiellde, þegar ad Hiartans Herrann minn, Hoop Ovinanna fellde, Helviste braut, en̄ hrakte Deyd, hiaalpade oss wr Kvala Neyd, med sijnu Maktar-Vellde.

Frelsare minn, eg fagna þier, fraa Daudum uppriisanda, Saal mijn gledst nu, og giorer sier, Gladværd i þijnum Anda, Holld mitt fagnar, þvi þegar þraung, þrijstur Hiervistar Mæda laung, gladt mune af Grofuppstanda.

Jeg er ad vijsu Jord og Molld, jeg maa skiaalfande vera, þegar Guds Blood og heilagt Holld, hann lætur til mijn bera, i Sacramente sijnu hier, sannlega losast þa af mier, Boot og Betran ad giora.

O JEsu! Eg þad efnt ei giet, eins so sem vera skyllde, Natturan ill mier epterliet, eckert i nockru Gillde; Eg heite Boot, enn æ fyrer þier, oll mijn Lofun þo brygdul er, Mig naade Drottens Millde!

J Skriftenne er umgetid, ad Skiaalfte Jardarinnar, sked hafe þegar fyrrter Frid, i Fangelse Neynslu sin̄ar, Paulus og Silas saatu um̄ Nott, sviptust þaa af þeim Fioturen̄ skiott, upplaukst Hurd Ytra og Innar.

J Upprisu þinne eins vid braa, O min̄ Frelsarenn kiære! Jorden vard Okyrr einnenn þa, enn mier gafst Tækefære, wt ad ganga fraa Synndun-

dunum, inn i Frelsid og Himnunum, so sem eg saklaus være.

Pegar fordum sitt Gud wtgaf, Gydingum Logmaal strænga, skalf Sina Fiall, enn Felintre af, Foolked ried burt ad gaanga. Illgiörda Moñum Hefndum hart, hootar Logmaaled Peige spart, Peim sem rækia hid Ranga.

Pegar minn liwful Lausnare, Lijfs nam fraa Daudum rijsa, jafnskiott vard mikell Jardskialfte: Jeg maa Ofkelfdur lijsa, ad skied var Logmaals Uppfylling, i mijns JEsu Sigurvinning, hann skal mitt Hiartad prijsa.

Hvenær sem Logmaals Hootun sterk, hræda vill Saalu mijna, ei skal mig skelfa eitt mitt Verk, O JEsu! Borgun Pijna, eg ber fyrer mig Ar og Sijd, Oskelfdur hveria Lijssins Tijd, so mun oll Eymd mijn dvijna.

## 6. Psalmur.

### Um Samtal Kvennanna, pa pær gengu til Grafarennar.

Ton, Være nu Gud oss ecke hiaa.

PA JEsus uppreis, ofanstie, Engill i Jardskialftanum, greip burt Steinenn fraa Grösinne, Glede vard pad Kviñunum, hañs Asynd skein sem Ellding klaar, og hanns Klæde vard hvijtt sem Sniaar, af himnesk-um Hautignunum.

Kvinn.

Kvinnurnar ecke þenktu þa, þegar wtganga nadu, ad Hindrun nockur yrde a, Eyrende þeirra bradu: Enn a Vegenum ad þeim ſloo, Otta og Kviþda nockrum þo, ein vid adra ſo tiadu:

Hvør mun i burtu hardann Stein, fra Herranns Legſtad færa? Oſs hann hindrar og eykur Mein, ei kunnum vier hann hræra, enn þo hielldu þær afram ſamt: Elſkunne er þad nærſta tamt, ad lata ſig Bol ei bæra.

Hvør mun burt-vellta hordum Stein? Hvør mun mig veikann ſtoda? Stooraun Þwnga og margskyns Mein, mier gioret Logmal boda, a Steinum fordum uppritad, ei giet eg fyllt nie halded þad, þvi ſtend eg vijſt i Voda.

Þa er og Kroſſens þwngur Steinn, þiaer hann Hollded veika; honum burt-vellta, er eg einn, allann Tijd lijtt til Reika; eg ma þreya og þola hier, þad O Rottenn Gud vill ſenda mier, þa adrer lyſtugt leika.

Salena giorer Þwnge þiaa, þvi velldur ſtærd Syndanna, ſoddann Biarge i burt ad na, bægt veiter Kreptum Manna; Satan med Freiſtne ſinne ſlær, Samviſkan þar af Sturlan fær; og efar Guds Adſtod ſanna.

Þwnga Logmals er liett af mier: Lauſnarenn JEſu mæte! Þad a eg vijſt ad þacka þier, þeſs er æ ſkyllt eg giæte, Logmaled þu uppfyllter einn, ei ſo burt-velltur þeſſe Steinn, Sigurvegarenn ſæte.

Kroſſ-

Krossens Þwinge þo þiäe mig, þad skal mier allkiært vera, eg treyste, JEsu! uppa þig, ad eg kunne hann bera, Ok þitt leggur þu alldrei meir, uppa þann sem er Molld og Leyr, enn sætt vilier siälfur giera.

Enn þo Säälena æstrijde, Ofþwinge Freystinganna, þig, Drottenn JEsu! samt eg sie, sætustu Huggun Manna. Þu varst Freystadur Furdu þrätt, Frelsare minn a allann Hätt, so Aumkan mier synder sanna.

Hugsa eg enn uñ hardann Stein, er hamlar mest JEsum finna, og eilijst giører Andar-Mein, ollum sem Gude ei siña: Yfirnarleysi heiter hañ, hvørn ad Diøfull innsigla vann, med Þriootsku Þræla sinna.

Hægt er þier kiære christenn Mann, koma burt þessum Steine, ef Idran giører; Alldrei hann, er þier framar ad Meine. Þess mikla Rädsins Engill er, æ til Reidu ad lijkna þier, þo syndger liooft og i Leyne.

Allt hvad mitt Hiarta hindra kann, HErrañ minn JEsus goode, fra mier take, so siñe eg hañ, firrtur Sorgum og Moode. O miñ JEsu! Þa eg þig sie, Ønden mijn verdur fagnande, bæde hätt og i Hlioode.

## 7. Psalmur.

### Uñ Grøfina.

Ton, Sæll ertu, sem þinn Gud.

KVinnurnar komu brått, til Christi Grafar, Þel Astar þeitra hatt, þeim flijtte aa Tafar.

Ut þangad einga Dvøl, attu þad Siñe. Hafande Hiartans Bøl, enn HErrann i Minne.

Þu sem villt finna sa, Frelsarann sæla, Dvøl gior þar ecke a, ef ei villt þig tæla.

J Tijma attu hanns, audmiwkur leita, med Jdran, utann Stans, ei þar af breita.

Hvar mun eg hitta þa, HErrann minn blijd, da? Sem ad mig Sorguin fra, svipter og Kvijda.

J Grøfenne giördu hier, Guds Sonar leita, Kvinnur: Sem auglyst er, med Astar Þel heita.

Ei kemst eg aumur Mañ, so Angre farge, þangad, hvar hvijlldest hann, i hørdu Biarge.

Mier liggur lijted a, Leid þangad giera, sem þinn Lijkame la, latenn, minn Herra.

Pilagrijms Ganga sw, sem gløggt ma jata, vijkur fra vissre Trw, a vondann Mata.

Þijna Grof þo vil eg, þu JEsu kiære, athuga einhvörn Veg, eins sem þad bære.

J henne eg kann fyrst, ad sia minn Dauda, i Grof vor gioerest Vist, goodum aa Nauda.

Eins mier sem øllum er, a sett ad deya, einum og ødrum hier; Ord Guds þad segia.

Hialpa mier HErra minn, ad hugsa daglega, um

um̃ mijns Lijfs Utgaanginñ, med Jdrunar Trega.

Þaa Lijfid endad er, so Eymden þrotne, Lijfid mitt likta eg hier, i lifanda Drottne.

Eg fer i annad Sinn, ad sia Gröf þijna, liwsi Lausnare minn, so liettest Pijna.

J Gröf þinne giörder þu, Gröf mijna bæta, hvar Hollded hvijler nu, og hefur Roo sæta.

Þu hefur Herra kiær, helgad Gröf mijna, Svefn-Stofa sw er vær, þar svipptest Pijna.

Þo Kropp-urenn koolne i Folld, kvijde eg þvi vige, þar hvijler hægt mitt Holld, ad hærsta Dege.

Eg hefi giört mier Gröf, med glødu Sinne, O JEsu! utann Töf, i Sijdu þinne.

Trwen mijn Taallaust sier, tilreidt þar hefur, Legstad, sem lynder mier, og Lijkn alla gefur.

Þar vil eg lidenn Lijfs, liggia, minñ Herra, eg veit þar aan alls Kijfs, Eymd mijn kann þverra.

Gröf Joseph giörde sier, i Gröf sijna lagde, saa-tenn vorn Herra hier, med hrødu Bragde.

Ur Josephs Gröf, JEsu kiær! Jeg veit þig gengenn, Aminñing er mier skiær, af þessu fengeñ.

Ad eg nu uppaa ny, i Hiarta mijnu, grefstre þig, þaa af þvi, þrijtur mig Pijnu.

Eigenn Gröf þad sie þijn, þu JEsu sæte, eid-est þaa öll mijn Pijn, þo Angred græte.

Nya Gröf giöre eg þier, Gud minn daglega, þaa Jdran auglijser, Ønd mijn med Trega.

Sem stadfost Stein-Gröf sie, Sturlun ei hræ-re, mijn Saal: Þad mier veite, minñ Jesus kiære.

Mier aumum Millden Þijn, megnar ad snwa, hvijl Þu i Hiarta mijn, hia mier vyrdst biwa.

## 8. Psalmur.

### Um̄ Englaña Opeñberan og Vitjan Christi Upprisu.

Ton, Hærste Gud Herra millde.

Hvijtinurnar grætnar gengu, til Graf-arennar senn, Føgnud Þar sliootann feng-gu, og fundu ad Engellenn, Þadann Stein-stoorann hafde, med Styrk himneskum fært, Þeirra Gyrnd Þessa krafde, Þvi Hiartad Kvijdenn vafde, ad giæte Þær hann ei hrært.

Sie eg ad Sorg og Glede, sijfelldt i Heimen-um; eins og Guds Raad Þvi riede, til Reyns̄lu Gudhræddum, ad fylgiast: Ei skal kvijda, Or-vænting bega sijst, oss ber liwsum ad lijda, Lijkn-seme Drottens bijda, i Glede snart Grætur snijst.

Eins er, og eg nu lijte, ængrwda Postula. Maria foor med Flijte, og fyrst ried Þeim kungio-ra: Hiartans Herrañ mīn hijra, hafa Þeir burt-teked: Þeim nam hun Þetta skijra, med Þeß Kiær-leikans Þijra, sagdest hann sa ei sted.

Sorgar Søgū Grætande, segia hvør ødrum̄ ma, i Heimsins Harma Lande, Hrigden Þa strijd-er aa: Þad eru Kior Christenna, ad kveina og syrgia hier, lijtt kann Þessu ad linna, enn liwfur Gud mun til sinna, og hryggum Huggun lier.

Hre

Hvell þu mig HErrañ goode, hvønær sem lijk-ar þier, þu svipter Sorg og Moode, sannlega þo af mier, eg skal harmande hlioodur, af Hiarta sijns bijda þijn, þu gefur, ad þolgoodur, þreid mune eg fra sorgmoodur, Aften þijn alldrei dvijn.

Ser Englar sienet voru, sæler vid Herr-ans Grøf, hvøriet af Himnum fooru, hradt fyrer utan Tøf, at hanns Upprisu Dege, eflaust þad Ritning tier: Sannlega ydur, eg sege: Soddann kann neytast eige, sem Ord Guds so auglijser.

Sannhelger Sendebodar, sem komu DRottne fra, Kvinnum til Styrks og Stodar, stoodu Grøfeñe hia, med Dijr-dar Hætte hijrum, hvøriet þar byrtust tveir, i Fegurdar Skrwda skijrum, þær skielfdust af Lioma dijrum, til þeirra tala þeir:

Þier leited Lijfs hia daudum, med lijvf-ann Kiærleiks Sid, hann er horfenn frá Naudum, hefur nu upprisid, eins og hañ ydur tiede, og Ordenn hanns greina her, ad sijn Upprisu Glede, a þridia Dege skie-de, hann lifer, hier ei er.

Þad var Bodskapur blijdur, er byrtu Ja-cobs Nidiar, Fodurnum þægur, þijdur, þar hann harmþrwngenn var: Joseph lifer hia Lijd-um, Lands-Herra giordur er, i Egypto, eingum Strijdum, eigum mæta, sijdst kvijdum,

hier ſo hardt lijdum vier:

Betre mier Bodſkap bera, bleſſader Guds Englar, ad JEſus hærſtur HErra, Heime til Fagnadar, uppriſenn er fraa daudum, opnaude Himna-Rann, ſijnum daudvona Saudum, ſvipt hefur hann wr Naudum, og Daudans afmaad Bann.

Eg leita þijn lifanda, Lauſnarenn JEſu minn, eg veit med Hollde og Anda, uppreis Mañdoom- ur þinn, eg veit þu ert æ Lijfe, eg veit þu lifer nu, og mig wr Eymda Kijfe, (yfer þo Hrygden drijfe) lokſens bürt leider þu.

Lijf natturlegt oſs lienar, lifande JEſus hier, og hvad ſem þar til þienar, þad liooſt oſs Ritning tier: J honum erum, bærunſt, i honum lifum vier, aller i honum hrærunſt, aller fyrer hann nærunſt, allum hann Lijfed lier.

Andlegt Lijf oſs þu giefur, æſtkiære JEſu miñ, hvort ſierhvor chriſtenn hefur, hreppt fyrer Anda þinn, med Skijrnar helgum Hætte, hálfdauder vorum þaa, af Guddooms ædſta Mætte, engenn þegar oſs bætte, þad giorde Hiaalp þijn ha.

Eg veit Lijf eilijflega, af þier mier giefeſt vijſt, er eg þa utañ Trega, oll Hrygd i Glede ſnijſt. Þu ert Lijfed lifanda, lijfga mig eins og þig, og þinn eilijfa Anda, ætijd laat hiaa mier ſtanda, til Lijfs eilijfs leid þu mig.

Lijfs hiaa daudum þeir leita, ſem liggia i Synd- unum, enn Chriſtner hyggiaſt heita, hyrda ei neitt þar

þar um̃, i daudum Giordum þo gange, gudlegt Lijf er þeim fra; Enn hver, þo Hormung strange, i HErrans sig lykia Gange, eilijft Lijf aller fa.

Lijfed mitt JEsus lifer, Lijf og Uppriſan mijn, Lijf vort ertu, þo yfer, oß falle Daudans Pijn. Lꝏttu mig O Drottenn lifa, i lifande Trw ſem ber, an vondra Hollds Um̃ſvifa. Eilijfs Lijfs Von eg ſkrifa, a Lijfs Book einum þier.

# 9. Pſalmur.

## Um̃ Utgaungu Peturs og Johannis.

Tón, Oſs lꝏt þinn Anda ſtyrkia.

MAria Magdalena, (mijn Ord þar hoſdu Bid), hun Christo hugdeſt þiena, han̄ gat ecke fundid, fliootlega hun þvi foor og fann, HErranns Poſtula hryggda, ſem herma eg adur vann.

Ur Grøfenne hærſtur HErra, horfenn i burtu er, ei vill vort Angur þverra, ecke fin̄ſt han̄ [hun tier], jafnſnart Petur og Johannes, ad Grøfenne hlupu og giættu, grandvarlega þeſs.

Johannes greidt fram̃geingur, gat han̄ þvi komed fyr, Petur, þo lide um̃ leingur lijka kom þar eptir, ſtrax i Grøfena ſtie han̄, ſa þar Lijn-Dwka lagda, lijka Sve-

ta : Alwtinn.

J Grøfena hinn annar, epter Petre þar geck, sorgande allt þad sannar, sem adur heyra feck, ei skilldu þeir þar Skrifternar, ad hann upprijsa skyllde, eñ slijkt þeim hulsed var.

Heyrdu Guds Barned blijda, bid eg þu merker þad, læt ecke leinge lijda, so leiter Drottne ad, sliittu þier so þu finner hann, epter Johanni ætte, ad breyta sierhvør Mann.

Petur seinna sem seger, samt kom ad Grofeñe; Eingann Orvænting bege, þo Ydran seint framkome, DRottenn wtbreider allann Tijd, Myskunar Fadm sinn milda, moote syndugum Lijd.

Maria HErrans hærsta, harmþrungenn sakuade, hiellt hun þad Hormung stærsta, henni er bodade, opnud Grof, sem þo sannlega, Upprisu Christi ædsta, auglioost nam bevijsa.

Epande mænde Augum, inn i Grøfena Sliood. Sijst nam af Sioonar-Baugum, svipast burt Tara-Flood: Af Glede-Teikne þa giorde hun sier, Sorg, Bøl og saraun Kvijda, soddann optlega skier.

Hryggden þegar þig þiaer, þu meinar Saal mijn kiær, ad Huggun einga fær, og DRottens Naaden skiær, sie þier horfenn i Heime hier; Enn þess skallt giorla giæta, gott bodar Krossen þier.

Maria mestann Gooda, mioghrygg, illreiknade

ade: Kross og Pijnaninaar Pioosda, þær sem Gud lætur skie, Altar-Teikn DRottenns eru vijst, berer þu þad med Blijdu, Vol þitt i Gle-de snijst.

Hogg ad, Hormungar strijdar, Herrans Nead jagur ca, þetta sonnum vier sijdar, sorg-lauser DRottne hia, fyrer margfalldlegt Most-læte, oss byriar inn ad ganga, i Guds Dijrd-ar Rijke.

Petur sat Lijnløk liggia, lijka so Jo-hannes, þar ad harmþrwngner hyggia, hier med grætande þess, ad Sveita-Dwk-urenn samvafde, sem Christi Høfud hulde, hann var sier i Lage.

Christur, þa Kross hann pijnde, Klædunum ræntur var, alnaktur ollum sijnde, Under og Ben-iarnar, hans Fotum skiptu Heidner þa, i Heim-enum þau urdu, epter, sem Guds Ord tiaa.

Eg giore ad þvi hyggia, eins liettstu DRottenn minn, i Grofinne Lijnlok liggia, lijka Sveita-Dwk þinn: Upprisenn tookstu ei med þier, Na-Klæde þijn, so niootá, næde eg þeirra hier.

Sijdarste Daudans sære, Sveite nær þvijng-ar mig, minn JEsu millde kiære, minnast vil eg a þig, i Sveita-Dwk þijnum þa skal eg, sveipa Hofud og Hiarta, hier med fara minn Veg.

Lijkblæu þijna legge, Lausnare minn, um sig, Saal mijn, i Heliar Hregge, hvad kann þa skada mig? J þeim Lijndwkum eg skal hier, skilia vid

Verolld vonda, veittu þad D Rottenn mier.

# 10. Psalmur.

## Um Englanna og JESU Openberan-

Ton, Hvør sem ad reiser hæga Bygd.

Maria ecke finna feck, Frelsarann i Grøf-
minne, Petur og Johann greidt burt
geck, grætenn beid hun þad Siñe, ein vid
Grøfena Angre med, i hana þrætt hun lij-
ta ried, Engla tvo sa þar inne.

Einn til Høfda, enn annar var, ad
Christi Footalage, hrellda Mariu hvør
spyr þar: hvad til Sorgaña drage? Herr-
ann minn, [hun so herma ried], hafa þeir
fra mier burt teked, þvi sege eg Swt mig
nage.

Maria grætur Meistarann, milderijkann sinn
HErra, af þvi Lijk hanns hun ecke fann, ei kuñe
Sorgen þverra, hann i burt stoleñ hieldt hun þa.
Hier ad mijn Saala jafnann gaa, vijst hender þig
opt verra.

Maria Ritning riede sijst, ad rijsa upp Christur
ætte, hann þvi burt tekeñ hiellt hun vijst, HErrans
Orda ei giætte, Hryggdar-full byrte Harma sijn.
Heyr þad, og giættu Saala mijn, ad þijnum Eym-
dar-Hætte.

Þu syrger ei fyrer Syndernar, sem D Rottenn
fraa

fem hier skilia, ad missa JEsum ei metur par, mootstrijder hraatt hanns Vilia, og hrekur so fraa hier HErrann þinn, Heill, Lioos, Riettlæte, Fognudinn, siist kanntu soddann dylia.

Angrud Maria aptur fann, Endurlausnarann blijda. Grææt þijna Synd og syrg med sann, so þarftu ecke ad kvijda. Ydran og Trwen orkad fær, einneg þu JEsu Funde nær, med hanns Hugsvolun þijda.

J hvijtum Skrwda Englar tveir, opinbera sig nædu. Himneska Hegdan hofdu þeir, Herranns Dijrd þar med tiædu. A Himnum sijdar verdum vier, i Vegsemd Guds Englum samlijker. Gled þig Saal mijn, þess gædu.

Þoott þu verder i Heime hier, Hryggdar Bwningenn svarta, ad þig taka, sem opt til ber, ei læt þitt sturlast Hiarta; Englunum sijdar samlijk giord, skalt a Lifendra fær þu Jord, i hvijtum Skrwda ad skarta.

Riettlætes Skrwda skiærann hier, skeinker oss DRottenn millde, i Skijrnenne þad odlunst vier, ef han voktum sem skillde, alltijd hvijtklæddu Englarner, oss munu vera nælæger, med Hiælp i mesta Gyllde.

Mædd sier vid snere Maria, Mann eirn leit hun sier standa, hugdest Gards-Vordenn hun þar sia, hrelld i Saalu og Anda. Ei þeckte hun ad þad var hann, þess sem grætande leita vann, Lausnarenn Lijds og

Landa-

Landa.

Hun sagde: Ef barst hann burt med þier, bid eg mier giører inna. JESUS elskulegt Andsvar tier: O! hvad grætur þu Kvinna? Hvørs leitar þu med hryggre Lund? Hana nefnde a samre Stund. Allt ried þa Angur linna.

Gards-Vordenn hugdest sialfann sia, sorgande Magdalena, er JEsus var; Eñ ofs þad maa, ollum til Lærdoms plena. JEsus Gards Vordur ædstur er, Adams Gards Voktun bætte hann hier, liet so Raanglæted riena.

J Alldengarde var uppbyriud, ædsta Guds Sonar Pijna, i Alldengardenum wtendud, Ofsookn þa hlaut ad dvijna, i Alldengardenum uppreis hann. Alldengards besta Vaktarann, sæll JEsus vill sig sijna.

J Alldengard mijns Hiarta hañ, heilagt Guds Ord innræter, af þvi vaxa um Akur þañ, Avexter Dygda sæter: Elska, Trw og Polgiæde þijdt, þad allt hanns Orded verkar blijdt, soddañ Gud sialfann kiæter.

Vijst er mitt Hiarta Herra þitt, hreinsad Alldengards Merke, þo swr Ver hafe þar Sæte sitt, so Tre med slæmum Verke, Illgrese opt þar inne finnst, upp þad ad ræta mier ei vinnst, nema þijn Naad þad verke.

Mariu huggar HErrann hijr, heñar Sorgar vel giætte, þad er þijn Venia O Drotteñ dijr, med

dædsamlegum Hætte, hugsvala þeim sem Hryggd-
en slær: Hress þu JEsu, minn DRottenn kiær,
mig i mijnum Vanmætte.

## LI. Psalmur.

### Um Samtal Christi vid Mariu.

Tón, Giædskurijkaste Grædare minn.

WID Grøfina, (sem greint var fyr,) Giædskurijkastur DRottenn spyr, Mariu med Lund spaka: Hvad grætur þu? Hun þeckte hann þa, þannenn vid hana riede tia, ei mattu at mier taka, þvi eg a um Veg, til Himna Ranna, Heimfør sanna hiedann giøre, til mijns Fødurs, sem mier hann kiøre.

Fardu og birtu Brædrunn mijn, blessada JEsu Milden sijn, sagde vid Kvinnu kiæra: Allt þad sem nu auglijstest þier, og þu heyrder af sialfum mier, Søgn skallt þeim soddann færa: Eg fer, enn tier, til Fødur mijns, og ydar eins, at Himna Hæder, til Guds mijns og ydar, so riett hann ræder.

Sætaste JEsu, Sorgen dvijn, sannlega þa eg Orda þijn, giæte minn Herrann hijre: Þu nefner þijna Brædur hert, brotlega Menn, sem hofdu giert, Stygd þier, vor Drottenn dijre: Ast

þijn,

Þijn, skiært skijn, nær Synder pijna, þu fyrer þijena, þecker Brædur, þaa sem þinn Ande og Jðran rædur.

Blood-Teingda eg þinn Brooder er, Blood mitt JEsu og Hollded þier, sameingder þu sanlega, Erfinge med þier er eg mijns, elliþa Guds og Fodur þijns, þu hefnest nattúrlega, Guds Son, Guds Son, Helgur, Blijdur, Fagur, Frijdur, þeim Faderen üne, Einn eg þinn Brooder af Ættleidslunne.

JEsus minn bester Brooder kiær, Brooderne gott mier fyrr og nær, sijnde i Mánnraun minne, Hann er minn Brooder Heimet, hann er minn Brooder uppstaa þvi, Brooder þo Lijf mitt line: Broodur, Goodur, er hann milldur, miet nææskylldur, i Meinum strijdum, Brædra-Lag vid hann þo bregde eg tijdum.

Af þvi minn Brooder er han vijst, Synd mijn og Sorg i Glede snijst, og riena Náuner allar: Sialfs þijns Fodur, þu Fodur minn, Frelsarenn JEsu Upprisinn, og kiærann minn Gud þu kallar: Gladur, hradur, fly eg nu, med traustre Trw, til Himna Hæda, til mijns Guds og Fodur, þa Meinenn mæda.

O minn Fader! Þad angrar mig, opt med Syndunum stygge eg þig, hvad stundum veit þo varla: Hyrtu mig þvi sem hentast er, Hiartans Fader, og lynder þier, enn ofþwngt Hrijs eilæt falla, a Barn þitt, mier midt, i Bræde þine, Lijkn ei

ei kinne, Fadereinn froome: Vertu minn Fader, þitt hærst Lof hlioome.

Fødurlaust Barn i Heime hier, Huggleiddu þad mu sege eg þier, þad Forsvar kannt ei finna; Verollden bæde folsk og flaa, flestollum sein ad Rauner þiaa, siist giører hun ad sinna: Mestur, betstur, þinn Fader dyggur, triwr og tryggur, Bol þo beige, er Gud aa Himnum: Þvi efast eige.

Kvinnann, er fyrre kyñt var fraa, Christur, og fyrsta liet sig siaa, epter Uppriſu ſkiena, Maria hiet, sem miwkt bar Geð, med Auk-Nafne þad kallast ried, mæta Sprund Magdalena, fyrr fraa, hañs hiaa, Millden hafde, Hrygd þa vafde, hejñe rekeð, Siø Diofla, hana sem hofdu tekeð.

Idrande syndug Saala er, sannlega kiær, miñ JEsu, þier, hana ei fraa þier hrekur, hana þu gleður hveria Tijd, hennar burt-nemur Sorg og Strijd, hana mædda medtekur: Gud miin, ad þijn, Footum skrijdur, Frelsarenn blijdur, fridtmun heñe, med Ørmum Trwar eg umm þa spenne.

## 12. Psalmur.

### Uñ Kveñaña Utgaungu i añad Sinn.

Ton, Fagnadar Kieñing Kviñum fær.

Angrædar Kvinnur annad Sinn, wtgeingu, so sem Ritninainn, glogglega þetta greiner skiær, til Grafarennar enn komu þær.

Elsk-

Elskan, sem ad er einlæg vijst, Ord Guds so herma, þreyteſt ſijſt, ſtadfoſt er hun og allañ Sañ, ei hana Daudenn ſlijta kann.
Elsku Kvinnum med Elsku Gied, ecke wr Miñe lijda ried, JEſus þeim kiær hann allt eins er, epter Daudann, ſem lifde hann hier.
Þær læta ei af ad leita hanns, lietu ei þar og nockurn Stans, Hiartans Aſt þeirra innelig, ei kunne ſkilia hann vid ſig.
Elska JEſum, Elskuga þinn, O Madur! ſo ſem riett-chriſtinn, ſtadfaſtlega hanns Aſt þa er, Obrygdannleg og ſtadfoſt þier.
Sterkare enn Daudeñ Elskan er, Elskan JEſu þad ſynde mier, Elskunne ſleppte hann ei til mijn, enn þo hann ſleppte Lijfi ſijn.
Morg Votn Kvalanna kunnu ſijſt, Kiærleiks Elld JEſu ſlockva vijſt. Angiſtar Flood þo falle og mig, Frelſarenn læt mig elska þig.
J Hormungenne eins eg og, Elskuna þier, miñ Drottenn, tia, mier bregdiſt alldreie Elskan þijn, Elskan vid þig ei bregdeſt mijn.
Inn i Gröfina gengu beint, grætnar Kvinnur med Lynded hreint, ungann Mañ ſia hia hægre Hlid, hrelldar þar allmiøg ſkelfaſt vid.
Møttul ſkijnande hafde hann, hvijtann og ſier og Skooſijdann. Lærdoom fagrann hier finn eg vijſt, fell hann, mijn Sal, wr Miñe ſijſt.

J wngs Mans Asynd Engellin, opennberadest petta Sinn, alldrei elldest Guds Engla Her, Æsku Bloom peirra sijfellt er.

Af Elle og Veikleik erum vier, at Jordu piendzer Mennerner, Syndanna Verkan su er ein, soddann af Adam hrepptum Mein.

Gledium oss po, ad Guds Englum, giorunst lijker i Himnenum, heilbrygder, wnger, horfner Pijn, i hreinne Tyw, ef Lijfed dwiin.

Gamall, veikur, med lwna Lund, lifi eg, Drotten, marga Stund, til Himna pegar eg hverfa ma, heill, Ungur, styrkur verd eg pa.

J JEsu Grøf a hægre Hlid, heilagur Engell sat. Par vid, gledur sig Saal mijn sorgbitinn, sannlega nu og hvert eitt Sinn.

Sitiande Engell syner mier, Sigur og Hoijld vors Drottenns hier, og ad hanns Strijd a Endasie, unnenn Diofull og Helvijte.

Epter hardt Strijd i Heimenum, (vid Holld mitt og Blood med Dioflenum) Sigur-Hoijld mun eg sanna sia, sitiande i Glede Himnum a.

Enn framar, Saal mijn, siaum vid: Ad setteft hier ei a vinstre Hlid, heilagur Engell; Hægra Veg, hanns Tign utvalde dijrdarleg.

Sijns og vors HErra Hatign hann, hier med byrte a riettann Sann, og Gud vid sijna hægre Hlid, hefde JEsu Sess utvalid.

Hann bodar og ad Herrann minn, med him-

nu ſkann Guddooms Mattenn ſin, ſie mier alltijd vid hægre Hend, hier þa mſtrijda Meinen vond.

Ur þinne hægre Hende hier, Herra JEſu, ei ſlepptu mier, hun fadme mig i Hœſka og Pijn, þin Vinſtre ſie og Skiilan mijn.

# 13. Pſalmur.

## Um Predikun Engelſins fyrer Kvinnunum.

Tón, Skaparenn Stiarna HErra hreinn.

Blesſadur Engell, eins ſem er, i Ordum Gudſpiallſins kunngiørt hier, ſkijnande hvijtann Skrwda bar, Skickan Guds Engla ſie eg þar.

Heilagra Engla helguſt Dijrd, hier kañ ei verda noog wtſkijrd, Klædnadar einkes þurfa þeir, þeſſa, mijn Sœla, giættu meir.

Alltijd Fegurdar Skrwde ſkein, a ſkijrum Englum og Klædenn hrein, þeirra þo ecke þyrftu med, þannenn haſa Menn a þœ ſied.

Þetta ſijner mier Sidſemd þa, ſem Drottens Englar Hijmnum fra, hafa brwkad i Heimenum, hermum ſlijkt epter Englunum.

Sidſeme retta, Sœl mijn blijd, ſet þier ad brwka hveria Tijd, i Guds Hwſe þo allra meſt, þa œttu Drottne ad þioona beſt.

Ei kom þu nakenn i þann Stad, a þier Klæde haſ-

hafdu þraangad, Nietlætes Skrwda Kiæraftann, skal annar hylia Lijkamenn.

Engelsins fyrsta Ord þad vár.(þaa urdu hrædar Kvinnurnar): Ottest þier ei, eg sie til Sanns, forgande leited Frelsarans.

Hvern ed Krossfestu heidner Menn, hañ er fraa Daudum Uppriſenn, ei finnst hann hier med sama Sid, so sem þier fyrr hann skylldust vid.

Mannlegur Styrkur minnstur er, Mannsins Naatturu Hrædslan skier, ei kann hun standast Engla Dijrd, oss eru þar til Dæmenn skijrd.

Eun ef þu leitar Lausnarans, laat, mijn Saala, aa Hrædslu Stanns: Hvad villtu Ottast? Herrañ þiñ, med himneskum Prijs er Uppriſinn.

JEsus þinn blijde Brwdgume, barest hefur, og sigrade, Ovina þinna allann Her, engeñ þeirra fær Valld aa þier.

Ei þarftu Ottast Andskotann, ei fær þañ sakad christenn Mann, Fordæming engenn finnst þeim hiaa, er Frelsarann JEsum trwa aa.

Logmaaled ecke hrædstu hier, Herrann JEsus þess Fylling er, ei kann þess Bolvan angra þig, af þvi Christur took hana aa sig.

Ei þarftu Daudans Ottast Pijn, unnenn er hann med Brodde sijn, og i Sigur nu svelgdur er, soddann oss JEsu þacka ber.

Ottast skalltu þo mæte Mann, þiñ milda Gud og Skaparann; Sonarleg Hrædsla soddann

sie, sonn Ast til Guds þar medfylge.

Med Gudhrædslu, sem Barned betst, byriar þier DRottenn Ottast mest, so reiter hann ei til Reide hier, riett Trw i þessu foolgenn er.

Vid Kvinnurnar Engell enn nam tiaa: Upprisu DRottenns seged fra, Postulum hanns, so gladiest Ged, greined og þetta Petre med.

Siaaed, ad hann mun fara fram̃, fyrer ydur i Galilæam, þar faaed þier hann siaalfann sied, so sem hann ydur heita ried.

Epter sem gloggt var gieted um̃, Guds Engill bijdur Kvinnunum, Upprisu JEsu segia Sann, sierdeiles Petur nefner hann.

JEsu, þad er þitt Ord og Ans: Ei þurfa heiler Læknarans, helldur siwker og særder Pijn, Saar þeirra læknar Millden þijn.

Petur giordest stoor Glæpa-Mann, Guds Son af soor og neita vann; hønum; Enn HErrann hijrt med Ged, hanns Syndar ecke minnast ried.

Stærstu Syndurum stærsta Naad, stærsta Hugsvølun verdur tiaad, einn stoor Syndare allrei kann, aan þess koma i Himna-Rann.

Þar sem ad Jorden of þurr er, Uppsprettu Lækefaaum vier. Guds Naadar Bruñar bregdast sijst, Bersyndugum, og þad er vijst.

Gud hefur svared so til Sañs: Syndugs vil eg ei Dauda Mañs; Petur Meinsære sijnde sitt,

Sære

Sære O Rottens þad giørde kvitt.

Eg meina vijst ad eingeñ sie, Ast Guds og Myskun nælæare; eñ ydrade syndug Saalen tvist, soddann vid Petur auglijstist.

Sialfur Gud lagde Adam aa, einn Klædnad þa hann nakenn saa, Mottle Riettlætes muñ hann mier, midla þegar mig nakenn sier.

Eg treyste O Rottenn uppaa þig, alldrei minn JEsu forlaat mig, sijn mier þa þijna Myskun mest, mestann þaa sierdu hiaa mier Brest.

## 14. Psalmur.

### Uñ Heimfør Kveunanna fraa Grøfenne, og Christi Opennberan fyrer þeim.

Ton, Mitt Hiarta hvar til hryggest þu.

Kvinnurnar gladar geingu heim, fraa Grøfenne med Bodskap þeim, hvørn þær hugdu ad tiaa; HErranns Postulum hryggum þaa, sem heilagur Engell sagde þeim fraa.

Epter sem þetta er nu skied, i þvi Bile þeim mæta ried, HErrann med hægann Sid: Heilar, sagde hann, sieud þid; Sijst vard þa aa Gledenne Bid.

Hvør ad hanns Footum falla vañ, fadmande þaa, tilbaadu hañ: Hrædest ei, HErr-

ann tier, Brædrum mijnum byrte þier, brædlega þad ſem greine eg hier.

J Galilæam gange beint, gooder Sveinar med Lynded hreint, þar ſkulu þeir mig ſiaa. Ordenn þijn, JEſu, ſtodug ſtaa, ſtadfaſt Trauſted ſet eg þau aa.

Hvad kom til þeſs, miñ HErra, fyrſt, þa hrellde Mariu þu byrtiſt, hun maatte ei hræra a þier, eñ Kviñur þær ſem komu hier, kloppudu uñ Fætur þijna ſierhver?

Magdalena i Trygdum trauſt, trwde þvi ſtadt og efalauſt, ad varſtu uppriſinn, eñ hinar borduſt vid Breyſkleik ſinn, brꝇi t þær aumkar Kiærleike þinn.

Þvi lietſtu HErra hijr i Lund, hier þau veiktrwud Dygda Sprund, ſo ad þreifa a þier? Hvor þeirra og þig ſialfann ſier; ſonn Trw giörde ſtadfeſtaſt hier.

Veiktrwada med Vanmatt ſinn, vill ei þijn Giædſka, DRottenn minn, fra ſier burt hrekia hardt, Myſkunar þinar er þad Art, eingum naudſtoddum veiteſt hun ſpart.

Brakadañ Reyr ei brijtur þu, bleſſade HErra minn JEſu, Trw mijn þo viſt ſie veik, hálfſlokenn þu ei kiæfer Kveik, Kraptar Manns þo fara a Reik.

Trwar Vanmætte mijnum meſt, Mildeñ þijn JEſu hialpe beſt, eg treyſte a þig eiñ, Aſt þijn forlætur alldrei neinn, ſem ad þier leitar, DRottenn

mínn

minn hreinn.

Lijkamlega ei lienast mier, Lausnare minn ad sioa þig hier, og fadma Fætur þijn, enn andlaust þad giører Trwen mijn, til þess mier eilijf Dyrd-en þijn skijn.

Ems sem Jacob eg alltijd skal, enn þoott þu bygger Himna Sal, minn Herra, hallda þier, i hreine Trw, þa hlotnast mier, hvørskyns Blessan. Eflaust þad skier.

Mier þiker so fem Millden þijn, mier lofe ad hallda um Fætur sijn, þa Hollð þitt og heilagt Blood, i Kvolld-Verd þijnum, Giædskan good, giefur þu mier, so fyrrest eg Mood.

Ecke einasta eg kann þaa, um þijna Fætur halld-ed fáa, helldur Saalen miog mædd, Blood af þeim sijgur hrelld og hrædd, helgre Naadar Svølun vel giædd.

HErrans Fætur i Heime hier, hanns Þienara riett kollum vier, sem boda Guds Ord vijst; Ef ydrunarlaus þu ad þeim setst, aumur Mann, þad gegner þier vest.

Eg vil þig heidra æ og nu, elskulegaste minn JEsu, og virda Þioona þijn. O DRottenn! fær þu Fætur mijn, i Fridarens Land, þa Hiervisten dvijn.

## 15. Psalmur.

### Um Vitnesburd Vardhallds Manaña.

Ton, Sæll er ſa Mann ſem hafna kann.

Sidner Striids-Menn, ſem Hiſtoriann, hermer til Vardhallds ſetta, Uppriſu Chriſti allann Sann, Athuga nædu riet-ta, Jardſkialſtann, einnenn Engelinn, er i burt færde Graf-Steininn, allt ſinn þeir oc þetta.

Fara þeir þvi med Felmtre heim, Forſ-ingium Preſta ad greina, allann Sann-leik frá Atburd þeim, ei þar af nockru ley-na; Preſtarner þetiar heyrdu hier, hvørn-enn þad allt til geinged er, Raadſteſnu ſtofn-a eina.

Ærna Peninga gieſu greidt, gudlauſ-um Vardhallds-Mønnum; So ſenge þa til Lyge leidt, og leynde Rokum ſonnum, ad JEſ-us hefde uppriſid; Jnned: þa kvoner ſvæfum vid, hanns Sveinar ſtalu hønum.

Aller ſamþycker urdu þeir, eingenn finnſt hier a Vafe, Giallded wtgreidd, gat ei meir, giort hier þeirra Akafe. Ur Guds Kiſtunne þeſſer þar, Pioofar, ſem Sylfre Judaſar, helld eg burt ſtoled hafe.

Af Lijgennar Fodur lærdu hier, Lijgennar Kaupmeñ verſtu, Lijge wtbreida; Lijgen er, med Loſtum þeim allra meſtu. Sa ſem lijgur er Sa-tans Pioon, Sa ſinne kauper eilijft Tioon: Þu Lijgeñ! þad hugfeſtu.

Sannleikann þa þu ſegia att, ſijſt lattu Muñ þinn

þinn fylla, med Mæðum, sem þess sijsa flætt, ad frambere Lyge illa, og mællaus verder i sannre Sok, til soddann Ohæfu finnast Rok, Fegyrnder verst sem villa.

Heidner Vard-Menn til Lyge liooft, lietu sig Presta ginna, Agyrnden þeirra bleckte Briooft, bolvad Giallð og ad vinna, uppa sig sialfa einnenn med, Odygd hvor þeirra linga ried, Samvitsku eingre sinna.

O Drottenn! geym vort Yfervalld, ei lat þad Satan villa, ad þigge edur giefe Giallð, so giore Rettendum spilla, i sierhvoriu ræke Sannleikann, sakfelle alldrei Riettlatann, lat þad ei Gulled gylla.

Yfer Grof JEsu erum vier, aller til Vardhallds setter, hanns Grof Christenna Hiartad er, hrein Truu Lijndukar riettet; i hvorium vakta eigum hann, ei stelur honum neinn þadann, nema sialfra vor Synd og Pretter.

Ef þier villt JEsu hallda hia, hiartkiæra Saal mijn blijda, sofande ecke siertu þa, so mæter straungum Kvijda, vak þu og bid um Hiastod hanns, sem hrekur burt Vardhalld Andskotans, ædste Lausnarenn Lijda.

Opt syfiar mig, þa eg a hier, Embættes mijns ad giæta, til Vorkunar þad virde mier, vors JEsu Millden sæta; Hanns blessud Naad mijn hylie Brot, hann læte ecke verda a Prot, sem vaker, Svefn minn bæta.

# 16. Psalmur.

## Um̃ Utgaungu Lærersveinanna til Emaus.

Ton, Af diwpre Hryggd aakalla eg þig.

FRaa Borgenne med Hryggdar Hag, HErrans tveir Sveinar gaunga, aa hanns fyrsta Upprisu Dag, Eymd Hiartans baaru straanga, til Emaus sier ætla þeir; I Jerusalem þreidu ei meir, hvar einga Huggun̄ faanga.

Um̃ Grundernar þa geingu þeir, grætener i þetta Sinne, um̃ þad tøludu tvister tveir, sem til bar i Stadnum̃ inne; Hryggver þo minnast HErrannaa, hvoru ei upprisenn meintu þaa, mest vaar hann þeim i Minne.

Vilier þu JEsum̃ funded faa, fraaskil þig Verølldinne, fraa Ogudlegum̃ giør þu gaa, med Gede, Hiarta og Sinne, af Verølld illt þu ætijd fær, aa Bord med henne Satan rær, Heill so hann hamle þinne.

Þa Verølldenn sem hijrast hier, hun lætst þier Fadm sinn breida, so sem Dalila sinnud er, med Svikum̃ þig giører veida, Samson hid fyrsta faangen̄ var, i Fadme elskudu Hoorunnar. Stra til h:aa Svikum sneida.

Hølldleger Menn med hølldlegum̃, hier þo um̃gaangast faae, Riettvijser eins med Raanglaatum̃, og

og Naun sw margañ þijne, fra Hegdan gudlausra hallt þig samt, hvorium ad sviikia miög er tamt. Guds Otta sierhvor gæe.

J annann Stad ma athuga, um þessa Lærdsveina, æ Ferda Reysu þeir framhallda, sem fegurstu Skrifter greina, til Emaus fara hugdu hier, hallda þad Kauptwn allvarger, nefnt vera af Vatne hreina.

Af þvi sa Stadur styrktur var, med stoor Votnum marga Vega, Flootta-Menn gætu geymt sig þar, þo giordest Offookn bræadlega, og sig fengu þar Ohulta, inn hallded, þa Fiandmañä, Heypt þeim hootade Trega.

Staddur ertu, þu mæte Mann, mæddur æ Vegferd þinne, hier medann bygger Heimsens Rañ, og hrekst i Verolldiñe. Til Emaus keppast attu greidt, ei þad jardneska gylldur neitt, helldur himneskt Heimkynne.

Þar er fast Slot, þar Frij-Stad att, fyrer Ovinum þijnum, Ohultur bwa ætijd matt, einsgum mæter þad Pijnum, fram af Stool Lambsens flioota þar, fegurstu Vatnsfoll Gledennar, med eilijfum Sætleik sijnum.

Fra Ogudlegum uñ þu mier, O Drottenn! burt ad ganga, lat mig ecke i Heime hier, Hlutskipte med þeim fanga, og þa Vegferd er wte mijn, eg bid, gled mig i Rijke þijn, um alla Eilijfd langa.

J þridia Lage þad er eñ, þier Sæl mijn athugande,

ande, hvorier þeir Reysu mundu Menn, sem mæddust hier vegfarande: Læresveina vors Laus-nara, lioos Guds Ord bæda auglijsa, halldna i Harma Stande.

Ef þu villt Madur, ad þu berk, ædlest JEsum ad fiña, Læresveinn hañs med Saños sierk, sijst læt þig Heimenn giña, blessad Ord haños med blijd-re Lund, breid mt og medkieñ alla Stund, Bod-um hanns best skallt siñna.

Hañ umframm allt þu heidra ætt, hann er Gud þinn Lausnare, Kross hañs Ovirda alldrei mætt, mo þo hañ leinge vare. O JEsu! læt þu alltijd mig, elska, prijsa og dijrdka þig, hier æ medann eg hlare.

# 17. Psalmur.

## Christur openberast Emaus Reisendum.

Ton, Ef Gud er oss ei siálfur hia.

Gudspiallenn segia: HErrann hijr, hafe sem vegfarande, komed og nærlægst Krapta dijr, kiæra Sveina reysande. Þeim þar samlaga sig nam hañ, so sem hiñ þridie Ferda-Mann, þeirra so þverre Vande.

Jafnframt þeim bædum JEsus gieck, JEsum samt þeckru eige, fyrer Sioon þeir-ra Hullda hieck, hun var æ þessum Vege, halld-enn, so þeir ei hugdu hier, HErrañ være i

Fæt

Før med sier: So fra eg Ritning sege.

Sia hier og skoda, Saal mijn kiær, Siñe þiins JEsu blijda; Gudhræddum er hañ alltijd nær, eins þa vid Freisting strijda: Veikrwada hann vidretter, Vanfærum Styrk og Huggun lier, ei þarftu þvi ad kvijda.

Hvar sem ad eru einer tveir, eda þrijr komner samann, i Herrans Nafne, þar hafa þeir, hia sier JEsum Raad-tamann, þeirrá a mille midt hañ er, ma þeim so eckert granda hier, þa hann er fyrer framann.

Fra Hiord DRottens hier hafdu tveir, Herranns Sauder burt-flwed, a Villu-Stig hættum voru þeir, var þvi Saalar Tioon bwed, ef uppleitad þa ei hefde hann, sem Hyrder er betste Gud og Mann, og þeim villtum vidsnwed.

O JEsu, JEsu! opt hef eg, i burt fra Hiørdu þinne, villst a Glotunar vondann Veg, Velferd nær tapad miñe; Eñ þu hefur mig uppleitad, ædste Hyrder, og samlagad, Saudum þijnum hvørt Sinne.

Ei byrtest Drottenn øllum Lijd, þa upp var risiñ fra Daudum: Sveinar hañs og so Fliooden frijd, sem fylltust af Sorg og Naudum, fengu hann sia, enn adrer ei, eingenn kann þar vid segia Nei: sijnum hann biargar Saudum.

Læresveinar med liwfre Lund, Lof DRottenns tveir vijdfrægia, þegar þeir JEsu fengu Fund; fra hvørs Nalægd ried bægia, Keñemøñum og heid-

heidnum Her, Hrecker, Vondska og Lastaner, er alldrei lietu sig lægia.

Ef þu villt, Barn mitt, ødlast hier, ad JEsus þinn Frelsare, sie æ i Fylgd og For med þier, og fødurlega bevare, med heilogu Tale hann æavallt, i Hiarta þitt inn þu locka skallt, Vist hanns so hiaa þier vare.

Owfurnar hrædast Hrafna-Mæal, Hliood Ulfsins. Lombenn flija, gior þier ei siæalfum Svik og Tæal, Synder med Ordum drijgia, Munn-Søfnud vondann varast skallt: Vit, hann burt styggier Gud æavallt, so fær þu ei Fylgd hanns nija.

Eg blygdast vid ad athuga, Uppfoostur sumra Manna, a Bornum þeirra, sem berlega, byrtest og Raun vill sanna, fyrr enn þau kunna Fader vor, Foreldra vondra rekia Spor, sveria, bolva og banna.

Bid eg, þess giæted gooder Menn, Gud mun af ydur krefia, Barnanna ydar Sæalna señ, er Satan feck Snorum vefia, leided þau ung til Lausnarans, med limsum Aga og Kieñing hañs: Hygged ei hier vid tefia.

Enn framar siæadu, Sæal mijn, hier, sorgande Læresveina, til Emaus sem ætla sier, ad fara Reysu beina, i annarlegre Asynd þaa, eilijfur Guds Son liet sig siaa; Get eg so Ritning greina.

Eg veit Gudhræddum ertu hiaa, O! minn JEsu blessade; Hvar hellst sem ad þu hitter þa, Hørmung trwe eg ei skade, enn Stundum þeir ei þeckia

ia gloggt, þijna Asynd so fliott og snoggt, eins sem i Villu vade.

J Lijking Þrefaldre lijt eg þig, Lausnare miñ þinn blijde, koma til vor og syna sig. J Sorg-um vorum og Strijde, Asynd þijn JEsu Andleg er, i Orde og Sacramentum hier, Leyndardoomis full þina Lyde.

Ecke sæ eg þa Asynd þijn, ꝍ annañ Heart ad skoda, enn med Trwar-Augunum mijn, allann so fyrrest Boda, sem annarlegann sie eg þig, so þijna Lijking her fyrer mig, þꝍ Kross þinn þu kemur ad boda.

J Krossburdenum Kiærleik þinn, kann eg ei gloggt ad lijta, Vanmꝍttur sterkur vijst er minn, þꝍ verd eg i Eymdum sijta, Hugskots Sioon mijn er halldenn þꝍ, sem hygge eg þig einn fraum-ande sia, er Huggun ei vill bijta.

J eigennlegre Asynd þo, eg sæ þig lijka sienañ, Herrann minn kiær, þa Harma Froo, helg Naad þijn og Forþienan, Lijkamans Blessan lætur hier, og Lijf þa Andlegu veitast mier, þꝍ gefst ꝍ Naud-num Rienan.

J hverre hellst Asynd, Herra minn, hier villtu mier þig syna, Hiartanlega i sierhvert Siñ, Saal mijn kijs Nꝍlægd þijna, einmana eg þa ecke er, Englana veit eg fylgia þier, allt gledur þad Ond-du mijna.

Kom til mijn, JEsu, kom til mijn, kom ei sem sinn framande; Eg bid, Nꝍlægdar allrei þijn,

aum

aumur verde eg saknande, HErra minn kom og hiaalpa mier, Hiaalpræde þitt mig burtleider, hiedann wr Harma Lande.

Eigennlega þa Asynd þijn, eg sæ gladur ad skoda, horfinn fraa allre Hrygd og Pijn, hverskyns Eymdum og Voda, Soolu fegre þar sie eg þig, Sool Riettlætesins, hvar ed mig, eilijf Dijrd æ mun stoda.

## 18. Psalmur.

### Um Samtal Christi vid Lærefveinana aa Vegenum.

Ton, Giædsku Guds vier prijsum.

SAllsnarans Lærefveinar, litu Tveir Frelsarann, hverigur hann þo meinar, helldur Vegferdar Mann, hvern þeir sig hugdu siaa, Augunum Harmar hielldu, Hiørtunn i Efa felldu, HErrann ei þecktu þaa.

Grædarenn gefur ecke, good Raad til Lækninga, utann hann aadur þecke, Ordsøk Siwkdoomanna. HErrann eins hrellda spyr, Sveina, hvad Samtal hallde, sem þeirra Hryggdum vallde? Vijst sem þad vissi ei fyr.

Cleophas kløckt med Sinne, Christi Spurn svarade: J Jerusalem inne, ertu so

so Framande, grenslast þu þurfir ad, þvi er a þessum Døgum, þar hefur giørdst? sem klogum. HErrann spyr: Hvad er þad?

Herrann hefur þad Sinne, Hormung þa strijder a, vill hann ad aller inne, Ästseme hanns þar fra, med Bæn og bliwgre Lund, Eymder sijnar auglijse, og honum þær framvijse, a hverre Harma-Stund.

Allt veitst þu ædste HErra, allt a Himne og Jord, allar Ord-Rædur hverra, alla Hugsan og Giord, enn þo spurder þu ad, hvad þijna Sveina hrellde, hvad þa i Sorger fellde? Allt þo þeckter þu þad.

O JESU! Elskan blijda, Angur mitt betst þu sier, eñ þo hvad eg ma lijda, audmiwkur byrte eg þier, og Hiartad Hormum þiad, opna eg Elsku þinne, aumstaddur morgu Sinne, þa hlotnast Huggun bræd.

Cleophas enn þa inner, uñ JEsum tølum vier, ofs til hanns alltijd minner, ædur var med ofs hier, Spadooms Frægd hafde hann, Mattugur eins i Ordum, og i Verkanna Giørdum, hia Gude, og hvørn vid Mann.

Hann vorer Høfud-Prestar, hier med Lands-Foringiar, keyrdu i Kvaler verstar, Krossfestur so hann var, vier meintum munde hann strax, Israels Rijke rietta, reiknast nu uñ fram þetta, þesse Tijd þridia

 Dags.

JEsus i Ast um̃skipter, eg sie þa gladur hañ, Sioo-votum Bwning svipter, sierhvørn riett-trwadañ.

Ad Morgne utann Rauda, Jsrael leidde Gud, med Heill um̃ Hafed Rauda, i heiteñ Lands Fegnud: Ad Morgne æ effta Dege, wr Hafs-Naud Veralldar, eg kiemst, hvad efa eige, i Høfn Paradijsar.

Þar mun Frelsarenn frijdur, i Fioruñe standa nær, wr Brimgarde Daudans blijdur, burt-taka Nædar skiær, þetta mitt Holld hrornada, hier med Sœal or-þreitta, þar fæ eg Huggun hrada, i Hoop Guds wtvalldra.

Hafed þier, HErrañ sagde, Hiarta Børn, Sædu ei? Svørudu bræðt ad Bragde, Brædur þar stadder: Ney. O! hvad opt Aumer klaga, ei hafe Morgun Verd, og um̃ allmarga Daga, Atvinnan gioreft skierd.

So hefur Sañ-Gudhrædda, sialfs DRottens Forsioon blijd, reynt, og giort opt miog nædda, æ megnre Hwngurs Tijd, Abram, Jsaac goode, og Jacob reyndu slijkt, David þeim mætte Moode, mœa oss og henda lijkt.

Alldrei Oþolennmoodur, yfer þvi klaga skallt, þo Gud þiñ Giæðsku goodur, giefe þier ei þad allt, hvad hellst til Holldsens Muna, hentast lijtst sialfum̃ þier, nu ætt þvi alltijd una, ad hañ best fyrersier.

Hugsadu æ hverium Dege, hvad naudsynlegast er, ad Sœal þijn sediast mege, i sætre Guds Nœgd hier: Otte hanns afla þessa, orkad med riettu

riettu fær, hann kann betst Hiartad hressa, Hwngurs Tijd þo sie nær.

Forsooma einneñ ecke, ad stunda Kallan þijn, Hyrdulaus Lete hnecker, HErrañs Umsorg: So dvijn, hiá þier hanns Blessan blijda. Vænrækne ydka tijdt, so mun Guds Peled þijda, þier hiálpa, Barned mitt.

O minn Gud! Eg skal lijda, allt þad sem villtu hier, láttu mig Boled bijda, sem blessudum lijkar þier. A lifande Manna Lande, Lijfsins Braud sedur mig, i Lijfi þvi lifande, lofa eg alltijd þig.

# 34. Psalmur.

## Uñ sialfst Krapta-Verked, er JEsus giorde vid Siooenn Tiberias.

Ton, Dagur i Austre ollum.

Postular svinner svara, sem hermt er ádur fyr, sijnum lijwfa Lausnara, i Lynde hoogværir: Fisk nöckurn fengum eige, fer Skiped toomt til Lands: Siálfur JEsus þa seger, sem hlioođa Orden hanns:

Kasted wt, Børn mijn blijdu, brádt nockud finned þier, Nete vid siálfs Skips Sijdu, sem hægramegenn er: Þeir giørdu sem hann sagde, sijst gátu dreged þá, Fiska Mergd flioott ad Bragde, er fengu Skiped á.

Ordſens Þienara alla, andlega Fiſkara, klaar=
lega maa eg kalla, af Kenning Ritninga: Greidt
Net til goodra Veida, Gudſpialls Lærdoomur
er, hvorn þeir um Heimenn breida, þoott hætt
ſie Fiſke=Ver.

Harma Noott hafa tijdum, hier DRottenns
Veide=Menn, hiaa vondum Veralldar Lijdum,
þvi vœiteſt ei Abatenn: Þeir vid vinſtre Hond
verda, viſt aa þann eſſta Dag, næſt ei, þvi Hi=
ortun herda, med Hrekkiafullt Sinneſlag.

Þioonar Guds þo ei meiga, þreitaſt, nær veid=
eſt lijtt, aan Forſoomunar eiga, Ordſins Net leg=
gia tijdt. Þaa þeir til hægre Handar, hafa þvi
utkaſtad, og hvor einn Verk ſitt vandar, verdur
nockud fiſkad.

Utvallder veidaſt aller, allir riett=trwader,
þaa i himneſkar Haller, ur Harma Sioo Gud
fœrer, i hverium hier aa Jordu, hanns Orded
verka ried, og þvi med Hiarta hordu, hoſdu ei
mootſtaded.

Vid hægre Hond Son Guds ſetur, ſijdarſta
Dege aa, Feng þann, og mikells metur, miog vel
er fiſkad þaa, Veide=Menn verda glader, veidt
er gott Fiſka=Kyn, ſalleger Fiorù=Stader, hvar
ſyrer er þeirra Vin.

Af Furdu Fiſke=Drætte, er fengu Poſt=
ular, af þvi med eingum Hætte, aattu hanns
vænta þar, Læreſveinn liwfur ſagde, ſem
Lauſnarenn elſka vann, þaa til Peturs,
hver

hver þagde: Það er sialfur HErrann.

So hradt sem Petur heyrde, að HErrann være þar, Elskurijkur ei eyrde, wtbyrdes sier kastar, Klædfar og kom að Lande. Krapta-Verk segiast má, á Sioonum greidt gangande, giorde ei sockva þá.

Fá-klæddur fer eg tijdum, á Fund hinn JEsu kiær, Helgunar Fatnad fríjdum, flettur og allsber nær, enn þu mig aptur klæder, i Ast Rettlæte þijn, sár þegar Sorgen mæder, so hylst' oll Blygdan mijn.

Postular adrer prwder, Petre komu sijdar, med Skip af Mædu lwder, miog langt ei þetta var, Tvö Hundrud Alner eige, enn nær þvi Ritning tier, og hermer hafe dreged, Happ sitt og Net med sier.

Og er þeir á Land stigu, aller senn litu þá, med Gøde Glødeligu, Glædur, og Braud þar á, einnenn Fisk yfirlagdann, enn JESUS vid þá tier: Sæked af Fisk þeim, sagd' hann: Sem nu strax fengud þier.

Bod JEsu blessad ræker, bradt epter Vilia hanns, Simon Petrus, og sæker, sitt Net, og droo til Lands, stoorer Fiskar þad fylltu, fannst Talan ecke tijr, HErra sijns Skipun hylltu, Hundrad Fimtijn og Þrijr.

Þo Fiskar sem hier seger, so marger fylltu Net, enn samt risnar þad eige, undrast þad siist eg get, Almættes Hond þiin, HErra, hefur enn verkad slijkt, þinn Mœattur ei kann þverra, þitt Walld er Krapta-rijkt.

Til Læresveinanna sagde, Sonur Guds enn og tier, Med klœru Kiærleiks Bragde: komed og snæded þier; Braud og Fisk gaf þeim goodur. Gled þig, mijn Sœala, hier: JEsu þinn blijdur Broodur, Bordhalld enn veiter þier.

Litlu fyrr Læresveinar, Lausnarann hofdu sædt, œ steiktum Fisk, Fædur hreinar, þa feck hañ hiœ þeim snædt, Sigurvegarenn sætur, Sadning þa borgar nu: Olaunad eckert lætur, Ast hanns og Millden trw.

Komed, JEsus enn kallar, komed hijngad til mijn, Manneskiur mæddar allar, Miolk kauped og so Wijn; Komed, fyrer alls ecke, ydur eg sedia vil, þeir þyrstu þar med drecke, þvi Svolun noog er til.

Trwudum øllum gefur, andlegt Braud JEsus kiær, hveria hann kallad hefur, Hressing þœr Sœalen fær, Lijkamann lijka sedur, Lijknar Honden hanns blijd, Biorg Holldsens betstu medur, Blessud œ hverre Tijd.

Mig og Utvallda alla, œ þañ sijdarsta Dag, minn JEsu muntu kalla, i mestañ Dijrdar-Hag, wr solltu Sorgar-Floode, Sioo-votann mettar

þœr,

þar, vid Bord þitt Guds Son goode, i Glede-Vist Himnum a.

Þa mun eg þurfa ecke, þar nockru spyria ad, Guds Son eg gladur þecke, vid Guds Bord, i þeim Stad, mijns Guds Sioen mig þa sedur, mier er sw Huggun vijs, Utvølldum øllum medur, i sællre Paradijs.

# 35. Psalmur.

## Um Samtal Christi vid Petur.

Ton, Einn HErra eg besi ætte.

Postular HErranns hijrer, þa høfdu Fædu neytt, Skriften enn framar skijrer, skulum þess minnast greidt, til Peturs Son Guds segier: Simon elskar þu mig, meir enn þesser? Hinn hneiger, hier til Svør audmiwkligt

Ad eg þig Elska giøre, eflaust, HErra! veitst þu, um adra fatt eg mig kiøre, ad þessu Sinne nu, Þrisvar Jaa þar til tiade, þad JEsum elskade, enn loksins angrast nade, af Spurn so tijdt heyrdre.

Med fyrstu Spurn Frelsarenn blijdur, fyrrnefndum Postula, liwfur i Lynde bijdur, Lømb sijn skule hann ala, og fæda sijna Saude, St. Petre skipar, a betsta Lijfsins Braude, baud JEsus so þrisvar.

Afneita Prisvar madur, aumlega Petur ried, sijnum Herra, samrædur, Satans Villd, Hræd-slu med, hrestann i Sæl og Sinne, Son Guds spyr Prisvarnu, um Elsku hanns, so inne, openn-bert sijna Trw.

Hier med so hann innsetur, i heilagt Embætte, aptur, og ei þess getur, ad hann fyrr hrasade: Þa ea Synd mijna syrge, sijst verdur hennar minnst, Blood JEsu hana byrger, Brot kvitt hia Gude finnst.

Hvert villt Sæl mijn svara, siertu nu spurd þar ad, hvort þinn Hiartans Lausnara, hafir þu riett elskad? Þu munt ei þora ad jata, þad og lijklegast er, þviad i margann Mæta, mæ sinna Brest hia þier.

O JEsu! Elskan blijda, af Hiarta vil eg þig, elska, og allt þad lijda, er þu villt leggia æ mig, elska af Hiarta hreinu, af hreinum Stodugleik, ecke med Orde einu; Enn þad ser tijdt æ Reik.

Eg veit allmarger kunna, ad elska JEsum heitt, þeim vil eg þess vel unna: þad er mier sialfum leidt, ad eg alldrei sem bære, alldrei sem skylldugt er, heita Ast honum fære; Hann þad forlæte mier.

Hvad mæ skylldara heita, enn hafa þann ast-kiærann, Gott allt sem giorer veita, gefa vill og þad kann, og er sæ ædste Goode. Elska þvi JE-sum Christ, so muntu sviptast Moode, Sæl mijn, i Himna-Vist.

Oss fyrre elskad hefur, Endurlausnarenn dijr, af

af Elſku oſs umvefur, enn nu hanns Milden ſkijr, oſs hann elſkar til Enda, elſkum þvi fwſir hann, fraa Elſku hanns alldrei venda, aattu, þu chriſten Mann.

Af Aſt til aunnra Manna, Elſkhugenn vor JEſus, fraa Hædum Himna Ranna, hijngad aa Jordu fws, kom og Holldenu klæddeſt, Kvaler, Forſmaan og Deyd, hier þaa hann hiaa oſs mæddeſt, af Hiartans Elſku leid.

Ef þu hann ecke aptur, elſkar mijn Saal af Trw, eins ſo ſem er þinn Kraptur, eflauſt tilbyrger þu, hanns Aſtar Brunn eilijfa, Elſku hanns færdu ſijſt, af þvi hann giorer yfa, Elſkuleyſid þitt vijſt.

Ef þu vel ad þvi hyggur, og villt þeſſ rett giæta, eirenn þier aa ſvi liggur, ad elſka þinn Naunga, hann er Limur lifande, Lauſnarans, Saala mijn: Hvad opt i Harma Stande, hann lijta Augun þ. jn?

Hver ſaa ſem elſkar eige, af Hiarta Naungann, aa rettum Elſku Vege, ecke framgengur hann, einga Aſt hefur helldur, hann til ſijns Frelſara, fraa Jeſu Kiærleik felldur, finnur Skadſemd braada.

Hollds Gyrnder alldrei aattu, elſka, þu chriſtenn Mann, nie vonda Heimſins Haattu, ſem hryggia þinn Lauſnarann: Ef ad þu alla Vega, umflijr ſlijkt, Saal mijn kiær, Aſt JEſu eilijflega, og hier i Naad þu fær.

Lomb og Sauda-Hiord ſijna, Simone JEſus baud, ad fæda: Ei kann dvijna, Elſkan hanns: Lijfſins Braud, Hwngrudum hvorium gefur,

Hyrder sem besste er, Lomb sijn veik ad sier vefur, Vansæra Saude her.

Ei lætur af ad kalla, Aften hanns Millde hær, fyrr enn til Himna Halla, hann fær innleidda þar; Raust hanns sem heyra og hlijda, himneskt Fæda giefst þar. Þess giøre eg gladur bijda, Gud alls var Myskunar.

Hyrdarar aller heita, HErranns JEsu Þioo-nar, þeir eiga eins ad breyta, og Petre boded var, ad fæda Herranns Hiordu, [ eñ hana reita sijst], med hollre Dygd hier a Jordu, a Himnum er Kaupid vijst.

Eg er sem annnur Saudur, O JEsu, Hyrder minn! Veikur, hrumur, hæls-daudur, hiaalpe mier Kraptur þinn, vyrdstu mier villtum greida, Veg þinn, so gange fwo, og um̃ sijder iñleida, i eilijst Sauda-Hws.

# 36. Psalmur.

## Um̃ Bodan St. Peturs Pijslarvættes, og Skipan JEsu, ad Petur skule sier fylgia.

Ton, Guds Son kallar, komed til mijn.

Til Peturs Son Guds sagde enn, so her-mer oss bad Ritningenn, sannlega eg þier segie, ædur þig siaalfur uppgyrder, og geckst hvert sem ad lyndti þier, a unga Alldurs Dege. Enn þa þu elldest ei so skier, Eslaust þad fyrer

fyrer setie eg þier, wt muntu Arma breida/ annar þig gyrder, og þangad, ei sem þu villt, (so JEsus kvad), hann mun þig hrumann leida.

Petra Simoni sagde hann, og somu Ordum teikna vann, vijst þo Petur ei villde, med hvorium Deyd, þa Hierviist hanns, hefde og fallvallt Lijfed Stans, DRottenn hann dijrdka skyllde.

Petur ættrædur vel þa var, vid hann framkomnu Wijsernar, sem JEsus fyrer sagde, med nidurhengdu Hofde hann, Hierviisten þegar dvijna vañ, krossfestur Lijf aflagde.

Gaalaus i Ungdooms Giælijfe, gyrdte eg mig morgu Ranglæte, og vondum Verkum vafde, og framgeck þvært þañ illa Veg, eins sem þad skialfur villde eg, og hvors Hollds Gyrnden krafde.

Alls þessa vil eg ydrast nu, Yferboot giora i riette Trw, og med þijdu Packlæte, minnast alltijd æ Myskun þijn, muñ Gud, sem ei i Heliar Pijn, hratist mier wr Heimsens Kiæte.

O goode Jesu! umgyrd mig, audmiwklega þess bid eg þig, Linda þijnum lioomande, Riettlætes Bellte þitt sie þad, þvi mier ranglaatum vefdu ad, i saaru Synda Stande.

Og leid mig þangad þu sem villt, þitt Raad skal jafnann af mier hyllt, i Hrædka hvorskyns Nauda, laattu og, DRotteñ, lokkins mig, leidast hiedañ, so sie eg þig, dijrdkad med mijnum Dauda.

Herrañ Petre þa hafde tied, hañs Pijslar-Vætte, segia ried, til hanns so enn talande: Fylg Þu Mier Epter; iñte hañ. Athuge Bod þad christenn Mann, sierhvor i siinu Stande.

Goodum Vegvijser Ohætt er, epter ad fylgia, hañ færer, ei neiñ cꝏ villtum Vege: JEsu ég einganu jafnañ siñ, JEsus er beste Leidtogiñ, cꝏ dyrre Noott sem Dege.

Ordsens Þienarar eiga fyrst, med allre Dygd og Hiartans Lyst, fylgia siinum Frelsara, i hreiñe Kienning hvoria Tijd, hugsande þar um fyrr og siid, Uñvondun eingum spara.

Þeir sem ad Guds Ord heyra hier, af HErrañns Þienurum, jafnann ber, kappkosta, Kienninguñe, fylgia epter: Þeir fylgia þa, Frelsaranum, sem Styrk mun liꝏ, cꝏ Leid þo lijast kunne.

J Lijfernenu lijka þu, Lijfernes Ferel þijns JEsu, feta, Guds Barn, fwslega: Hoogværd, Trw, Elsku, Hreinlijfe, hiartgroona Mykun, Riettvijse, ydka þu alla Vega.

Hlijdne, Þolgiæde, Heilagleik, hiꝏ þier lꝏttu ei fara cꝏ Reik, liwst stunda Lijtelæte, i ollu þessu utañ Fleck, undañ þier sialfur JEsus geck, i hærsta Himna Sæte.

Athuga Sꝏl mijn, einneñ hier, Audskoteñ lijka skipar þier: Fylg þu mier, so hañ seger; Þad skallt þu varast, þviad hann, þeim ollum sem hañ rꝏda kann, i Fordæmingu fleyger.

Verollden lijka vielar þig, vill ad þu skyler stunda

da sig, og fylgia Ferel sijnum: O mijn Sal! fordast alltijd þad, einum JEsu þig halltu ad, a Vegum øllum þijnum.

Igegnum Sorg og sialfann Deyd, sannlega er Guds Barna Leid, sem JEsu sijnum HErra, epterfylgia a alla Lund, Elsku hans rækia hvøria Stund, Sorg þeirra seint vill þverra.

Fylgdu þo JEsu, hvort sem hann, hier vill þig leida, christenn Mann, ef til Lijfs, eda Dauda: Hañ er Vegurenn vijsastur, villest sa honum fra hversur, a Braut eilijfra Nauda.

Hvort sem þu geingur greidann Stig, eda giorest Færden torvelldlig, a þijnum Eymda Vege, æ medann JEsus er þier hia, ecke kann þig ad skada þa, hanns Fylgd er fallvollt eige.

Eñ þo ad leide ecke mig, a Roosunum uñ Lijfsens Stig, Frelsarans Forsioon blijda, helldur uñ þraungañ Þyrne-Veg, þad allt skal giarnañ lijda eg, honum fylgia og hlijda.

Og ef honum so sijnast ma, sie eg i Fylgd til Golgatha, þad skal eg giarnann giera, og Kross hañs taka uppa mig, allfios so rekia hañs Blood-Stig, sem vill hañ lata vera.

Eingenn Hormung, og eingen Pijn, æ medañ varer Hiervist mijn, eige Lijf, Daudenn eige, skal ockar Hiortu skilia ad, skiærasté Jesu, veit mier þad, og leid mig a Lijfsens Vege.

# 37. Psalmur.

## Um Forvitne St. Peturs.

Ton: Natturan oll og Edle Manns.

PEgar Petre, (sem adur er, umgieted) JEsUS sagde: Fylg þu mier epter; Og hañ sier, ad þessu sama Bragde, Lærisvein hiñ, sem Lausnarinn, litvsur heitt elska riede, hvør ed og laa, hanns Briooste a, helz Kvølldmaaltijd þaa skiede.

Hañ sem og spyria HErrann vañ, hver er sa þig mun svijkia? Liooſt sem Petur nu lijtur hañ, langt ecke burtu vijkia: Hvad skal nu þaa, þesse sem hiaa, þier geingur? Petur seger, til JEsum þar, sem þvi gaf Svar, og þannig Ord sijn hneiger:

Ef ad eg vil hann einn fyrer sig, allt til þess eg kiem, blijfe, hvad kiemur, Petur, þad vid þig? Þitt Hiarta sig ei yfe; Fylg þu mier framt, fros epter samt: Faaſt um Johannem eige; Þolgiæde med, þitt styrktu Ged, þijnum a Lijfsens Vege.

Johannem sælann segia maa, sem ad a JEsu Briooste, um Kvølldverds-Tijmann einn þar laa, eingum so mætte þiooste: Herrañ vor hann, heitt elska vañ, honum unnte Soott-daudum, hæ-ølldrudum, i Heimenum, Hølldsjens leysast fraa Naudum.

Þsg

Þig hefur, Sæl mijn, kijka lagt, Lausnareñ Jesus blijde, a sitt Briooft, þad med sañe sagt, sæstu i morgu Strijde, þar Huggun h.nns, hafde ei Stañs, Hiarta þijnu ad svala, sem Hiartad sitt, vid Hiartad þitt, hañ lagde med Ast fala.

J sinne kiæru Kvolld-Mæltijd, kiemur minn JESUS goode, til mijn, hvar Ast hanns einka bl.jd, ollum mig svipter Moode, þar a sitt Briooft, mig leggur liooft, Lijfgiafare minn sæte, þadann Sæl mijn, sijgur til sijn, Svolun, Næd og Riettlæte.

Petur forvitenn fregna vañ, Frelsara vorn hiñ blijda, um Johannem, hvort ei sem hann, ætte Krossfesting lijda: Þesse hvad skal? Þad var hañs Tal, þeinkia (mæ skie) so riede, ad sig mest einn, HErrañ vor hreinn, af heitu elskade Giede.

Enn DRottenn segde einum sier, ad hañ krossfestast skyllde, af þvi um Johanns Utfarer, ofhnij enn Petur villde, forvitnast breatt, a hvada Hætt, hann munde Lijf sitt enda. Soddann Freisting, sem miog er krijng, sann-gudhrædda nam henda.

Eingann Heilagañ utann Brest, i Heimenum mæ fiña, ei hefur nockur Syndlaus siest, sijst kañ þad Vol ad liña: Guds Astviner, sem Ord hañs tier, aumlega falled h.sa, Hollds Veikleikeñ, vid hvorn Christeñ, hefur so breitt an Vasa.

Hafe þeir Stoolpar hætt skolfed, hvors skal þa vænta meiga, riwkande Hor og Reyr-Stræred,

med rasande Krapta deiga? Vier vora þvi, Otta Guds i, eigum Saaluhiaalp verka, ofs rijma fram, sem orka maa, Athugaleysed sterka.

Forvitne Peturs Frelsariñ, og Fijsn hier straffa næde; Varastu Madur, sierhvort Sinn, sialfs Guds þijns epter Raade, greuslast, þvi þier, ofhaatt þad er: Oransakande Veger, eru vijst hañs, Hugskote Manns, hanns Doomar furdanleger.

Liooseñu of-nær ef þu fer, eilijfrar DRottenns Speke, ad þig breñer, ei Ohætt er, og hañ þig burtu hreke: Þu ert Leyriñ, þad vid Smid sijñ, þrætta maa-ei, nie sege: Þvi giorder þu, mig þanneñ nu? Þier kann slijkt leyfast eige.

Hvad sem Gud lætur hlotnast þier, hygg ad þvi Saal mijn blijda, sialfur allra best sier fyrer, so sem Barn skalt þu hlijda, mis-uñ ei þeim, sem hier i Heim, hann giefur Epterlæte, laat þier hanns Raad, nægiast og Naad, naum þo þier veitest Kiæte.

Þeim fagra Josephs Kyrtle kañ, klædast hvør Madur eige, eñ aller froomer eins og hañ, a þeim sijdarsta Dege, Guds Elsku naa, giefst Vegsemd þaa, Gud eiñ þar Makt til hefur, hier vid siñ Lijd, a hvørre Tijd, hondla, sem Villd hañs krefur.

Medal Brædranna Ord þad enn, wtgeck, og hvør einn seger: Þesse Læresveinn sviptur senn, Soott og Pijn, deyr alldreie; Og JEsus vann, ecke uñ hann, Ordum þessum adtala: Læresveinar, þo giordu þar, þvi-

hvilijkt med sier ad hiala.

O! hvad opt giorer Ordeñ Pijn, Endurlausnareñ best, afbaka epter Illsku sijn, Omilldra Flockur verste, Villu-Lærdoom, med vondum Room, vekia og breytt wtbreida, einfallda Piood, og Heliar-Slood, afvega hannig leida.

Tilkomu-Dagur DRottenns er, Dauda-Tijd Rietchristinna, i JESU deya wtvalder, allar Sorger þær linna, vier sofnum sætt, Saalen er kiætt, i sialfs hanns Fadme blijdum, i gegnum Deyd, þær liggur Leid, til Lijfs fra Heims Astrijdum.

# 38. Psalmur.

## Uñ Openberan Christi a Fiallenu i Galilæa, og hanns Skickun, ad Postularner wtfære uñ allann Heimenn.

Ton, Gud vor Fader vier þackum hier.

ÆErefveinarner Lausnarans, (liooft sem ad Skriften greiner), epter Bode og Ordum hanns, ellefu Lyndes-hreiner, i Galilæam a eitt Fiall, wtgengu, so ei snerte Fall, þar voru þo ei einer.

Fiñ Hundrud Brædra fylgdu med, Frelsarañ strax tilbadu, er þeir høfdu hann aller sied, af Fognud glediast nadu; Eñ nockrer giordu efa pad, ei hafde slijkt þo mangañ Stad, ad JEsu grant þo gadu.

Upp-

Upprisenn læta sig ad sia, Sonur Guds losa riede, g ædsfusws i Galilæa, giorla nu þetta skiede: Alldrei bregdast Heiten hans, han er DRottenn Gud Saulei:kans, hier af æ giesst mier Glede.

Hælærdra Mana Meining er, munds Fialled heilaga, æ hvoriu byrtest HErrann hier, hvartil vissRok þeir draga, æ þvi Forklæran stynde siin, Sonur Guds, fyrr enn leid hier Piin, og allan vorn bætte Baga.

Borg sem ad Fialle bygd er æ, blessud Guds Christn: heiter, þar fær þu Jesum, Sæl mijn, siæ, sem alla Glede veiter, han þig hress:r, han þig liifgar, Holld hans og Blood þig nærer þar, þa Synda Þwongenn þreyter.

Af þessu Fialle eg mun sæ, epter Lijfed ad fara, æ Zions Fiall uppstijga þa, og minn sæta Lausnara, med wtvolldum þar ollum siæ, i Borg Guds sialfsum DRottne hiæ, og skiærum Engla Skara.

Af Sina Fialle Israel, wtgiefa DRottenn nade, Logmæled; sem ad Hryggd og Hel, hverium sem einum spæde, af þvi þad kunne eingenn Mann, uppfylla, nie þess flya Bann, Ok þess so alla þiæde.

Af Thabor Fialle Frelsarenn, Flock helgra Postulanna, wtsenda giørde umm Heimenn, Evangelium sanna, ad boda og kienne allre Þiood, i sem Logmælsens Banne stood, og segia Kvittun Syndanna.

Allt Vallð er giefed einum mier, End-

urlausnarenn tiæde, a Himnum, sem ad allz
drei hver, einnenn a Jardar Læde. Ad
soddañ rett athugudu, epter Mañdoomsens Nattz
uru, þessa Magt JEsus bæde.

Af þvi Jesu gafst eilijst Valld, æst kiæra Broos
dur mijnum, fyrer mig allt hann greider Gialld,
Gude og Fodur sijnum, hann mig Voladann
frañfærer, fyrst hann er so næ-skylldur mier, og
svipter ollum Pijnum.

Eg er riettdæmdur uppa hann, Ætt ockar kañ
eg segia, Holld af hanns Hollde: Sw med Sañ,
sonn Skylldseme mun hneiga, Hiartad hañs, til
ad hiælpa mier, hanns Valld lætur ei slijta as
sier, Ond mijn, þa eg skal deya.

Af JEsu Vallde wtsender, urdu hanns Læres
sveinar, styrkter, gladder og hughrauster, hvors
vegna eingenn kveinar, sidsir hanns Skipun fylgz
du um Heim, sañst ei Tregdan hiæ nockrum þeim,
þo være ei Brauter beinar.

Ad Kenna og Skijra alla Þiood, Endurlausz
narenn blijdur, um þa vijdu Veralldar Slood, af
Vallde og Myskun bijdur, helgum Postulum
Heims um Rann, hier af er lidosast vilie hann, ad
tapest engenn Lijdur.

I minne Skijrn eg ordenn er, Oska-Barn
Guds lifanda, Arfur himneskur hlotnast mier, er
huggar nu best minn Anda, Glede, Fridur, Farz
sælld og Dijrd, sem fæst ei af nockrum hier wtz
skijrd. Ersd sw skal eilijf standa.

Eg em med ydur enn so tier, Endurlausnarenn sæte, allt til Veralldar Enda hier. O þaa Fagnadar Kiære! Sem hier nu odlast Saalen mijn, sæll JEsu minn af Nalægd þijn: O himnest Epterlæte!

Eg vil Loforded þetta þitt, þijdaste JEsu, vesta, med Trwar Hond um Hiartad mitt, Hormung so alla kefia. Þu ert minn Styrkur, Hiaalp og Hlijf, Huggun, Frelsi: J Eilijft Lijf, hiedann muntu mig hefia.

O miñ sæte Emanuel! O JEsu Gud og Madur! Vertu hiaa mier, so vegnar vel, eg verd þaa syrgiande gladur, hiaa mier vertu i hverre Neyd, hiaa mier vertu i Lijfi og Deyd, HErrann minn hæst-losadur.

# 39. Psalmur.

## Um Underbwning JEsu Christi til hanns Uppstigningar.

Ton, Hallt oss Gud vid þitt hreina Ord.

EPTer sijna Upprisu hier, oss sem Kitningen þad seger, i Fiørutyu Daga dijr, dvalde vor JEsus Millde-skijr.

A þeim Døgum vor DRottenn ried, Daasemdum og Kenningum med, sijnum Postulum safna i Eitt. Sem vid Hiord sær einn Hyrder breitt.

Vors sæta JEsu Sveinarner, Sorgar Stunder Fiorutyger, epter hann høfdu andadann, i Grofinne þa liggia vann.

J Fiorutyger Daga dijr, DRotteñ vor JEsus Giædsku hiir, aptur nam gledia alla þa, a hverinn tijdt þeir fengu hann sia.

Epter Sorgena gefur Gud, Glede, Hugsvølun og Fognud, epter vort Stundlegt Erfide, eilijfa Hvijlld og Roosemе.

Ur Jerusalem wtleidde, allra sijdarst vor Lausnare, Læresveina, sem Letrenn tia, liwfur allt til Bethania

Bethania sem augliooſt er, Angiſtar Heimkyñe þijder, þar nærre la nu Lausnarans, Leid, er hann stie til Himna Ranns.

Mijn Saal, þijn alltijd liggur Leid, Lijssins medann þu hleipur Skeid, um Sorgar Vegu allmarga, upp i Dijrdar Sal Himnanna.

A Oliu-Fialled Elskufws, uppstijgur DRotteñ vor JEsus, af hveriu hañ til Himna fer. Huggun betstu þad gefur mier.

A þessu Fialle hafde hann, hallded sterkasta Bardagann, vid Daudann fyrr og Diøfuls Magt, og dæsamlega þa underlagt.

Oss hvad hann feck þa afrekad, i þessum nu hann byrter Stad, sem er Himna For Heime fra, hverium er Nafn hanns trwa a.

A Fialle þessu Frelsarinn, fyrr hafde tijdum Nætt-Stad sinn, og sijnum Bænum wthellt þar,

ædur enn leid hann Pijslernar.

Hefur sannlega HErrann þær, Himna-For
sijna minnst þar æ, og þvi fwsare uppbyriad, all-
ar Pijsler i þessum Stad.

Af þvi dijrdlegur upp nu st'e, Endurlausnar-
eñ blessade, med Sigur-Hrosani Himna Dijrd,
hvar alldrei verda kann wtskijrd.

Andleg Himna-For eflaust er, ad bidia Gud
æ Jordu hier, þvi þær er Hiartad Himnum æ,
HErranum JEsu sialfum hiaa.

Sæ þad giorer, vijst hefur hann, Himnarijke
æ allann Sann, i sijnu Hiarta, hvar ed fws, Her-
berge tekur sier JEsus.

Bænen hefur i Himeninn, Hiartad, sem fad-
mar DRotteñ sinn, i hanns Skaut sig iñleggur
þar, adlast so Traust hanns Myskunar.

Fyrr enn Herrann til Himna foor, hañs
nam enn byrtast Elskan stoor, vid Postula-
na, hveria hann, med Hiartans Astsemd
kvedia vann.

Med lyptum Høndum Himnum ad,
Herrañ vor JEsus giørde þad, og blessade
þa alla senn, eilijfur Dijrdar Kongurenn.

Af JEsu Hendum Blessan best, bijtest og
jafnann wtdeilest, ollum Trwudum; Eiñ þeim
hann, Abr. hanns Blessan veita kann.

Af blessudum Sarum Handa hanns, hijngad
æ Jord til syndugs Manns, þeim Lijfsins Bruñ-
um framflioota, fegurstu Straumar Blessana.

J Lijfe og Dauda eru hier, O JEsu! þijnar Hendur mier, : Blessan, Huggun og Hialpræde, a Himnum þar eg gladur sie. :

J Lijfe og Dauda eg bid þig, i þijnum Hondum geym þu mig; þa eg dey, HErra, Honden þijn, i Himna-Vist take Sealu mijna.

# 40. Psalmur.

## Um sialfa Uppstigninguna, og Sess JESU til Guds hægre Handar.

Med Hymna Lag.

Epter þad JESUS hafde hradt, heilaga Lærisveina kvadt, vid þa skyllde, og var þad Sinn, med Vegsemd hærstu uppnuminn.

Þeim asiaendum eitt Sky hann, frat Augum þeirra taka vann, i Himenen so upp þa foor, Endurlausnarenn JEsus vor.

Til hægre Handar Himnum a, hærsta Guds situr, Vegsemd þa, af Adam komenn eingenn Mann, adur nie sijdan hliota vann.

Athuga, Sal mijn, attu hier, Endurlausnarenn stijgenn er, upp til Himnanna af Jordu, epter Manndoomsens Nattur.

Epter Guddoomsens Edle hann, Upphefd neina ei hliota vann, hann er Gud hærstur Himnum a, Hefd kynne einga meire ad fa.

O! hvad gledur mig aumañ þad, ad i himneskann Dijrdar-Stad, Holld mitt i Christo hafed e, hvors eg maa lijka vænta mier.

Hofud mitt JEsus, HErrann minn, i Himna Dijrd er uppstiginn, mier hanns Lim enen hlotnast a, Hofde mijnu þar vera hiaa.

Upp ad Himnenum i Skye, augliooslega vor DRottenn stie, Valld og Dijrd Jesu vottast hier, Vagn hanns til Himens Skyed er.

Eg þegar lypte Augum mijn, i Skyen, Drottenn miñ, til þijn, jafnann giöre eg ad þeynkia þau þig mune eg gladur lijta fa

Aptur koma a effsta Dag, i Skyunum med Dijrdar-Hag, hafande Virdug volduga, og vegléga Samfylgd Englanna.

Ad eg verde þa vid hvoriñ, veite mier helgur Andenn, og med þier sialfum Sigre ad naa, sætaste JEsu, Himnum aa.

Nidur af Himnum hingad kom, HErrann Jesus i Fatækdoom, og i Þioons Mynd hier umgeckst hañ, a Jordu medann dvelia vann.

Enn til Himens hann uppstigur, aptur, sem HErra dijrdlegur. Sordann Vijte vid Born sijn hier, blessadur DRottenn enn giörer.

Af Þioonum giörer Herra hann, af Hryggdarfullum, Gladværann, af Kross-þiokudum, Eymda frij, Ast hans og Naad so skickar þvi.

I Skapadañ Himen ecke er, a hvorium lioomar Stiarna Her, Endurlausnarenn uppstigen, oss

sem

sem liooft kienner Ritningeñ.

I eilijfann Himen, eilijft Hws, inngeck Frelsarenn vor JEsus, i þa Tialldbwd, hvor eige er, af Hondum bygd, sem Skriften tier.

Þesse Himen er Hesd og Dijrd, hvar alldrei verdur noog wtskijrd, wtvalldra Stadur eilijfur, eilijf Glede og Fognudur.

Adam lokade aptur fyrst, aumlega þa hann syndgadist, Himnenum fyrer ollum oss, eilijft so mistum Dijrdar-Hnoss.

Sa annar Adam af Himne, i siñe Dijrd nær þangad stie, upplauk Himnenum ollum oss, eilijft so hreptum Dijrdar-Hnoss.

I þa Sæluñar sælu Vist, señ leid mig, Herra JEsu Christ! i Vonene er eg hia þier, a Himnum, medann þad ei skier.

Þar lifa aller wtvallder, Englum heilogum samlijker, i Dijrdenne sem alldrei dvijn, eingenn snerter þa Hrygd nie Pijn.

Ei hefur nockurt Auga sied, ei nockurs Hiarta fullskiled, hvad stoora Glede Himnum a, hia Gude wtvallder þar sia.

Enn skallt þu Saal mijn athuga, um JEsum Christ þinn Frelsara, ad til Guds hægre Handar hann, a Himnum situr, þo sem Mann.

Gud er einn Ande, og til Saññs, ei hefur Holld nie Lime Manns, Almættes Stioorn hanns eilijf er, ædsta Guds Hond, sem Skriften tier.

I þeirre Stioorn ad Eilijfu, epter mañlegre

Natturu, rædur JEsus, hvors eingum ann, allstadar nærverande Mann.

J Himens og Jardar hvorium Stad, og Helviite eins giorer þad, epter Mañdoomsens Makt, sem er, meddeild honum, þar ei af-ber.

Gled þig nu, Saal miijn, gled þig hier, Guds Sonur sem þinn Brooder er, a Himne og Jordu hañ stioornar, hañ er og med þier allstadar.

Otelkande Guds Engla Her, efalaust hefur fylgst med þier, þegar þig hoofst i Himeninn, med hærstre Vegsemd, JEsu minn.

Nær eg helld miina Himna-Ferd, hiedann þa burt-kalladur verd, ædstur miins JEsu Engla Her, ei mun þa verda laangt fraa mier.

Miina Ønd þeir medtaka þa, mædst sem ad hefur Jordu a, i Abrahams Skaut þeir bera bliidt, hvar bwed er Sælu Plaatzed friidt.

O sæte JEsu! innleid mig, um þad af Hiarta bid eg þig, þa endast stundleg Eymden miin, i ævarande Diird til þiin.

Heidur, Speke, Valld, Vegsemd, Diird, Virtka, Styrkur og Lofgiord skiird, sie þier O JESU Christe klaar! Kongur Diirdar um eiliif Aar. A M E N.

# PSALMUR
## Ut af
# Upprisu Historiuñe;
Ordtur af Sal. Sr.
## Hallgrijme Peturssyne.
Tou, Giædskurijkaste Grædare minn.

HJartad fagnar og Hugur minn, Herrañ JEsus er upprisinn, Kvol þo a Krosse ætte, arla Sunnudags er þad skied, adur eun Soolen lijsa red, af Guds Dijrdar Almætte, þijdur, frijdur, Engell kiemur, Krapteñ fremur, klaart eg greine, af Grofinne vellter þeim stoora Steine.

Jardskialfte mestur skede þar, skiærasta Lioosma Engell bar, Vardmeñ þa soddaun sau, Otta miklum yfir þa sloo, Abl og Styrkleika fra þeim droo, lijka sem dauder lau, þegar, Vegar, Lioosid skapta, Lijfsins Krapta, lokfsins fengu, heim i Borgena hryggver gengu.

Hofud-Prestana hittu señ, hermdu oll þesse Tijdindenn, hiner þeim hietu Gasum. Seged, ad Læresveinarner, sooktu Lijkamann burt med sier, þegar vier sprettter svafum; hrader, glader, Gialded þyggia, þar ad hyggia, sijdañ sogdu, lijka sem Jud-

Judar þeim Raadenn sogdu.

Adur enn Dagurenn upprann klaar, utgengu af Stadnum Kvinnur þriaar, Maria Magdalena, Mooder Jacobs hinns minna var, med hm lijka Salome þar, þær hugdust Christo þiena, bryggar, dyggar, Lauinaranns villdu, ad liwfre Skylldu, Lijked smyria, hvor ried adra þaa hlioott ad spyria:

Hvor mun burt vellta hördum Stein? Hindrar sia ofs aa marga Grein; Þegar sem litu þangad, openn stood Grof, enn Engell var, alhvijtu klæddur Lijne þar, Hrædsla ried Hiartad faanga, hlioodar, moodar, bryggvar Kvinnur, sagde svinnur: syrged eige, upprisinn JEsum eg ydur sege.

Kvinnurnar gladar gengu heim, Grædarenn JEsus mætte þeim, segiande: Vered sælar, þær fiillu sijdann framm til Fanns, aa Fætur kysstu Lausnarans, hann red hijrlega ad mæla: Eg bid, ad þid, mijnum blijdum, Brædrum þijdum, braatt þad inned: J Galilæa hier fyrst mig finned.

Magdalena aa medann fer, miog flioott þangad sem Petur er, og Johannes med honum, sagde: Lijkamann sælastann, sia hvergi eg nie finna kann, burt tekenn vær hann vonum; bæder, þiaaþer, undrast þetta, er þad sretta, og aau Tasar, wt þangad gengu nu o'll til Grafar.

Fyrstur Johannes frammkom þar, fornam ad Grofin openn var, Petur þaa greidt inngengur, saau [illegible] Lijnklædenn mioek, lijka og JEsu Sveitadwk, Forundran af þvi fengu, allskioott, og flioott,

apt-

aptur snwa, og þvi trwa ollu ad soñu, burt mune Lyked bored af Monnum.

Epande Maria wte stood, iñ i Grofena horfde Fliood, Englum tveim gaf ad Giætur, vard hun nu hrædd, og vidleit þar, Vaktarañ Gardsins hugdest hon, hañ spyr strax: Hvad hun grætur? Hun kvad: heilst þad, miñ Herra þijdur, Hiartans bliidur, hier funnist eige, Efned Sorgar og þad sege.

Hafir þu bored hann burt med þier, bid eg ad Herra seger mier, so ad hañ þangad sæke, Madurenn svarar: Maria! Meistare, sagde hun aptur þa; ei leifde ai sier tæke, oll Hryggd og Styggd, smijst i Glede, skiott þad skiede, er Christum kende: Heim til Postula hana sende.

Hun kom strax og þeim kuñgiorde, Christur af Dauda risiñ sie, Ad burde alla sagde, hinar Konurnar hermdu med, hefdu þær lijka JEsum sied, Lijfs og i lîwsu Bragde. Þetta, retta, Villu hielldu, Hug siñ hrelldu, Herrañs Svelnar, Sioon-Hverfingar þad sogdu einar.

Til Emaus geingu einer Tveir, um HErrañs Pijnu tala þeir, þad skiede ai þessum Dege; Eñ so til bar, sem sege eg fra, sialfur JEsus nalægadest þa, þo ad hañ þeckti eige. Hann spyr, Hugkyr: Hvada Hialed, Hryggdar-Taled, hafed Brædur? Cleophas ansar med kleckre Rædu:

Ertu eñ so Okendur Mañ, i Jerusalem, ad Giorning hañ, sem er fyrer skoñu skedur, veitstu ecke? Eñ hañ spyr ad, honum Cleophas sagde þad: Jesus

sem oss var medur, hædstur, ædstur, af Spœdooms Ordum, og Giædsku-Giordum, fyrer Gude og Monnum, œ Krosse deyddur, þad sialfer sounum.

Enn nu i Morgun ærla vijst, ædur enn feck af Dœge lijst, Kvinnur frœ oss utgeingu, lifande sogdust lijta hañ, lijklegt þad eingum virdast kañ, Felmtur þvi aller feingu. Heimska, gleymska, kvad þa bæda, Kongur Dæda, kieñde sijdann: Christur so hefde hloted ad lijda.

Alla Ritning utleggia ried, opnade þeirra Hugskot med, Skriftena gloggt so skilia. Kauptuned aller nælgast nu, nær þvi endud var Leiden sw, gœnga liest leingra vilia. Beiddu, neiddu, Christ ad bijda, kvœdu lijda œ Kvollded nærsta. Inn med þeim geingur Milldenn hærsta.

Settest til Bords, og Brauded þar, blessade, sem hañs Sidur var, og sijdañ ad þeim riette, bæder i señ hañ þeckru þœ, þeirra Sioonum hvarf burtu frœ, Harme ur Huga lettu, hrader, glader, Postulum hinum, HErranns Vinum, hier frœ sogdu, eingañ Trwnad þeir œ þad logdu.

A somu Stundu þad so til bar, sialfur JEsus var komenn þar, og midt i Mided stendur, þeim Oskar Fridar þessu næst, þa var Dyrunum aptur læst, sia liet œ sijnar Hendur; Eñ þeir, þvi meir, urdu fegner, Ottaslegner, og þvi trwa, Grœt riede ollum i Glede snwa.

Ecke var Thomas þa med þeim, eñ þegar seirna hañ kom heim, þeir sogdu allt hid saña, alldrei trw-

eg

eg, hañ ansa ried, utañ ad Nagla-Foreñ sied, fæe med Fijngre kaña. Lidu, bidu, ætta Dagar, Dijrdar hagar, Drotteñ sætur, ad luktum Dyrum kom milldur mætur.

Hiaa þeim stood Herrañ hijr i Mid, hier nærst Thomam so rædde vid, og vill hañ verde gladur: J Nagla-Foreñ læt Fijngur þinn, flioott legg mier Hond i Sijdu iñ, vert ecke vantrwadr: O Rottiñ, Gud miñ, sagde dyggur, Trwar tryggur, Tvijbureñ frisdur. Aptur JEsus þaa ansar blijdur:

Sañlega Thoma trwder þu, Tilsijnd mijn þessu alle nu, og eg eñ framar segie: Sæll er sa hvor mig sier ei hier, samt þo af Hiarta treyster mier, Huggun so hlioota megie. Fleire, meire, Jardteikn hrein, fyrer sijnum Sveinum, sijdar giorde, oll þo ad greind hier ecke verde.

Vid Genezareth Vatned brætt, voru þeir þa ad Fiske-Drætt, eñ sig openberade, Petur adspurdur þrisvar þar, þvi jaatade, (sem vonlegt var), ad hañ JEsum elskade, bijdur, þijdur, Lijffens Braude, sijna Saude, Simon fædde, um hañs Dauda og Utfor rædde.

Fiorutiju Daga Drotteñ ried, dveliaz hier Læresveinum med, epter Upprisu dijra, til Himna upp sijdañ hiedañ stie, hiaa Hond Fodurs almaattugre, situr vor Hiaalpen hijra. Amen, Amen, allar Tijder, lofe Lijder, Lausnarañ gooda, honum skal jafnann Heidurenn biooda.

A M E N.

# Packarglerd fyrer Upprisu Christi.

Af Sr. Eyreke Hallsyne.

Ton, Allfagurt Lioos oss byrtest bradt.

O JEsu Christe oblugt Leon, af Ætt Juda sterke Samson, þu Osigrande Hetiau hraust, Heims Synder barstu efalaust.

Hoggorms molande Haus i smætt, hardann sigrande Daudans Mætt, eilijfi Kongur Almætt-es, Yfirvinnare Helvijtes.

Eg sege þier Lof fyrer Sigurenn þinn, Sæl mijn finnur þig upprisinn, deydt hefur þu nu Dau-dans Magt, Dijrd og Prijs Kraptar þijns framlagt.

Bevijsande þig Bardaga Mann, sem bæde Dug og Raadenn kann, Hurd ad upplwka Hel-vijtis, og hoskum Dauda ad vinna Slis.

Þu varst ad sonnu saaladur, samt ertu Kong-ur eilijfur; Hvar er þinn Sigur Helvijte, og Hel-Broddur Daudans nijstande?

Lof sie þier JEsu Lausnare minn, fyrer Luckudriwgann Sigurenn þinn, er mier nu vijst um ei-lijf Ar, afþerrast mune mijn Sorgar Tar.

Nu er Sæl minne sællre kaart, syngiande af DRottenns Styrk og Mætt, Helvijtes illur Of-si er, alldrei framar til Meina mier.

Um litla Stund þu Læging barst, lijdande of-ergiefinn varst, upphafinn nu ad eilijfu, med Æru Dijrdar Koronu.

Biarg-

Biorged Guds Magtar blessudu, Byggingar-Manna sem forlogdu, vorded er Hofud Hyrninga, hvad vor Augu maa forundra.

Af DRottne er þad so skickad og skied, skal hañ þvi priisast Saungum med, trwadra Manna i Tiallo-Bwdum, traust helldur Hond hanns Sigrenum.

Ei mun eg deya, helldur hitt, hroosist i DRottne Lijfid mitt, kuñgiörande, sem Christnum ber, mijns Christi JEsu Dasemder.

A Vege drackstu af dimum Læk, þaa dunde yfer þig Neyd Otæk, nu er upphafid Hofud þitt, HErra JEsu Riettlæte mitt.

Upprisan sonn þu ert og Lijf, allra Trwadra stodug Hlijf, um Sinn þo Heime sofne fraa, sijdar muntu uppvekia þaa.

Þijns Svefn-Herberges Sveinarner, skaust, þad voru Englarner, sialfann Mariu synder þig, so er mier Giædska minnelig.

Petre skipader Atvik oll, þo afsvære þig i Caiphæ Holl, ad herma Brædrum harmþrwngnu, um helga Þijna Upprisu.

Þinn Fader og Gud, minn Frelsare, Fodur þeirra sann-nefnande, þo broted hefdu Brædralag, baudstu þeim Frid og goodann Dag.

A sama Dege Emaus til, aungraadum Saalum miog i Vil, samferda varst og sannader þinn, sæla Lijkama upprisinn.

Um luktar Dyr þu glogglega geckst, goodz Hug

Hugsvolun Postulum fieckst, synder þeim blessud Saar þijn þa ; Sijdann neytter og drackst þeim hiaa.

Elska þijn þeim so talde Trw, Taallaust upprisinn værer þu, Naudsynia-laust þaa Næring tookst, nærande þeirra veiku Briost.

Fridur þinn er sw Fædan hrein, forsorgar andleg Hwngurs Mein, himneskann med sier hefur Krapt, Hiartad finnur þad Endurskapt.

Hille DRottenns og himnesk Raad, i HErranns JEsu Fridar Daad, med frij nu Synden falenn er, fyrer hann nefnunst Riettlaater.

Ynde, Traust, Sigur, eilijft Lijf, er JEsu Fridur, og stodug Hlijf, moot Synd, Heime og Helvijte, hordum Dauda og Reidenne.

Bolvan Logmaals og Beliaks Præ, bræd Fordæming sier eckert maa, i moote JEsu fogrum Frid, froomt gladdest þvi Postula Lid.

O þu Lijf-sæle lystuge, Lausnarans Fridur blessade, Avexter JEsu Upprisu, ollu valldande heilnæmu.

Kom i mitt Hiarta kiæra Baal, kom þu gledjande mijna Saal, eg fagna þinne Innkomu, sem Akur-Mann sinne Kornskieru.

Egg gledst so af þeim gooda Frid, Guds mijns Upprisu bundenn vid, sem Her-Menn Sigre hroosande, Herfangenu wtskiptande.

Sigur-Hofdinge sætaste, sæmde mig Blessan eilijfre, Helvijtes-þræ hann Vijking vañ, Vijted

og Daudann eilijfann.

Blessade Sigur Samson miñ, Sæl miñe vañþañ Skwodañ iñ, er hun i starta eflaust skal, i eilijfum JEsu Brwdkaups Sal.

O JEsu minn Emanuel! Aerumar Kongur, gior so vel, læt mig upprijsa lijka nu, fyrer lifandæ Jdran, Ast og Trw.

Fyrstu Upprisu og fegenn kys, farsæl hin seiñe þæ er vijs, Sæalar Dauda mig Son Guds ver, so hinn eilijfi ei grande mier.

J mier minn JEsu enn upprijs, i mier JEsu þu vinn þinn Prijs, sigra þar Heimenn, Synd og Deyd, Satan, Helvijte og alla Neyd.

Hugga þu mijna hryggva Sæl, i heñar Sorgum, þæ Glede er mæl, Ord Guds blessada og Andar Frid, iñræte henne JEsu Grid.

Einnenn bid eg af innstu Root, O JEsu i minna Þrauta Boot, Upprisa þijn æ efsta Dag, Upprisu minnar blesse Hag.

Sveipadyr Molld eg sofi i Roo, sem andleg Mooder mier tilbioo; Svefn Blæu þeirre svipter þu, siælfur og vekur øll þijn Hiw.

Vakned, prijsed, þæ eru þijn Ord, under sem hvijlest raudre Jord, af þvi mitt Regn er Edlesins, eins og Dogg græna Vallarins.

Þæ mun vakna i Vansemd sæd, vel-fagurt Holld fyrer D Rottenns Ræd, Odauðlegleika Jnnyndad, Upprisa JEsu verkar þad.

Af þvi vort Lijf er huled hier, i HErranum JE-

JEsu, trwum vier; Enn þad mun verda Opinnubert, ca effta Dege ad Tign Ofterdt.
Heilage JESU Heillen mijn, hugge mig oll Forþienan þijn, gief mier Upprisu glada ad sia, og Glædskti þijna um Eilijfd sia.

## Psalmur wt af Gagne og Glæd- um Upprisunnar Christi.

Ordtur af Sal. Sr.

### Jone Magnusssyne i Laufaase.

Med sama Lag

HJNR Ðke Guds hæare Ðijrdar Hond, HRotienn JEsum, oll christenn Lond, sem Dwin sigrade og um Koll sloo, umgeck oss sijnum Frid og Roo.
Fagne Himen, og fagne Jord, fagne Engla og Manna Hiord, fagne Lijkame og frelsud Saal, fagne Manns-Hugur, Vit og Maal.
Nu er Heilsa og Kraptur klaar, konglegt Vellde og Mattur haar, ordenn vors Guds um Eilijfd viss, einnenn Hlutskipte hanns sæla Christs.
Endurlausnen nu er fullgiord, allt lagfært bæde ca Himne og Jord, Skadenn bættur og Skom afmaad, sem skied var fyrer Diofuls Raad.
Lausnar Heit-Ord nu oll eru efnd, Andskotenn fieck makleg Hefnd, er hann fordæmdur vtrekenn, i Underdiwps Myrkrum Hertekenn.
Mar-

Mared er Sytur=Hofud hanns, af hellogum Footum Lausnaranns, hverium hanns belvad Hæl=Bit sveid, þa HErrann a Krosse Pijnu leid.

Daudenn i Sigur svelgdur er, so sem Hisme og broted Ker, eda Fiskur bleckur Aungle a, er hann Beitunne hyggst ad na.

Er nu Helvijted umturnad, Upprisa DRottenns giørde þad, eingenn Fordæming ordenn nu, a þeim sem hafa christna Trw.

Sæl mijna gledur Sigur þin, Synda Berarenn JEsus minn, i Herfange þijnu Hlut eg a, heiter Rettlæte Fengur sa.

J þinne Upprisu eg Fognud fæ, fagnande eg i Anda hlæ, Sigur=Merke þitt signad er, sæst Lamb i þijnum Skyllde ber.

Fiandmanna þinna Fors og Magt, til Footskarar þinnar hefur lagt, Vijr Helvijtanna duga ei Hoot, DRottenns Hiard=Saudum rijsa a moot.

Daudenn sa Fiandskur Pharao, foorst i Christs Dreyra raudum Sioo, Huggun hef eg af helgre Biork, helld mijna Paaska a Eydemork.

## Agiæt Huggun af Upprisu og Himna-For HErranns Christi.

Ton, Endurlausnarenn vor JEsu Christ.

Sigurhroosan þijn sæl og blijd, sætaste JE-

ſu, Perlan frijd, hvadijrſt nu hlioomar, og Huga minn upplioomar. Ver velkomed væn ſt Bloom.

Indes Rooſen upprunnenn er, Ande minn Danſar fyrer þier, frij frelſtur talenn, til Fagnadar wtvalenn. V. v. v. B.

Aſtkiære Fader, O Gud minn! Eg veit nu þad ad Sonur þiñ, Egyptalande, ollu er rædande. V. v. v. Bl.

Fangelſis Klædenn fyrer ſijn, fagra Koronu ſviptur Pijn, hann hefur fenged, i Herradoom þinn inngenged. V. v. v. Bl.

Til Heidurs upp er hafinn hann, hvadijrdlegaſtann Sigur vann, a Ovinum ollum, haũs Arfleifd oſs nu kollum. V. v. v. Bl.

Fyrer eigenn Krapt Koronud er, hanns konungleg Tign og Heidur ber, vid Hond Fodurs hægre, hann ſitur ollum frægre. Vort lyſtelegaſt Liifs Bloom.

Blijdann JEſum vorn Broodur nu, bleſſadur Fader ætijt þu, i Hug hijrt ad grunder, haũs Hlijdne, Deyd og Under. V. l. L. Bl.

Hanns Forþienuſta meira mæ, enn Misgiord vor og Synda Præ, lææt Reide riena, rijka Naad oſs liena. Vort liſtelegaſt Liifs Bloom, A M E N.

# Peir Fimtyn Hugvekiu Psalmar.

## I. Psalmur.

### Umm rietta Pecking Syndarenar.

Ton, Hallt oss Gud vid þitt hreina Ord.

O Gud heilage Herra minn, hefi eg aumur Þrællenn þinn, Synda Eytur so inndruck-id, eins og Jord Vatne tekur vid.

Vijst er mijn Synd vr Maata miög, mörg, Ung, Gömul og Svivirdeleg, enn þijn Reide far Elldur er, Ogudlegum sem fortærer.

Rettlæted allt sem orkad gat, er sem Blood-siwkrar Kvinnu Fat, O! hvad Ranglæted illt og frekt, er þaa fyrer þier svijvirdelegt.

Lioosid medann i Myrkre er, mikla Byrtu þad gefur af sier, enn þegar Soolen er þad skijn, alla misser þad Geisla sijn.

Eins er þad margt i Athöfn Manns, ad Alite hæsta Doomarans, Ofullkomed og einkes verdt, er vier þo meintum Heilagt giordt.

Hvar mun eg aumur Frelse faa? Þò flya vill-de eg i Himenenn haa, þa er þar fyrer utann Ef, er eg so tijdum styggdann hef.

A Jordu er hverge Hæle hier, Herrans Skep-nur þær mya mier, med þvi eg hefi moodgad

þann, minn og þeirra Gud Skaparann.

Asokun Heims er hörd og stoor, Himen, Lopt, Jord, Vatn, Elldur, Sioor, Englar, Samviiska, Satan senn, og sialfur Gud klagar vonda Menn.

Hvor ma vid slijku reysa Rönd, Rettlæted stæar a adra Hönd, þegar allt þetta amar ad, ecke er sijnt um Grida-Stad.

Glæpugum þeim sem gyrnast Raad, giefur Salomon heilnæmt Raad, i Biargskorum sig fele fliott; Flya vil eg nu þangad skiott.

Biarged þad sem hann seger hier, sialfur JEsus vor DRottenn er, Skorurnar eru Under hanns, i þeim er Hæle Syndugs Manns.

Lijfsins Uppspretta er þar ein, öll kann sw græda daudleg Mein, Svala Dryck finnur þyrstur þar, Þvotta-Laug hinn sem Ohreinn var.

Þar vil eg koma þiadur Þræll, þar vil eg fest JEsu sæll, medann Guds Reide fram hia ser, fly eg til þijn, þu tak vid mier.

Ecke þarf eg ad Ottast þar, Aklögun Guds og Skiepnunnar, sa er fra allre Anaud frij, Undum DRottenns sem hvijlest i.

HErra JEsu minn Hlijfdar Mwr, hialpa mier öllum Vanda wr, tak mig i þijna opnu Und, og annast mig a Dauda Stund.

2. Psalmur.

Um

# Um̃ Jdkan Jdranarennar af HErrans Pijnu,

Ton, Guds Son kallar, komed til mijn.

Skiadu og Hugleid Sala mijn, saar og beiska JEsu Pijn, skiadu hanns Mædu mægna, Kvalanna stærd og Ofraun af, Ondena upp a Krosse gaf, bad leid han þiña vegna.

Skiadu hier þiña Synda Stærd, skiadu hvad mikid kosta vard, Saar þijn og Siukdoom græda! Gud lijdur sialfur grima Pijn, Gud wthellet hier Lijfi sijn, Gud kvelur margskyns Mæda.

O! hvad Banvænlegt er bad Saar, þar eckert annad til Grædslu stoar, eñ Bartskierans Blood wr Ædum, O! þa kynia Stærd Kraukleikans, er kostade Dauda Læknarans, Guds Son a Himna Hædum.

Þu christenn Sala, skiadu hier, Syndenne so Gud reidur er, þo hans Son Skatta bæde, Fodur sinn kiæran fyrer oss, fallna i Synd og Daudans Bloss, Guds Son ei rienar Reide.

Hann took þa a sig Holdsins Manns, Helgande so Natturu hanns, ad Synda Entre ende, han þa samtengde Holldsed vid, heilagasta sitt Rettlætid, Guds Son ei rienar Reide.

Allt þangad til hann a sier bar, Illgierd og Synder Veralldar, kvalenn a Krosse deyde, han liet wtþressa Lijf og Blood, ad lensa og græda Heimsins Blood, Guds Son rienade Reide.

Hædd, Slg, Saar, Brytl og Heliar Neyd, Hrakning og Smæner JEsus leid, Blessadur i Bondum, Deyde, Faderenn leit þaa saaru Swt, Saal og Lijf hanns þaa blædde wt, Guds þaa tienaft Reide.

Hann sem Heilagur hiingad kom, hlaut ad lijda so stranganii Doom, særdur med soddan Hætte, sua sem kiemur med Synd i Heim, sijdann lifir og deyr i þeim, titrande ydrast ætte.

Hrædast og skialfa Skepnu ber, Skapara sinn þvi hefur hier, Krossfest og kvaled bæde, Þrællenn maa þetta Ottast eitt, ad hann hefur sinn HErra deydt, syndugur Helgann hrjade.

Christur lijdande Kvol og Deyd, kallar til vor i sinne Neyd, lautum vss honum hlijda: Syndug Manneskia siaadu mig, sannlega hlijt eg fyrer þig, soddann Saklaus ad lijda.

Sárer mig eitt og svijdur mest, sie eg og veit ad Pioodenn flest, mijna Pijn agtar eige, Opacklæted sem almennt skier; allre Kvol þyngra fellur mier, aa mijnum Andlaats Dege.

Heyrdu nu soddann Saala mijn, siertu Packlaat i JEsu Pijn, med Ast og Idran heita, Synndanna Verkunn siaadu vid, sær þu ei framar DRottenn Gud, nie hann til Reide reita.

Myskunar Fader, Myskun þijn, Myskune oss fyrer JEsu Pijn, og helge vor Hiortu kranenn, Jesu þijn Bæn og Benia Foss, Boot og Lijfgun sie allra oss, Amen, O JEsu! Amen.

3. Ps.

# 3. Psalmur.

## Um Avort sannrar Ydrunar.

Ton, Sai friáls vid Løgmál sæddlit er.

SYnduge Mádur, sieu ad þier, Saal þijn so hoolpeñ verde, eilijft Lijf byriar hvor sa hier, hreina Ydran sem giorde.

Hvar sw hin hreina Ydran er, er þar og Kvittun Synda, enn sw Kvittun hun aflar sier, Elsku Guds til Mannkynda.

Hvar Guds Ast er og Hylle hañs, hañs Sonur er þar medur, i honum Boot a Misgiord Manns, Mañs Samvitsku þad gledur.

Hvar Samvitskan er glod og good, Guds Ande bijr þar inne, og heilog Þrenning, sem hialpar Þiood, med hollre Lijfgiof sinne.

Þvi sa þeir aller eilijft Lijf, sem Yferboot Synda vinna, enn Andar Tioon og Synda Kijf, Ydrunarlauser finna.

DRottenn þar uppa doo a Kross, ad deya Synden mætte, latum þvi ecke lifa i oss, Leste med vondum Hætte.

Saalar Daude andlegur er, Illgiord og Synden Manna, undanndrogum þvi ecke vier, Ydrunar-Verked sanna.

Aumur er sa sem ecke kann, Illgiordum Boot a vinna, sialfann Gud fra sier fæler hann, med Fylking Engla sinna.

eingann Breſt, Rettſyne hellſt kañ hæped ſtaa/ Hondlun ſtoora vid feſt,gyrnſt þu ei framar añad a, enn þocknaſt Gude betſt.

Stunda þu ſo ad vera viiſt,ſem villt ad halldeñ ſiert, annars Heims fylger oſs þa ſiiſt, utañ hvad hofdum giort, i HErrañs Augſyn hvorn Dag fyrſt,hier ſo vel ſnideñ vert, ad Otteſt ei þo audnadiſt, eins dæmeſt, og þa ert.

Set þier Lifnadar Leidretting, Lijfs medann audeð er, ſa Heims Forogtun hellſt er kriing, Hylle Guds ablar ſier,Þacklætes er þad Amiñing, ef þig Velgeingane ſkier, enn hitt Jdrunar Uppvakning, ef þu Mootlæte ber.

Þitt Liiſſins Takmark lættu þvi, Lauſnarann Gud og Mañ, ſtefndu a hañ, þvi Nad hanns ny,Nytſemd alla þier vañ, Elſkan þig heſte Hæd-er i, hallt þier ſo faſt vid hañ,hreint Lijtillæte Hofmoods frij, honum betſt þocknaſt kann.

O! DRottenn kiær, ſem ſialfur ſier,ſoddann vier gyrnunſt ſa, vertu oſs nær, ſo vinnum vier, Vilia þijns jafnañ gaa; Lof þitt og Æru eblum hier, enn ſijdar Himnum a, ſiaum þig vær og ſyngium þier, Sanctus og Gloria.

# 29. Pſalmur.

## Uñ þad hvernenn vier ſkulum Uggleyſenu fraa oſs hrinda.

Ton, Einn HErra eg beſt ætte.

Hver

Hver um̃ þad hugsa villde, hvad tregt ad hiaal-
past er, alldrei so Ugglaust skyllde, ana fram̃
sem nu skier, i alla Stade ollum, alla Tijma er hætt,
Englar i Himna Hollum, hafa þvi lijka mætt.

Adam var Ohætt eige, i sælre Paradijs, so
fiell fraa Sannleiks Vege, Salomon harla vijs,
David sa mæte Madur, Mannslag og Hoor-
doom vann. Hvergi finnst hier sa Stadur,
hættulaus segiast kann.

Yfir þier uppe grunder, einn Gud, sem styggd-
er nu, Helvijte heitt nidr under, hvert vijst for-
þienter þu, Bak til er Glæpa Geimur, giegnt
Augum Doomurin̄, aa allar Hlidar Heimur, hier
nu, Elskuge þinn.

Hyggdu ad hvadann siertu, hvar af þijn skam̃-
ast maatt, athuga eins hvar ertu, andvarpa sijd-
ann þraatt, grunda hvert Leid þijn liggur, lifdu þvi
Ugglaus sijst, Framsyn̄ til Himens hyggur, Hlid
miogt, vandratad vijst.

Ef ad þu allskyns Mæte, aa Himnum gyrnest
sia, i gegnum margt Mootlæte, maattu fyrst gan-
ga þaa, Koronu ei kys ad hliota, kallmannlega
þa strijd, þeim er bein Leid til Boota, sem bugar
ei Mootgangs Hrijd.

Efi Man̄s oll maa heita, Orrusta Hættu mest,
þa oss synest vel veita, vor freistar Satan verst, so
snart sem sofna hyggium, Svikaren̄ vaka kan̄,
Vopnen̄ þa vær afleggium, vielfullur bryniast han̄.

Hvor kann hier fastann finna, Fognud Jard-
rijke

rijke ma? Allt þad vill Odum lina, oss sem nu gledia ma; Eñ hvad oss angra kuñe, alldrei til Þurfda ser, Uggleysi engeñ uñe, adur Striids Lokeñ sier.

Doomarenn Christur kiære, kemur þa vonum ei, vel þier þvi vaka bære, vertu sem forsiaal Mey, lat þig ei Verolld villa, varfærlega framga, Uppspretta alls hins Illa, Uggleysed heita ma.

O Gud! sem gafst oss Anda, Gott ad uppbyria nu, lat oss stoduga standa, ad stunda hvad gyrnest þu, fra Illu oss bevara, eñ þa Hierivistenn dviin, unn oss med Fride fara, i Fodurland heim til þijn.

# 30. Psalmur.

## Uñ þad, hvernenn Madur skal bera sig ad breyta epter Hegdañ Christi.

Med sama Lag.

Frelsarans er Framferde, fegurste Spegell vor, Uppfræding oss þad gierde, orkum hañs Dygda Spor, oll vor Heill er Christs Pijna, enn hanns Lijferne hier, heilaga Hegdun sijna, hverskyns kennande er.

Sa sem vill sijdar rijkia, i Sælu Drottne med, hañ skal fra Vondu vijkia, Villd hañs stunda og Gied, Lijfs-Reglum sem oss sette, siñe med Hegdañ hier, aller sig epter riette, elske hañ hreint sem ber.

Hver sm vill, (vor Gud sagdi), vel efterfylgia mier, siñ Kross skal sa ad Bragde, sialfur fyrst bera

hier, sa sem kañ sier äfneyta, sijna um̃ Lijfsins Tijd, Ast Guds og Elsku heita, æviñur fyrr og sijd.
Gior þu oss, þijde HErra, þijna Sporgaungu Menn, fyrergief vort hid verra, vegleguſt Eining Hreñ, veit þu ad vort Fram̃ferde, veniest lijkt þijnu hier, so ad oss eilijf verde, Ununar Vist hia þier.

# 31. Psalmur.

## Um̃ Afneytan sialfs sijns.

Ton, Allt mitt Raad til Guds eg set.

HEyr mijn Saal hvad þiñ Herra tier, hver sem vill epterfylgia mier, sier skal sialfum afneita, elske nockur sig sialfañ mest, so Ast til Guds Hiartwtrijmest, so maatt ei Saal mijn breyta.
Sa eigenn Vilia mæler moot, med þvi deyder sialfs Elsku Root, Christs Læresveinn kann heita, Ast til Guds er ei alvarlig, utañ Mañ hate sialfañ sig, so skalltu Saal mijn breyta.
Hvad sem einn elskar um̃fram̃ allt, er þad hañs Gud, sem meina skallt, hellst mune Vegsemd veita, hvor sem mest elskar sig sialfañ, sig giorer vijst ad Gude hann, so maattu ei Saal mijn breyta.
Abraham stoorar Frægder fieck, Fodur-Lande sijnu af geck, fwo til framande Sveita: Andlegur Guds Mann ertu þa, Elsku sialfs þijns ef geingur fra, so skalltu Saal mijn breyta.
Med sama Auga engeñ kann, upp og nidur ad lijta senn, eins vill þad ersidt veita, ad unna sier af

Al-

Alvöd skært, og elska Gud med sömu Ast, so mætt ei Sal mijn breyta.

Um Bloomstur nockur ordt þad er, epter Soolu þau snwe sier, sem Soolfylgendur heita, Afbragds Kostum og Heidre hier, hnijga so eins ad Gude ber, so skalltu Sal mijn breyta.

Oll Verk sem koma af Ast og Trw, i Augsyn O Rotteńs vel skarta nu, þo ofs syneft aum heita, enn af sialfs Elsku ef framgaa, ecke þocknast þau Gude þaa, so mættu ei Sal mijn breyta.

Saa afneyta sier sialfum kań, sijna Vegsemd ei gyrnest hań, Guds Æru giarn ad leita, allt gott þyggium af Hende hańs, hönum skal gefast Dijrd til Sanns, so skalltu Sal mijn breyta.

Hver eigenn Vilia a hlijdest, Adams Dæme sa skode verst, Guds Villd ei giörde skeyta, Ast hanns og Farsæld af sier braut, olle Toptun og Mańsins Praut, so mættu ei Sal mijn breyta.

O Madur! Gude offra þu, eigeń Villa, so kańtu nu, sialfum þier seń afneita, O Rotteńs Villd skalltu meta mest, mundu hanns Æra eblest betst, so skalltu Sal mijn breyta.

## 32. Psalmur.

### Um Hvijld og Rooseind Salareńar

Ton, Vid Dauda mig ei verja ma.

Svar villtu, Sal mijn, Huggun faa? Hvort Skepnum hia, hyggur þier Hiarle leita? Ok

Nei! þeim ollum ædre ert, ei sᴍ þier giort, retta Hægd Roolegheita, JEsus einn er, allt þarflegt þier, hañs Undum i, uner þu frij, Gyrnd þijna vill hann veita.

Brwdur hañs ert, þvi attu fast, hañ ad hyllast, og uña allra fyrstum, halltu þig lijka hañs Bwtad, hættu ei þad, adra añast ad Vistum, i Aura-Nægd, er ei Hughægd, hverge hier maa, Hvijlld nie Roo sᴍ, fyrer utann Kongenn Christum.

Metord og Vellyst margur Mañ, meina Hvijld kañ, og Hugboot Saalu sinne, Ogunst Manna ef ad gustar, eins stodug var, sem Stræ Storm standast kunne, Manna Lofstijr, miog er oss rijr, Utvalldra Prijs, annars Heims vijs, hanns trw' og Lof ei linne.

Ond vor er Lijfid Lijkamans, Lijf Saalar Mañs, er O Rotteñ eiñeñ lijka, rettu Lijfi hun lifir þa, laus Slisum fra, Ibwd hañs hefur rijka, añars er dauð, Ills rijk, Goods snaud, Hvijld hverge fann, hitter þvi Bañ, lætur sier Fiandmenn flijka.

Hver sem vid Gud sier hallda kañ, Hvijld Saalar fann, oruggur Heims um Haudur, gladur er vijst i Sorgum sᴍ, sigrande Þræ, lifir þo lijtest auudur, Astgiof Andans, er Unun hanns, hatande Heim, sinner lijtt Seim, O Rotteñs Nad er hanns Audur.

Hreinsa nu, HErra, Hiartad mitt, Herberged þitt, Unnusteñ Andar minnar, Gud, velkomenn til Gistingar, gack þu iñ þar, uñ mier Ibwdar þinnar,

ar, og þa Hug-Hægd, Hvijld, Nææd og Frægd, lofa þu mier, ad þacka þier, um̃ Ar Eilijfdarin̄ar.

# 33. Psalmur.

## Um̃ gooda og hreina Samvitsku.

Med sama Lag.

HVad sem þu Man̄ villt hafast ad, hugsadu um̃ þad, Samvitskan saurgest eige, i Nææwist hen̄ar varna vid, Syndan̄a Sid, san̄dæm er þo hun þeyge, hun er siw Book, til Min̄es took, allt þad þu hier, Oriett giører, og lijser þvi ꝏ Dooms Dege.

Med San̄leiks Stijl siw skrifud Skrææ, skijrer grant fræ, allskyns illu Athæfe, þvi kan̄tu Madur synia sijst, Samvitskan nijst, vakuar vijst vært þo svæfe, swl, swen̄ er, færer þvi þier, ill Orma þææ, ei deya fææ, nagande alla Æfe.

Legg þu þvi alla Alwd ææ, ad deyda þææ, fyrer Ydrun hug-hreina, ææ Uggleyse nu ecke mææt, ala þa, dææt, um̃ alla Æfe þijna. Lijfs-Book þæg þier, þinn JEsus er, Lijf, Lærdoom, Trw, laga skallt þu, epter honum alleina.

Hvar sem þu ert, og hvørt þu fer, hvørn Tijd er þier, Samvitskan fast fylgiande, allt hvad i hana in̄lagder, epter þier ber, Jllt og Gott uppreiknande, Geymslu-Fed Trw, forvarar nu, skilar þvi þær, þig dæma ææ, vill þier so verda ad Grande.

Samvitsku Doom frekt forda þier, fyrst samer, Sekur, Sakaræbere, Vottur, Dybtissa, Doo-

 mar-

mariñ, Hriis, Hegning stiñ, sierhvor þvi varsær vere, þa sialf sws sa, Maal dæma ma, sem Vitned var, Vite Sakar, hvar er þa Undanfære?

So sem þu leggur allt Kapp a, eilijft Lijf sa, Samvitsku haf so hreina, so snart sem Mañe missest sw, missest þeim Trw, missest og Guds Naad eina, Syndaña Sid, varna þvi vid, Samvitsku Kvol, Kvelling og Bol, þarftu sijdst þa ad reyna.

Ur Book Samvitsku Jllgiord so, med Ydran þvo, ad lesest ei a Dooms Dege, sannrar Gudrækneset hier Form, Samvitsku Orm, sigrande so hann deye, innvortes Elld, Augna Taar felld, slockur bradt hier, Huggun so þier, añars Heims endast mege.

Gef þu oss HErra, Heims uñ Hrijd, heya goot Strijd, og Trw heilagre hallda, Samvitskan hrein þar sie vid fest, sem kunne best, Sigursæld vorre valda, so Born þijn ein, hier Hiarta hrein, mege þig sia, i Sælu sia, og losa uñ Allder Allda.

# 34. Psalmur.

## Aminning til sañarlegs Lijtelætes.

Ton, JEsu Christe þig kalla eg a.

VJrd þu fyrer þier Ond mijn aum, Eymdar-Hag Mannskiepnunnar, Lijtelætes so gef þu Gaum, gior ei Synd Drambsemiñar, Fæding, Hiervist og Utfor er, allskonar Sorgum vafenn, og Kvelling kafenn, Umferdar Reysu hefur hier,

hæy-

hæped þo Nætur tafenn.

Illa fer þier ad upphrokast, Aska og Mollder Þreckur, Andstygdar Sæde ædur varst, enn nu Saurenda Seckur, Orma Fæda snart orden ert, eigennlegt neitt ei hefur, þa Tijd hier tefur, utann hvad hafder illa giort, er þier þo Hefnda krefur.

Liliu þa DRotten seger sig, sem vex i Dalverp-unum, eru þad Hiortun audmiwklig, Jbwdar Kyrkia honum, þad Bloom mæ sijdst æ Fiollum sia, fyrrest HErrann Dramblæta, sem stoorum stæta, hefur þeim nærsta Oged æ, elskar best Lijtelæta.

So sem Vatned ei vinna kañ, Veg forbreckt-añ uppreña, allt eins Guds Myskun ecke rañ, upp til drambsamra Manna, lijtelaat Sæl er Sessen sia, sier fann DRottenn hægastañ, og Bwstad bestann, i Augsyn hañs sia miked mæ, Mispocka vann sier stærstann.

Lijt þu Sæl mijn, þiñ Lausnarann, liet hann sig stoorum pijna, med Lijtelæte lidfur vann; lækna Drambsemi þijna, uñ Veg Hoogværdar hefur hier, i Himna Dijrd inngeinged, og Frid oss fenng-ed, Hofmoods Gotu þvi hugse sier, Himens til-komast eingenn.

Vegur Dramblætes Adam er, Uthijsing Pa-radysar, hvörneñ mæ hañ þvi þaingad hier, fra Hofmooduge vijsa? Athuga meir hvad Ogiort liefst, af þvi sem Skylldan krefur, enn hitt þu hef-ur, Mañkosta Þogan er ollum best, eigen Hrops-

an hun kiesur.

Dygda Fiesiood ei mætti Mañ, med Hroosun opinbera, annars Diofull vid Drambed kann, Dijrgrip þeim ræntañ giera, lát þig ei Hofmood hefia hátt, hvadañ i Afgrunn Lasta, þier kañ ad kasta, Drambseme ecke elska ætt, þa Andskotans Sæng hægasta.

Allra Lasta er Sæde sw, og soddann Perre-Vindur, sem þurkar Brunn Guds Nœdar nu, nærande Manna-Kyndur, varest þvi hættann Hroka-Vind, hvor sem vill Myskun hliota, og Nœdar niota: Gud giefe ollum soddañ Synd, sannre med Audmijkt hata!

Dramblætes-Prota vondañ vorn, virdst̃u Jesu, ad græda, Lijtelæte þijn blessud Born, bid eg þu villder giæda, kieñ oss ad feta Ferel þiñ, Framferde rieti ad haga, og Lifnad laga, sijdañ leidder til Lijfsens inn, losa þig alla Daga.

## 35. Psalmur.

### Uñ þad hvornenn Madur skal fordast Agyrndena.

Ton, Nattúran oll og Edle Manns.

Haluhiœlp Mañs, sem auglioost er, Elsku mestrar ætkresur, Agyrnd so hata ollum ber, argur er sœ hana hefur, hañ vantar mest, hvad hefur flest, hinu lijkt sem hañ brestur, Ovægenn señ, vid alla Menn, enn sier þo sieglsum verstur.

Dramb-

Drambſeme alls ills er Upphaf, Agyrnd ſo Rooten Laſta, grundadu Mann hvert Gagn þad gaf, ſem giorer hun epter braſta, opt ecke par, þier afrekar, eñ ſtundum fallvollt Giæde, Vanbleſſan kier, illt Audſafn hier, Oþocknun Drotteñs bæde.

Auds med Onæde aflar Mañ, eñ forvarar med Kvijda, ſijdañ miſſeſt med Sorgum hann, ſo vill Æſen wtlijda, añadhvort oſs, þad Aura Hnoſs, yfergiefur til lijka, eda vær þad, i annann Stad, ymſer þaa Gotze ſlijka.

Agyrndar Synd ev orguſt þvi, Afgudadijrkun veſta, ad Skepnu ſiaalfa ſetur i, Sæte Skaparans beſta, Auds Þyrna þa, ei elſka maa, ofmarga Saal þeir meida, Ahyggiu med, ſaart ſæra Ged, ſuma i Glotun leida.

Auds Gnoott nie Orbyrgd ecke kañ, wtſlockva þorſtañ Aura, þeſs geyſelegar Bloſſenn brann, ſem bored var aa hañ meira, traudt Takmark þvi, Auds Agyrnd i, af þier Skylldan wtkreſur, ſo ei kaſtiſt, i Afgruñ ytſt, eingeñ Takmörk ſem heſur.

Saal mijn, ad ſlijku gief þu Gaum, gior Agyrnd fraa þier ræka, Sie ber þu annad ei fyrer Doom, enn hvad gladder ſaatæka, þeirra Hond þier, holl Hyrdſla er, himneſk, eun fallvollt eige, i hana nu, hvad innlietſt þu, er þier viiſt aa Dooms Dege.

Hvorium ei nægeſt HErrañ Gud, heuder þañ Agyrnd veſta. Añaſtu Madur, aumañ Lijd, ecke mun þig þa breſta. O Chriſte kiær! Chriſtne ſo hrær, Kiærleikañs Verk ſie framenn, Agyrnd vel-

ver, veit oss hiꝫ þier, Vist og Goß eilijft, Amen.

# 36. Psalmur.

## Uñ sannann Kiærleika.

Ton, Fader vor sem ꝫ Himnum ert.

MOsaurgud Elska ecke mꝫ, utañ Guds Bornum finnast hiꝫ, Trwar Lioos kann ei kvikna þar, Kiærleiks Elldr sem eingeñ var, Sool og Byrte skiist alldrei ad, Elska og Trwen, sama er þad.

Daudur er sꝫ ei anda kañ, eins Trw, ef brestur Kiærleikann, Avoxtur Andans Elskan er, Avoxtur Trenu Vitne ber, sannchristeñ mꝫ ei segiast sꝫ, sem Kiærleikur finnst ecke hiꝫ.

Salomons Kyrkia Bloomañ bar, besta Gulle öll forgyllt var; Andlegt Hws ÐRotteñs er þꝫ skylldt, af Kiærleika sie vel forgyllt, og i Hiarta sie Elskan fyrst, ytre Verkum þad beviisist.

Kiærleikur umber añars Brest, er hañ Mañkosta Sæded best, öll Verk þau virdast ill og lioot, ef ecke spretta af Kiærleiks Root, Christnena alltijd efter sꝫ, ædre enn Trwen heita mꝫ.

Osundsiwkur hañ ecke er, illmannlega ei þagar sier, goodgiarn, hoogvær, sier hrokar sijst, hijr i Vidmoote, fridgiarn vijst, Rangløte gledst hañ alldrei af, eckert Rwm vondre Hugsun gaf.

Ollu trwer, og allt umber, ecke leitar þess hvad hañs er, Þo Twngumꝫlum liñe lioost, lijka Spꝫdoomum tæmest Brioost, Kiærleikur alldrei af-

maist, eykst hañ þo meir i Himna Vist.

Kiærleiks Verk, Saal mijn, keppstu vid, christnum hlijder hest Samlyndid, sem sijdar eigum Born Guds blijd, bwa samann um alla Tijd, einn Lijkame sem erum hier, ein andleg Saal oss stioorna ber.

Eins HErra Pioonar erum vær, Eindrægne stundum, Born mijn kiær, sarnhuga oll i Ast og Trw, innbyrdes skylldum lifa nu. O Gud! tendra vorn Elsku Elld, i Anda helgum fyrer Christi Skulld.

# 37. Psalmur.

## Um Astundan Skijrlijfesens.

Ton, A einn Gud vil eg trwa.

HReinlijfe hañ skal stunda, sem heita vill Christi Læresveiñ, Sno ru Saurlijfes Synda, Satan inetiar margann eiñ, vier hosum HErrans Bloode, hreinsast i Skijrnar Sæ, Lostans Lisnadar Bode, leysist oss ecke þæ, i Felum og Fiærvist Manna, Foolk drijger soddann Brest, Augsyn Guds og Englanna, ættum þo fordast mest.

Asvik þad engeñ leika, Augun Guds sela Giorder Manns, nie Englana wtelþka, eda og sialfa Samvitzku hañs, Verkaña Vitneñ þesse, Varsærne gledia ætt, Lostans ofbreadur Blosse, brælast i Himeninn hætt, eñ sæ Odaun, hann orkar, allt nær til Vijtes strekt, skañvisñ sw Vellyst verkar,

ar, Volæde æfennleat.

Minning Christi Krossfesta, krossfeste Þijna Holldsins Villd, Umþeynking eilijfs Neysta, i Þier slockve Saurlijfes Elld, Ofhita Holldsins Br:ka, hepte Ydrunar Tar, Elsku Þess ætijd freka, Otte Guds deyse klar, Sparseme sa sier setur, sijfelldt i Dryck og Mat, lastvar-so langt-um betur, Losta-Gyrnd fordast gat.

Alltjafnt skallt einhvor vina, Anrijkes Storf, Þo naudsynlig; sijdur kann Fær sina, Freistar-en til ad svijkia Þig: Davids Illgiordum olle, ad ydiulaus framgeck hann: Joseph frelste Þad Falle, frijlega Þioona van; Brosande Bragda Refur, bruggar Þier Svikenn ill, banvænann Hala hefur, honum Þig stijnga vill.

Hætt er Hreinlijfes Bloome, hvar sem Sæl-giæte gnæfer frekt, giættu ad Drottens Doome, drijgdu Þvi eckert svijvirdelegt, i Hoofe skallt Holl-ded ala, haga gudlega Þier, heilagt hugsa og tala, heyrer Gud allt og sier, Kiærleikans rioodust Roo-sa, riett-kolllud Saal mijn siert, Skijrlijfes Lilian liioosa; lijka einnig Þu vert.

Ad sigrast af sialfs sijns Hollde, svijvirdeleg Mijnkun vijst er Þad, enn Þad vinna med Vallde, veglegt Þyker i allann Stad, Lastana Tældrægt Tundur, torvelldt ad slockva er, vid vuga sig of-fast bindur, fra olldrudum naudugt fer, hia sa-cæktum fyrst lenda, fælest ei Hreise sina, skamast sijn vart hin vonda, volldugum gista hia.

Jll Gyrnd eins Atferd hefur, sem aumkunarlegur Ferda-Mann, Hoogvær fyrst Hwsa krefur, hrokar sier strax þa kemur i Rann, i Hwsbondans Sess sig setur, sinn Præl giørande hann, Saal mijn, þig sicu umm betur, sijst hyser Ovin þann. Bruna Saurlijfis Synda, sviptu oss Drottenn frꝛ, laat oss Hreinlijfi henda, og himneskum Arfi nꝛ.

# 38. Psalmur.

## Umm þetta fallvallta Lijf.

Ton, Umm Daudann gef þu DRottenn mier.

SEttu mijn Saal i Þanka þier, þessa Lijfs Saumt Volæde, Efi, Heillsa, Laan, Lucka, Fier, leikur a grønnum Þræde, Hiartad upphef til HErranns þa, Hiegooma Heims i burtu fra, og gyrnstu eilijf Giæde.

O hvad skammvinn Manns Æfin er! Einne Stund fyrre lijdur, sem hardur Straumur hastar sier, hvatskeytlega framskrijdur, þess meir styttest sem leingest Lijf: Lifande DRottenn sie vor Hlijf, og Athvarf a allar Sijdur.

Lijfsid til Daudans Upphaf er, allskyns Mootlæte vasid, daglega burtu deyum vier, daudlegt er Manns Upphafid; Mid-Tijmenn þiaest Sorg og Swt; Sijdarsta Skeided lijdur wt, Otta og Angre kafid.

Midt i Saurnum fyrst myndast Mann, i Myrkre tekur sitt Foodur, leidest so wt med Angre hann,

Af

af Lijfi sinar Modur, roted Sæde er Efned hans, enn Boola Vatns Hiervisten Manns, Endalykt Orma Siodur.

Jord berum vær i Hollde hier, Holld vort verdur ad Jordu, Jordena trodum jafnann vier, Jard-Hws Lijkamer urdu, þeir sem þar drottna diarfir tveir, (Daude og Synd), þad brioota þeir, og nijda; so nemur Furdu.

Hvad er þad reikna Mannenn maa? Maa hann Præl Daudans kalla, brothættast Gler, og Bløedru sma, blaktande Fisid valla, Vølundar-Hws hanns Æfin er, Symdaña Haf og Styrjolld þver, Hlidom ur, hvellande Blalla.

Veglegre Nyt er Lijfid lijkt, ef lyka villtu upp henne, med Sanleiks Knijf, þar finnur frekt, Swa og Madka ine, og sem Eple frijd Asyndar, en hiadna strax og verda eij par, ef hampar þeim Hende þinne.

Heims Audur, Skraut og Hefdar Pár, hellst er þeim Eplum lij kur, ytra deæfogur Asyndar, enn i Raun Dupt og Reikur: Saal mijn, hafdu so Heimenn þa, ad Hiartad fester þar ecke a, hans Bloom i Visnan vijkur.

Einn Gud skickade Ormenn þann, er Lundenn stijnga giørde, yfir Jons Spaamanns Høfde han, hradt so uppvisna yrde, eins so Foreydslu Orma hier, i allt þad sette sem Stundlegt er, so eydest ad eingu verde.

Med bloomlegum Heim ad bloomgast hier, þetst þyk-

þyker þeim þvi næde, med topudum hönum ad tapa
sier, tel eg þad vest Skadræde. Stijr vorum Hiör-
tum HErra kiær, so hveriu framar þig elskum
vær, og ersum eilijf Giæde.

# 39. Psalmur.

## Um̃ þad, hvad Hiegoomlegur Hlutur ad Verollden sie.

Ton, Einn Tijma var sa audugur Mann.

SAll miin elskadu ecke heitt, auman̄ Heim nie
þad hañs er neitt, Ellds Matur allt er þetta,
eilijfum Giædum uñ þu betst, eilijf Velferd er þar
vid fest, og eilijfs Lijfs Unan retta, gyrnest el Maña
Metord hier, miñst dæþst ad þvi sem fallvallt er,
ad þocknast Gude sie þeckast þier.

Lœt þier nægiast þiñ Laufnaran̄, lærdu ad þeck-
ia þig og hañ, Mammon skallt midur stunda, er sid
Reysa þijn Esi er, er hañ þar Fararteæline hier,
þier ber þad þratt ad grunda; fœtæk kom̃stu i
Heimenn hier, hiedann eins lijka aptur fer, Mid-
Tijma soomer sama Per.

Ofhladed Skip mun socka senn, so kefur Andur
marga Meñ, lœt þier þvi lijted nægia, Fie-Siood-
ur þinn er Mottem bijr, i Dauda sem ecke frá
þier flyr, mun þad mest Meinum hægia, tapast allt
annad Audsafn hier, allra hellst sa þvi safnar
sier, i Gude rijkur ef ecke er.

Audur med Onæd ablast kañ, æhyggiulaust ei brwkast hann, misseft med Swt og Sorgum, Fugla-Lijms hefur Ast hanns Art, andlegt Fidur ef þennann snart, festest þad Manne morgum, Agiarna Mannsins Omak þeckt, eigenn Herra er nærsta frekt, bæde fallvallt og banvænlegt.

Minning Christi sem Krossfestist, krossfeste þijna Holldsins Lyst, Sætleik Andans so smacker, Miñing eilijfs Bruna og Bæls, Bæled slockur þijns Losta Tæls, Krosseñ þyggiande þacker, i andlega Foorn þu offra þañ, einka Son þier Hiartkiærastañ, Gyrnd þijn, Sæl mijn, so heiter hann.

Mioo liggur Leid i Himna Holl, hrufoott og þyrnum hladeñ oll, Roosum varen er eige, af Vellyst þrofkast ytre Mañ, innre næreft vid Kostenn þañ, ad Sorgum mettast mege, Otteñ Drottenns skal deyda þvi, daudlegt Holld þitt hier Heime i, fræ þess Klækium so komest frij.

Uñ Guds Rettlæte þenktu þrætt, þiñ Gyrndardoom so hata ætt, og Vegeñ Vellystinga, Hogg-Orms flarande Hausiñ er, i Hala banvænum Eytur ber, honum vill hañ þig stijnga, sæ til þu kunner Sigre ad næ, so Lijfs Koronu mætter fæ, JEsus giefi þier Giæsu þæ.

## 40. Psalmur.

### Uñ Gagn Freistingaña

Jtem, Siz ðskurijkaste Grædare miñ.

Sañ:

Hanndhristeñ Sæal þad soomer hier, sumtijdes reyna Freysting hier, stodug i Striide ollu, Mootgæangs Bylgiur þær bijdur þu, betur fester sinn Foot þijn Trw, æ Christo Hiælpar Hellu, Vols Striid, Hreggs Hriid, ad þær snærer, enn meir færer Avoxt Trwenn, sem al-laufgud Eyk græn, ecke fwenn.

Abl Mañns i Striide marka mæ, Megned Trwar so proofast þær, Freistingar fær ad reyna, i Peturs Bæt þær Son Guds svaf, Siooreñ æst-est so æ þær gaf, urdu Skip-Menn Vonvana, Mootkast, Heims hast, Manne er þetta Reynsla rett, sem Ritning kiende, Reide-Teikn ecke af HErranns Hende.

Meir er oss hætt i Medlæte, vid margskyns Synd, enn Anstreyme, Holldsins Villð Krosseñ kefur, O! hvad morg beysk Aloes Korn, votriiman-de siælfs Pocka vorn, Drottenn oss opt inngefur, Heims Akt, Fiaar Frakt, Byrna þessa, hætta hvassa, hann burtsniidur, so Hveite goods Asoïms hindrest siidur.

Pad sem Menn dæma Daudans Bañ, Drott-eñ med sama lijfga kañ, af Orbyrgd Gnægter gef-ur, hvad Hrygd og Angur holldum vier, Huggun og Glede opt þad er, Soott til Smyrsla hañ hefur, Kross æ, oss þær, kiærkomiñ i sierhvort Sinn, ad sonnu vera, Polgooder skylldum Piæning bera.

Trwfaste Drotteñ typta nu, Tiimañlega enn siidar þu, virdstu mier Vægd ad syna, lat Hriise

fylgia Myskun med, mier aumum syndu Foburs
Jed, og næma Rœkvæmd þijna, Gud miñ, Þræl
þiñ, Heimur hatar, Rauner ratar, rienar Kiæte,
leid mig i eilijft Epterlæte.

Samaritane Christe kiær, kom mier hœlfdaud-
um Þræle nær, œ þiñe Leid liggiande, lat benska
Vijn i Synda Sœr, sijdann Huggunar Vid-
smior klœr, Mein og Verke mijkiande, JEsus
JEsus, þiœdu nu, enn Þol og Trw, lat þverra
eige, eilijfann Sigur so odlast meige.

# 41. Psalmur.

## Grundvollur christilegrar Poleñmædi.

Ton, Einn HErra eg best ætte.

MEIN Sœl med Þockum þyggdu, þann
Kross þig henda kann, ad Drottens Dæme
þyggdu, til Dauds var pijndur hañ, alldrei kann
oss til falla, añad slijkt sem hann bar, af ollum fyr-
er alla, œ ollu pijndur var.

Kulldа, Beniar, Klædleyse, Kvol, Hœd,
Orbyrgd og Smœn, Hwngur, Þorsta, Heypt,
Geyse, Hogg, Brygl, Lyge og Rœn, hann vard
þvi hœtt ad kalla, hardre i Daudans Neyd, af
ollum fyrer alla, œ ollu soddann leid.

Aumt er þvi œ ad heyra, ofkœtur Þrællenn er,
enn HErrann hlijtur bera, Hrelling og Neyd œ
sier, Limer lœta Glaum gialla, grætur Hofuded
þo, af ollum fyrer alla, œ ollu þvijngadur doo.

Guds Born kennu Kiør þesse, Kvelling sara Job bar, Petur hieck hatt a Krosse, Hails hogg-vinn Jacob var, Mariu Sorger svella, Sonar vid Krossenn þa, af øllum fyrer alla, a øllu pijn-dann sa.

Med Krosssestum Christner ættu, Krosssesta Holld og Gied, i Tign so tignast mættu, Tignud-um øllum med, og dijrdleger a Dijrdar Palla, med Dijrdlegum leid ast þeim, af øllum fyrer alla, a øllu leid fyrer Heim.

Þa Christur med Krossens Hamre, klappar Hiartans Dyr a, strax a Stundu samre, stilltur upplijkstu þa, heyrdu hvad hann kann spialla, sem hefur þu þa fyrer Gest, af øllum fyrer alla, a øllu þiadur mest.

Gull-leg Krossburdar Kedia, kann betst ad skart-ta þa, sijna vill Son Guds gledia, sijdarsta Dege a, Systkynum Sorgar Galla, sialfur afþurkar hann, af øllum fyrer alla, a øllu Kvalning sann.

Sia þinn Brwdgumann blijda, Blessadann, Saala mijn, ramma hlaut Raun ad lijda, riodur af osur Pijn, hann bar og hvijtann Mialla, þvi Hrak-ning Saart og Deyd, af øllum fyrer alla, a øllu Saklaus leid.

Þu blijtur Hrelling hafa, ef Herra þijns gyrn-est Kiør, hann kann Hunang ad gefa, af Hellu Mootlætes hier, ber þvi Blessunar Galla, sw bey-ska Krossens Root, af øllum fyrer alla, a øllu bæs O Rottne moot.

O! hvad heyſk Maotgangs Myrra, margañ getur vankiætt, gef oſs Glede Viin Herra, gior vort hid rañia ſætt, og leid til Himna Halla, hañs fyrer Blood og Deyd, af øllum fyrer alla, aa øllu Piiſler leid.

# 42. Pſalmur.

## Huggun ſu, ad Madur kuñe fyrer gud-lega Hiaalp, ſtødugur ſtanda allt til Aefiloka.

Ton, Giædſkurijkaſte Grædare minn.

HVÆr mun koma ſu Naadar-Stund, nær mun eg faa og ſiaa þiñ Fund? JEſu Brwdgumeñ bliide! Nær mun mier uñt, Elſkuge miñ, i ockar Brwdkaup leidaſt inn, Heims wr Utlegd og Striide? Gud minn, Gud minn, þu mig leys, wr Holldſins Hreyſi og Heimſins Voda, leif mier þitt Auglit um Eiliifd ſkoda.

O! hvad hræddur eg aumur er, i Leyrkierum þvi, breyſkum ber, minn Trwar Fieſiood friida, Saal og Liikama Synda hætt, ſege eg þau Ker, ſiñ nu hef rædt, eitt vill þar odru ſtriida, Gud minn, Gud miñ, Satan Refur, Grid ei gefur, griñmur ſlægur, Aſtvinum þijnum er Ovægur.

Eg hrædeſt lijka Heims Okior, Hreckviis og O-heil Verollden er, hver kañ hier Rond vid reiſa? Hvert ſem mier gengur med eda moot, mijnum ſtoſ-nar þad Hroſun Foot, ſwrt hata, ſætt vil kiooſa, Gud miñ, Gud minn, hver vill nunna, klaklauſt

kunna, komast hiedann, Ohættann Veg fæ eg ecke siedann.

Verdleik mijnum eg vijsa fra, Verdleik Drottenns eg treyste a, vijst mun hann Veg min beina, hanns Naad stadfost og eilijfer, alldrei kann hun þvi bregdast mier, eg fæ þad alltiafnt reyna, Gud minn, Gud minn, Honden þijn, þu Heillen mijn, wr Hættu leide, Ovina Umfall so alldrei meide.

Saaluhiaalp þa sem Gud gaf mier, grundvallad hefur i Hiarta sier, af þvi kann alldrei skeika, wtheellt Blood JEsu asamt mun, og Sacramenta Innsiglum, adstidia einnig sijka, Gud min, Gud minn, Von mijn er, nu oll i þier, eg eingu kvijde, Harmkvæle nockur þo Holldед liide.

Frelsarenn hefur þu funded mig, fyrr en eg kune hitta þig, þvi munt þu Vernd mier veita, eingu Ohægra er þad þier, ad geyma þad sem funded er, enn ad Ovijsu leita, Gud minn, Gud minn, sem Myrkre eydder, Lioos til leidder, Lijfs Brautrietta, laat mig ei aptur i Dimu detta.

Trygda Festood mier tærer þu, Trwar Hond mijn opt veiklast nu, getur vidteked valla, anast þu hennar Orku Brest, a þier laat hana fa sig fest, sterklega Æfe alla, Gud minn, Gud min, þier vil eg fws, mitt Hiartans Hws, til Hvijldar veita, audmiwkum Anda kannt alldrei neita.

Trwar Augum eg tilldra nu, til þijn, Drotten! mig aumka þu, Overdugum best biarga; Ofortient Myskun er riett Naad, Omaklegum sem verd-

ur tioad, og gefenn opt þeim arga, Gud miñ, Gud miñ, Heill mijn er, þa øll i þier, þvi ørugg blijfur, greidest þier gott Lof, Gud eilijfur.

# 43. Psalmur.

## Um daglega Umþeinking Daudans.

Ton, J Blæu einne er byrgdur i Mold.

VEntu æ Daudans Vinur kiær, Vonum framar hañ stendur nær, vid hvern Dag þeynke Hugur þinn: Hañ mun vera sijdarste minn.

Hvad sem þu giører, hugsa her, hvert soddann Ydia hæfde þier, ef i þvi Verke ætter þu, andast þa strax og dæmast nu.

Lijfe feckstu ad Lane nead, Lijfs hefur þu ei Eignar-Read, nakenn komstu i Heimeñ hier, hiedañ eins lijka aptur fer.

A hverium Dege deyr þu hier, Daudann hver Lijfs-Stund færer þier, allt hvad hier eykst vid Æfe Manns, allt kortar þad Lijfdaga hanns.

Þess leingur sem vær lifum hier, Lijfed þess styttra epter er, um þad sem einum afram bar, epter þvi minna Leidar var.

Lat fra þier deya Leste fyrst, Lijfed adur eñ sær þu mist, hver sem deyr vondum Vilia fra, vijst lifer Gude i Dauda sa.

Adam gamla af øllum Matt, a medañ lifer, deyda att, þa mun D[R]ottèñ, nær deya fer, daasamlegur lifa hia þier.

Daud-

Daudeñ flytur og færer Mañ, fra Hiegooma i Himna Rann, i hveria Att sem Eiken datt, er hun þar kyrr, þad trwe eg satt.

Ef þu ihugar opt og þratt, ad endelega dey ꜳtt, Adhalld er þad og Ordsek þier, ad agta lijt þad sem Heimsins er.

Athuga þu hvad Andlꜳt Manns, afmyndad getur Lime hañs, þetta skyllde þig fæla fra, forbonnud Verk ad gyrnast ꜳ.

Saal og Lijkama svijdur þad, sañ-naudug verda skiliast ad, Andarslit hver sem athugar, elska mun sijdur Syndernar.

Sa sem med vondre Synda-Giord, sier hefur stofnad Andar-Mord, i gegnum Daudann gengur hann, t Glotunar Stad, þo eilijfann.

Þeir einer hlioota Himna Vist, hier nu lifa i Gude fyrst, þeirra Lijf DRottenn eflaust er, i Trwñe sem hann binda sier.

O DRotteñ! gef oss ollum nu, innlijfast þier med sannre Trw, lijka deya og lifa þier, lofa sijdan med Engla Her.

## 44. Psalmur.

### Huggun fyrir þa sem missa sijna Astvini.

Ton, Hærsta Hialpræde Fognude.

Ꜳ Christeñ Saal! umhugsa fyrst, ꜳ Dauda-Stundu JEsum Christ, hvrad Ogn Daudans alldrei kañ, ofbiooda þeim sem þeckia mañ hañ.

Beyſkt Vatn i Mara miøg ſætt var, þa Moſes Tred i Brunen̄ bar, þad Lijſſens Tred er Drottenn dijr, ſem Daudans Remu i Sætleik ſnijr.

Sa Edla Kviſtur allra Boot, upprunnenn er af Jeſſe Root, hver ſem geymer hans heilog Ord, hann ſmackar alldrei Saalar Mord.

Eymd Mannſens deyr, enn ecke han̄, er Daudenn Leid i Himna Ran̄, Afgangur hans er Endīng Kijfs, og Fæding holl til eilijfs Lijfs.

Ecke miſſum vær Aſtvine, undan̄ oſs þo þeir ſender ſie, ſyrer Sorger þeir Fagnud faa, ſraa Myrkrunum i Lioosed gaa.

Yfer Lijfdaga hættaſt Haf, i Hoſn Daudans þeir komaſt af, leyſter fraa allre Sut og Sekt, ſyrgia ſkulum þaa ecke ſrekt.

Hvijtann Skrwda vid HErranns Hlid, hafa þeir nu og Paalma-Vid, Sorgar Klæde ei ſoomer þaa, ſyrer ſoddann Menn ad taka uppaa.

Oll heſur þeirra Augna Taar, af þurkad Drottens Honden klaar, Lambſens Stoole þeir liſa hiaa, kloomande ſyngia Gloria.

Allſkyns Hlioodfære hlioonta þar, Horpur ſlaande gullegar, hiaa Englum Guds ſier una þeir, ecke ſkulum þaa graata meir.

Laattu þier ecke gremiaſt Ged, Gud þo take hvad heſur oſs lied, ef þu miſſer þinn Aſtkiærann, einn Elſkara ſnart finnur hann.

Atijt ei þad þo adſkilied, at huga ſramar Samkvæmed, ſem epter kiemur eillijſt þo, i andvaralaus-

re Sælu og Roo.

Andlœt sitt virder Abatann, Uppriſunne ſœ trwa kann; hverrar Imyndan auglioos er, Edles Skapning i Heime hier.

Eydest Heims Lioos ad Aptne Dags, upprennur þo ad Morgne strax, Grased visnar þa vetrar ad, œ Vorenn aptur bloomgast þad.

Af Eikum falla Avexter, aptur þo vaxa bloomleger, og ef Sæded skal Frioosgun fœ, fyrst i Jordunne rotna maa.

Þaa Phœnix hefur Æfe endt, i eigen Hreidre sig sicalfann brendt, af Osku kviknar aptur þar, wngur med Fiadrer gullegar.

So endurnijast allskonar, eigenn Foreydslu þad sem bar, alldrei skylde neinn efa þœ, Upprisu Holldsens Dooms Dag œ.

Þu meinter, kannskie, Ment og Fe, mektast hefde þinn œstkiære, i Guds Rijke audugur hann, alla Speke vel skynia kann.

Hærsta Tign þo hier hefde gist, i Himnarijke er betre Vist, DRottne hefur so þocknast þad, þinn Vilie skal þar hneigiast ad.

O DRottenn! þu tookst aptur nu, Eign þijna sem mier lieder þu, þitt Nafn, heilage Herra klœr, hærst sie lofad um eilijf Ar.

## 45. Psalmur.

### Um þann sijdarsta Doom.

Tyn, Tak af oss Fader.

PA Christur kiemur, Kongur riettdæmur, allt auglioost verdur, Ord, Hugsun og Giorder, alla uppvekur, er þeim Hefnd-frekur, sem Dooms er sekur.

A allar Siidur, Ogn þeim ofbiidur, under Elld-gaangur, yser Gud strangur, Samvitskan særer, Satan ækiærer, Synd Fridtioon færer.

Hvar mun þa Hæle? Herra min sæle! Eg veit mig argann, unned hafa Glæp margañ, eg Ottast Doomenn, wte er Tijmenn, eñ Eilijfd komenn.

Her Himens hiadnar, hrinur og brædnar, sig samann-lyknar, Sool rodnar, Tungl bliknar, þijn Verk ei þordu þig sia i Vijrdu, er eckert illt giordu.

Eg aumur Madur, ofmiog saurgadur, hvad mun þa þora, þig reidann ad heyra? Hvert ma hellst flija? Hvad skal þa segia? Hver veit ad vægia?

Þu Herrañ hijre, hærste Doomare, mier munt ei mija, mæ eg þvi til þijn flija, þu þolder Dauda, þinna so Sauda, bætter Bol Nauda.

Þig Son siñ sende, sinne af Hende, Faderenn frijde, ad fridkaupa Lyde, er þvi Ogladur, ef nockur Madur, tijnest tapadur.

Vijst vill hann eige, eg vesæll deye, HErra þad heyrdu, hanns Vilia fullgiordu, lat ei Erfd þijna, eilijst Bol pijna, aumka Ond mijna.

Lægd Logmaals frekaun, lysir mig sekann, þinn Munnur medañ, mig kallar blessadann, þad mæ mier meira, mun eg þo heyra, Fridar-Bod skeira.

Eg

Eg er Ohræddur, i þier Nad giæddur, þo O-
viner aller, yfir mier Hefnd kalle, þu Fridar Foorn-
en, frelsar þijn Bornen, vor Heill og Vornen.
Þu HErra hlijden, helgader Lijden, lietst Lijfid
Æda, til Lausnar oss wtblæda, veit Vægd i Dóo-
me, vor Brooder froome, þitt hærst Lof hliome.

# 46. Psalmur.

## Um̃ Laungun epter eilijfu Lijfe.

Ton, Þa linner hier mijn Lijkams Vist.

SJ mættu Sealmijn elska vatt, of fallvallt Lijf-
id þetta, medhelgre Gyrnd i Hæder hatt, hell-
dur skallt þier upplietta, þar er Æska, eñ Elle sijdst,
eingeñ Daude, eñ Lijfid vijst, og ængurlaus Unun
rietta.

Utvallder skijna eins og Sool, Englum Guds
nærsta lijker, Osmoker hafa eilijft Skiool, allskyns
Nægd mettast slijker, O Rotteñ Gud fullur Dæ-
semdar, dryckiar þæ Straumum Vellystar, inn-
byrdes Elsku rijker.

Eilijf Giæde eru so stoor, eingenn kann þau ad
mæla, og so dijrmæt, ad eingum foor, wt-tala ne
noog hæla, Ovollt Heilbrygde æ er þar, Unun og
Nægd Guds Vellystar, og fræbær Fagnadar
Sæla.

So goodur Hlutur eingeñ er, sñ eiñ Gud Him-
na Hæda, Jñdæle mest þæ alla skier, sem eignast
hañ og vid ræda, oss i honum og hañ i oss, hijrann

sig-

sicmum þad Glede Hnoss, er Rooten allra Giæda.
Jerusalem þar uppe er, eckert Mustere hefur, med Hondum giort, nie Sool þar sier, siist Tungls þar Þorsen krefur, heñar Mustere og Byrte best, er blessadur Gud, sem liosmar mest, og Upplysing øllum gefur.
Eins sem ei heyrdest Axar Hliood, þa upp var vered ad smijda, Jerusalem a Jordu stood, jafnt mun og hinne lijda, þeir andlegu Steinar eru hier, med Oxe Mootlætes kantader, sem heñar Bygging hlijda.
Drottningen sw sem sookte heim, Salomon Koug hinn rijka, er sonn Figura Sælum þeim, sem koma i Hollu slijka, Gimsteina hver og Gulled ber, goodra Dygda sem framde hier, Engla Fylgd sær hun lijka.
Kongsens Spekt hana furdar frekt, og Fiølldann dijrstu Rietta, dijrmæt Klæde sem mestu Mekt, og Musteres Prijde setta, i Forundran so seger sw: Sijdst var þess Von, med minne Trw, giæte eg griped þetta.
Hier mættu Sæl mijn, heyra og sia, hvad DRottenn vill þier veita, ef þu gyrnest hanns Hwsum na, heilaglega skallt breyta, andlegs Gooda ef vænter vijst, Veralldar Giædum etter sijdst, med Akefd epter leita.
Ef þu gyrnest ad audnest þier, af Lijfsins Tre þig metta, nad u Christo i Heime hier, hrein Trw mæt verka þetta, inn i Guds Hws kañ ecke na, Otuckt,

Mann-

Mañdrap, Heipt, Lijge, Prꝍ, nie ſꝍnijt Gyrnd Fedrꝍttar.

Heilog Þrenning med hollre Rꝍd, Hiartad mitt virdſtu byggia, ꝍ mier hafdu allt Eignar Rꝍd, alldrei lꝍt mig þig ſtyggia, gief mier hier ſmacka Farſælld fyrſt, fyll mig ſijdar þijns Hwſs Vellyſt, ſo mege eg þier Lof til leggia.

# 47. Pſalmur.

## Um̃ þa Farſælld, þegar Madur fær ad ſiꝍ og ſkoda Gud i eilijfu Lijfe.

Ton, Ad ydka gott til Æru.

O Drottenn alls-valldande! eg vil giarnañ til þijn nꝍ, ꝍ lifande Manna Lande, lꝍt mig Nægd þijns Gooda ſiꝍ, nær eg þig, næ ad finna, Neyd ar Stig, mun þa linna, lꝍngar mig heim til Hwſa þinna.

O! Þann Fognud frꝍbæra, Fognud allann ſem gnæfer, nær mun audnaſt ſu Æra, ad ſiꝍ Gud minn ſem bijr i þier? Þijns Hwſs ſiꝍ, Sæluꝛietta, ſvꝍnga mꝍ, dryck ia og metta, er þier hiꝍ, eilijfs Lijfs Uppſpretta.

O! þu Lijf æſkilega, O! þu bleſſud Farſælld blijd, þar heilog Þrenning bæga, Hiartans Gyrnd fyller alltijd, ad lijta Chriſt, Lioomann biarta, i Lijfſins Viſt, hiꝍ honum ſkarta, gnæfer meſt, Gyrnd alla vors Hiara.

O! JEſu Elſkan blijda, Edla Videll Sꝍlar mijn,

mijn, nær ætlar þu inleida, i þin Kongs Sal Brwde þijn? Hvad vantar i effta Hollum? Ecke par, nie hætt vid Follum, Gud er þar, sialfur allt i ollum.

Er þar Gud allra betste, Augum vorum Prijde nij, Hunangs Seimur sætaste, Saungur fagur Eyrum i, Balsam kiær, betst sem starta, Bloomstur skiær, miuk ad snerta, hver þar fær, hvad hans gyrnest Hiarta.

O dasfrijda Asioonu! O sæta Roddu Lausnarans! Dijrdar krijndur Koronu, kiær draup Nærd af Vorum hanns, fyrst hann er, allt i ollum, uppliser, varnar Follum, Fridenn tier Konum jafnt sem Kollum.

Gud er salioossens Lioome, Lioos i hverium sialfum vier, þad er vor Sæmd og Soome, ad sia hann i sialfum sier, lvckar Mann, Lijf indæla, lofa hann og vidmæla, alldrei kann, ad vt-talast sw Sæla.

O! farsæl Borgen betsta, blessud Hollen uppe þar, Heimile heilagasta, hæleitrar Guds Þrenningar, nær mun nij, Nærd sw gledia, næe eg frij, mig þar sedia, og Gude i, Gud sialfann tilbidia.

Nær mun sw Soolen renna, sem upplioomar þessa Borg? Nær mun eg sia ad finna, Fognud þann ei snerter Sorg? Saala mijn, sia þau Mæte, sæl þu skijn, i Epterlæte, Arfleifd þijn, er Gud Drottenn sæte.

Vier lifum Gude lifanda, lijka erum Kyrkia hans, vier eigum hann hier i Anda, enn þar ad Naun rietts

rett til ſaňs, Sælu ad, ſiͣ margfallda, Samaſtad, Lijffins hallda, gefi oſs þad, Gud uṁ Allder Allda.

# 48. Pſalmur.

## Uṁ þad allra unſtwdlegaſta Samlag, ſem vier ſkulum hafa vid H. Engla i eilijfu Lijfi,

Ton, Mikelle Farſæld mæter ſaͣ.

Eilijft Lijfid er æſkelegt, ecke neiň gipteſt þa, Englum lijker i ædſtu Mekt, eigum vier Gud ad ſiaͣ, Vitſka, Tign, Dijrd og Virding Manns, vegſamleg miog þa er, ſo alldrei kuňe Hiartadhaňs, hana ad ſkynia hier, Inndæled er þad allra meſt, Auglit Drotteňs ad ſkoda beſt, alla Bleſſan þad under bijr, alla Heill, Dijrd og Nꝍad, allt Eptirlæte ad oſs ſnijr, allt batnar þa vort Raad, allt Anſtreymed ſo aͣ burt flijr, alldrei ſnerter oſs þad.

Ei er Farſældar framar Von, eň frijdaň Gud ad ſiaͣ, þeſſe hin fagra Fridar Sioon, fyller Gyrnd alla þaͣ, Engla Uṁgengne odlunſt þo, unſtwdleg verdur ſw, ſamlijker þeim i Sælu og Roo, ſaňheilagre enn nu, hvijtum Skrwda ſo ſkrijdunſt vær, ſkijnande Lambſins Stoole nær, Syndaňa Flijkrum ſærder af, frijlega loſum þann, Hiaͣlpræded Klæded gott oſs gaf, glediande Riettlaͣtaň, vakne ſiaͣ upp i Syndum, ſvaf, ſiaͣe Dijrdar Lioomann.

Engeň aͣreiter aňaň þar, eingenn kann reidaſt þa, ei er þar Bruňur Illgiꝍrdar, engeň Metnadar Þraͣ, engeň Mꝍgtlæting Eymd nie Faͣr, Þyrunar

ar Taar ei nein, ei helldur daudleg Synda Saar, Saalum viña þar Mein, Hwngur og Þorſte horf-enn er, af HErrañs Elſku mettunſt vier, Utvallda DRottenns alldrei þa, Of-Hite ſkada kañ, yfir þeim helldur Hende ſaa, himneſkañ bygger Rañ, af Lijfi þeirra ſem lioomar aa, lifande Vatn fram rañ.

Utvolldum Guds, ſo gledieſt Ged, Geſtabod er tilreidt, klaara Vijn, Feite, Mergur med, mun þar til Rietta veitt, ſoddañ Veitſlu vier ſitium ad, ſæl-er um eilijf Ar, og Lof ſyngande þöckum þad, þa verdur Gledenklaar, allt mun þetta þa uppfyll-aſt, i Anda og Sannleik fullkomnaſt, Lijf og Ande Guds Orded er, Otte Daudans þa flijr, hañ var ſvelgdur i Sigur hier, ſiaa hañs Broddur er rijr, öll vor Augna Taar afþerrer, Angre i Glede ſnijr.

Hrygdarlaus Glede hlioomar þa, Heilſa Moot-lætes frij, Lijfid aan Mædu, Lioos ei ſaa, Lyſtegarde þeim i, alldreie folnar Elſkan þar, alldreie Gleden dvijn, engenn Madur þar andvarpar, eingañ ſner-ter þar Pijn, Yndes Hægd er þar öllum tied, and-varalauſre Sælu med, andvaralaus hin retta Roo, rooſamleg Unun meſt, ununarſamleg farſæl Froo, farſæl Eilijfden berſt, eilijf Þrenningar Eining þo, Eining Guddooms þar ſieſt.

Upp upp, mijn Saal, athuga nu, Æru og Veg-ſemd þa, ſem ockur er vijs, þa eg og þu, erum Guds Stoole hiaa, ockar Vardhallds Engel þañ, er hier nu ſtidur vid, þa munum giorla þeckia hañ, eñ þurf-um hanns ecke Lid, er þa Samkvæmes Unun ſtoor,

Al-

alskijnande i Dijrdar Koor, O JEsu! kom og ei vid tef, innleid i Sælu þar, O JEsu kom og Glede gef, Guds Hwssum làat oss nà, O JEsu! þig fyrer utann Ef, umm Eilijfd gef oss ad sià.

## 49. Psalmur.

### Umm þær feikna Kvaler, sem þeir Fordæmdu verda ad lijda i Helvijte.

Ton, Gud oss sinn Lærdoom liossann gaf.

HVer christenn Sal þad hugleide, hvad Vijtes Pijster bitrar sie, so stendur betur Syndum moot, segiande opt af Hiartans Root: J frà Andar Deyd, oss bevare Gud.

J Helvijte er alls Jlls Nægd, à ollu Goodu mesta Ohægd, Obærelegur Hite hvar, Heliar nijstande Grimden sàr. J frà Andar Deyd, oss bevare Gud.

Myrkur og Svæla sijfelldleg, Sorg og Diofla Mynd Ofrijn miog, Op og Jlfraner eilijfs Veins, andstyggeleg Lykt Brennesteins. J frà Andar Deyd, oss bevare Gud.

Ormur Samvitsku etande, Otte, Purkur, Sveingd, Harmkvæle, Ofund, Hatur, Vijl, Orbyrgd mest, enginn good Von med Heilsu Brest. J frà Andar Deyd, oss bevare Gud.

Sool og Tungl enginn sià þar kann, sijst af ollu þo Gud sialfann, sw litla Skijma Ellde af, einga Hughægd Fordæmdum gaf. J frà And

ar Deyd, oss bevare Gud.

Magenn i Hwngre mædest mest, Munnur af Þorsta piinest verst, Ellds Logenn verkar Op og Kvein, innlæsist hann i Merg og Bein. J fra Andar Deyd, oss bevare Gud.

Af einum Neysta i Eymdar Glood, Oliidannlegre Piina stood, enn þo Kvinnu hier kynne saar, kvelia Joodsoott um Þusund Ar. J fra Andar Deyd, oss bevare Gud.

Sælgiæte Ols og Matar mest, margur af hverin hiellt sig betst, Hugfrooe þeim þad engenn er, ei sa Vatns Dropa ad svala sier. J fra Andar Deyd, oss bevare Gud.

Diirmæt Klæde og Metord med, minnst kuña þa ad hugga Gied, iklædder Skom um eiliif Ar, engenn Vegsemd til Boda staar. J fra Andar Deyd, oss bevare Gud.

Audur stodar þa ecke par, aller jafnsnauder siñast þar, Guds bliida Auglit alldrei sia, ollu þiingra þad liggur a. J fra Andar Deyd, oss bevare Gud.

Kvala Elldenn um eiliif Ar, uppblæs Guds Reide Stormur haar, Samvitsku Ormur innra slær, ytra Dioflanna Grimd fraabær. J fra Andar Deyd, oss bevare Gud.

Hata Fordæmder hvor annañ, hata þeir liika Gud sialfann, hata þeir Engla heilaga, hata þeir alla Utvallda. J fra Andar Deyd, oss bev. G.

Oll Olucka sem innast ma, oll slæst i eitt og plagar

engar þar, alla varer þad Eilijfd þo, alldrei finnande Vægd nie Roo. J fra Andar Deyd, ofs bevare Gud.

Minnsta Korn þa af minnstu Kvol, er mikls þijngra enn allt Heims Bol, og þo ad Adams Arfarner, aller skipte þvi jafnt med sier. J fra Andar Deyd, ofs bevare Gud.

O! Drottenn gief ofs ollum þad, ad þenkia so um Kvala Stad, ad þangad komunst alldrei vier, i Varfærne framgaungum hier. J fra allre Neyd, ofs til Lijfs innleid.

# 50. Psalmur.

## Um þad, hvornenn eilijflega munu vara þær helvijtsku Kvaler.

Ton, Hvar villtu Sæl mijn Huggun fa.

EF þu christen Sæl athugar, ad Pijslernar eilijfar eiga ad vera, þvi betur lærer þar af þu, ad þenkia nu, hvad þvingt sie þær ad bera, Helvijte heitt, Huggun fær eydt, þad bitra Bæl, brennande Sæl, alla Tijd a ad vara.

Fordæmdra Lijf i Ellde þa, er Daude sa, æ er yfirhangande, þeirra Daude Lijf einenn er, sem alldrei þver, i Kvolum Ofegiande, Brenne-Bodlar, þreytast sijst þar, aukande Kvol ofann a Bol, med allskyns Stynd og Grande.

Hvad er þad Mann kann þijngra ad þiaa, enn þad sijst fa, er hann mest epterlanger? Enn hitt

umbera verdur viist, sem villde fiist, Plaagur og Piislter straangar, ulyckt ad er, ad saa sem hier, sii syndga vann, soart Hefnda Bann, ei skule af honum gaanga.

Tapader sasna Syndum sier, umm alla hier, Eilijfdar Æsi siina; um Guds Eilijfd þeir þvijngast þvi, þeim Piislum i, sem alldrei eiga ad dvijna; hanns Giædsku Ged, og Myskun med, wtslocktu þeir, i sier, þvi meir, kvelur þaa Kvol og Piina.

Þeir elskudu Aud Oþarfann, of-fallvalltann, Vellyst og Virding bæde, himneskum Fesiood siiu-tu siist, sem er Gud vijst, ei gyrntust andleg Giæde, skamvinn Lijfs Lyst, leidest þeim siist, hrapande þvi, Helwijted i, eilijfa Sýmd og Mæde.

O þu Eilijfd Oendanlig! Engenn kann þig, wtsiaa nie noog ad grunda, O! hvad miked þu eykur aa, alla Piisl þaa, tapada hlijtur henda? Nær Ara Stund, Otal Þusund, umleid Ohast, aunnur byriast, so gengur aan alls Enda.

O þu Eilijfd! O Eilijfd þu! ein ertu sw, sem mest kann Mein ad vinna, Fordæmdra Piisl er þwngbær þa, þvi heita maa, bitur og beysk ad sinna, þo þijngre er, þvi margfolld skier, allra þijngst þo, þad under bioo, ad hun skal alldrei linna.

O þu Daude! sem alldrei deyr, Ending þijn er, aa ny þig uppbyriande, Daudann gyrnast Fordæmder saa, fyrrest hann þa, Lijf trw eg laangt fraa stande, aumt Hel þad er, sem alldrei þver, og Lijfi þvi, ad lifa i, sem alltijd er deyande.

O þu banvæna auma Lijf! ef þu ert Lijf, þvi villtu þa so deyda? O þu lifanda auma Hel! ef þu ert Hel, þvi villt ei Lijfs Eymd eyda! O eilijf Tijd! illum miøg strijd, ad þeinkia til þijn, er þijngre Pijn, enn annad allt sem lijda.

O Saalmijn! Saal mijn! sia ad þier, saarheit Þijsl er, opt er þad athugande, Nædar-Tijmanum gef ad Gaum, gior Ydran aum, Eymd slijk so alldrei grande, sia Syndum sier, sofnar tijdt hier, þess meira Bøl, breñer hañs Saal, Ellds Mat so æleggiande.

O Drotteñ JEsu Herra hijr! i Hædum byr, vor Synda Booten saña, fullu borgande fyrer oss, festur a Kross, Lijf, Heill og Lausnen Maña, lijw fur Lijkn sijn, leys oss fra Pijn, illt Andar Bøl, eilijfa Kvøl, oss lat þu alldrei kanna.

O þu riettnefnde goode Gud! siñ glotudum Lijd, sender þiñ Son i Heimenn, oss ad leysa vor Andar Deyd, og allre Neyd, sie þier Dijrd sogd og framseñ, og þier JEsus, sem frelster svo, Guds Ande med, Gofgun sie tied, um Allder Allda, Amen.

## 51. Psalmur.

### Um andlega Upprisu Guds Barna.



Upprijs þu Saal mijn, andlega i Trw, ad

nioota


nioota ef villt Upprisu þijns JEsu, af þvi
ad hann er, madur getenn lifande i þier,
eins lijka honum þar uppriisa ber; Uppriisa
ei kann, utann salka hvad vann, Adam skal
deya, so uppriis HErrann, Andenn skal proo-
ast; Elle Holldsens selast, þad lære JEsus



jafnann þier farsælast.

Eins sem þu ei kaňt, Augabragde æ, Adams þess gamla Illsku ad deya fræ, so lœttu haň hier, alla Daga deya i þier, Sæl þinne Lausnareň lifa þa fer, i Dijrd ei inngeck, ædur eň Daudans faň Smeck, þitt Hofud JEsus, sem Fognud þier feck, haňs Limur hvor er, Holldsens Gyrnd sem deyd-er, þann sama hann til Himnarijkes leider.

Trwlofun oll er, Undirbwningur Hioonabands sierhvors, sem þa epter kiemur, vilier þu ei nu, vera trwlofud Brwdur JEsu, annars Heims Brwd-kaup hanns ecke sier þu, heilagur Ande, hier i þier bwande, yckur samteinger Elsku- og Trwar-Bande, ef nu vor Ande, upp er hier rijsande, i Upprisu hinne, erum hluttakande.

Uppvakte sinn Christ, sæ ædur smurde haň, þa Soolen med Dags-Lioома sinn yfer Heim upp-rann, eins skiedur hier nu, i Elsku þijns Brwdgu-ma upprijsa ætt þu, lœt nu þvi lifande leida þig Trw, Liossens Born fara, til Lioos eilijfs Ska-ra, enn Myrkranna Syner sig vel meiga vara, uppreis þinn JEsus, af Dauda Frid-fws, upp-rijs þu einneň, hanns andlegt Glede-Hws.

JEsus upprisen, algiort Riettlæte, fyrer Synd þijna dæeň, Sæla mijn, þier fœrde, æstunda þv i

nu,

nu, i hañs Riettlæte framfarer þu, Synder afleggi fyrer lifande Trw, uppriseñ HErrañ, ad yferunnum Satan, dæsogrum Sigre i Dyrd hroosa vañ, andlega ef upprijs, er hier Sigur fullvijs, Urvollldum soomer, ad sækia epter þeim Forprijs.

Sayde Ezechia, sært med Harma - Kvein: O Rotteñ sem Leon lamade oll mijn Bein; Andlegrar þad er, Uppriesu Bardage i Trwudum hier, athugum vid þvi hvad epter hann fer: Mig Gud þu hyrter, mig þu lijfgader, og Synd minne allre hier aa Bak fleigder, Orusta hanns slijk, ockar Strijde er miog lijk, ordug i fyrstu, enn epterǽ Glede-rijk.

Vid Groof þijns Herra, voru Englarner, andlega upprisnum þeir eins fylgia hier, hañs Kyrkia ert þu, þvi una Englarner þier hiaa sier nu, ydrande sierhver bijr yfer Jesu, hvar Synden drottnar, Satan er þar nær, so Englaña Vistun þar ecke Stadfær, uppriseñ ert þu, andlega þvi lif nu, iñvortes kvitnada anglijser þad Trw.

Ef nu Christur er, i þier lifande, þa er hanns Ande, þier eiinig stiornande, Biartleik sijnum Soolen uppveitar aa Veralldar Hivol, Elskuna Trwen so alldrei fyrer, fraa Soolu Geislann, fraa Trw Kiærleikañ, vidskila ad giora þier ouñast ei kann, Hollds ins Verk er Synd, hvne fraa þier burthrind, vilier þu Guds Sonar vera andleg ny Mynd.

O goodi Jesu! uppvek þu oss nu, so Dauda þijns Kraptte beydder lifum i Trw, Upprisan þijn, vere vort Riettlæte og Lijfgunnen hier, upp til þijn, vort Lijf nu andvorpum vier, gef Glede saña, Saalar-Heill Maññana, uñ oss ad sia þig i Sælu Himna-Raña, þar skal þiñ Frameñ, fagurlega samen, Lijfgun, Riettlæte, Lioos og Hiallp vor, Amen.

# Viku Psalmar,

Kvedner af Studioso Þorsteine Sigurdar syne.

## Morgun Psalmur a Sunnudegum.

Ton/ Upphef eg Augun mijn.

SKAPare Liooſſens ſkiær, ſkyldt er ad allar þær, Skepnur ſem ſkapader, ſkipeſt til Hlijdne þier, ſo ber og hverre um̃ ſig, ſijfellt ad loſa þig, og ſyngia um̃ þitt Nafn, þad eingenn ſie þier jafn.

O mijn Sæl! upprijs þu, ei tef vid helldur nu, ei lꝏt þu ollum ver, einſamlre fara þier, ſem heſur þo meir þꝏd, þijdre af DRottens Nꝏd, helldur enn hitt annad; Hveriu launar þu þad?

O hvad vid erum blind! alltijd vid drijgium Synd, fyrer Nꝏd ſofnum Sok, ſoddan̄ Greidſla er. lok, O hvad vond Illſka er ſlijkt! ei gielldſt hier lijku lijkt, Kinnroda meſta mꝏ, mier ſlijkt allann Tijd ſꝏ.

Græt eg þvi Glæpe mijn, Gud minn, og flij til þijn, fegenn i fullre Von, fyrer JEſum þinn Son. Reikner þu Rangglætid, raunar ſtendſt

eingenn vid; Enn so Meñ Ottest þig, er Naad þijn mildelig.

Af þeirre Giædsku Gnadott, gafstu mier Værd i Neott, so ecke sakade, Soott, eda neiñ Skade, fra ollu Faare og Pijn, frelster þu Skepnu þijn, so Lioosed lijta ma, lifande Mönnum hia.

Allt gott eg af mier braut, eg siaalfur bioo mier Þraut, þu saast mier aumur a, Angist leysande fra. O! hvad er einn Son Manns, ad Gud so minnest hanns? Hvern Dag er Naad þijn ny, noog kann ei metast þvi.

O Rotteñ minn, Dijrd sie þier, daglega sögd af mier, þijn Lofgiord þrotne sijst, þitt Valld er stödugt vijst, almattugur þu ert, allt hefur þu vel giört, hver Dagur hermer þad, hygge Meñ riett þar ad.

Eñ þesse eiña mest, a hverium Þrenning best, Almættes Orde med, af eingu skapa ried, Dags Lioos, hvert deilde þa, dimum Myrkrum i fra, þannig kom þessu i Lag, þann fyrsta Viku Dag.

O JEsu! eg bid þig, ad geyma jafnann mig, og leida Lioossens Veg, lifa so mege eg, ad Synda Myrkren svort, Siðonhvörf mier fæe ei giört, sierku mitt Saalar Lioos, Sæla, Vernd, Hlijf og Hroos.

Dijrdlegur daudum fra, Dags þessa Morgne a, uppreis fyrer Almaatt sinn, Endurlausnare minn, so vek mig Syndum af, sijdann þiñ Vond og Staf, hugga lat Hiartad mitt, og

hallda

halld a vid Bodord þitt.

Ord þijn sem i Dag þu, oß lætur kennast nu, gef ad eg gete rett, i goodu Hiarta rootsett, ad fære Avoxt þann, et þier vel lijka kañ, þinne Naad, Þrenning blijd, þioonande Lijfs um̃ Tijd.

Eg fel nu allt Raad mitt, under Lijknar Valld þitt, Lijkama, Lijf og Sæl, lijka Vit, Heyrn og Maal; JEsu minn, minnstu mijn, mier forda allre Pijn, Adstod og Ande þinn, adstode Veikleik minn.

Leid so fram̃ Lijf mitt hier, leyfer þu sijdar mier, ad þacka þinne Naad, Þioodanna Hiælpar=Raad, i Glede hærstum Hag, halldande Sabbatz=Dag, um̃ Allder eilijfar, ædst Lof syngiande þar.

## Kvolld Psalmurenn.

Toon, Þier Drottenn þacka eg.

Þoos Dagsens lided er, lofadur sie Gud minn, sem hefur hallded mier, vid Hiælpar Armlegg sinn, eg vil þar wtaf syngia, hvad vel þu geymder Þrælenn þinn.

Þvi vil eg fegenn fræs, ad Footum lwta þier, mitt Hiælpræd minn JEsus, medann eg life hier, ætijd skal eg þig prijsa, þijn Lofgiord sie i Munne mier.

Þu sadder Sæl og Lijf, so gafst mier Rauna=Boot, enn varst mijn orugg Hlijf, af Satans Viela=Noot, lietstu mig friælsann fara, vissa

Lijfs Gotu greidder Foot.

Avi mig aumann Mann! eg hlijt þo jaata þad, ad marga Illsku vañ, ei hef þier vel þioonad: Forlaat þad, Faderenn goode, fyrer þijns Sonar Dreyra-Bad.

Ad vijsu eg giarnann vil, Vilia þijns gaa sem best, enn eg finn opt þar til, Orku og Framkvæmd þver: Avi mig Eymdum hladeñ! Hver mun af þessu hiaalpa mier?

Eg þacka þier minn Gud, fyrer þinn Son JEsum Christ, af hvers Nægd eg feck Naad, af Naad med betre Vist, sem hann mun sijnum veita, þa Hormum snijr i Fognud fyrst.

O JEsu! Erfd miin best, eg þreye tijdt þinn Fund, Utlegd full Eymda mest, er mijn Hiervistar Stund, ei maa hier fulla finna, Farsælld a þessa Heimsens Grund.

Frelsa mig, Fader minn, fraa þessum vonda Heim, og leid til Lijffens iñ, loksens fraa Voda þeim, sem almennt yfer gengur, fleirster virda mest Volld og Seim.

Graatbeidne minne gegn, mitt gooda Hiartans Traust, auk mier so Andar Megn, ad Trwen gioorest hraust, sem eflaust a þig vone, og heyre giarnann þijna Raust.

Þaa Stund eg þreya a, i þessum Sorgar-Dal, minn JEsu, mier vert hiaa, meira ei gyrnast skal: Kom HErra kiær! ei seinka, kalla mig i þinn Dijrdar Sal.

Fram-

Framar eg bid þig blijdt, bevara mig i Noott, so fordeſt Faared ſtrijdt, Fylgd þijn mier giore roott, frels mig fra ollu illu, Andar- Meinunn, Neyd, Hryggd og Soott.

Eign mijna alla fra, Olucku verndа beſt, so ecke ſake uppa, ſialfs þijns Giof, er þu lietſt, mig hafa Umſioon yfer, Bleſſun þijn hana bleſſe beſt.

A þig ſet alla Trw, alldrei mig fra þier rek, med ſoddann Sinne nu, Svefnværd og Naader tek, aarla mig aptur heilann, enn dijrdlegann fra Dauda uppvek.

## Morgun Psalmur a Maanadogum.

Ton, A þier HErra hef eg nu Von.

MUnd mijn, fagnande upprijs þu, og lofa Gud med Hug og Trw, ſem vel þig verndad hefur, af Myſkun ſijn, fra Eymd og Pijn, ægiæta Frelſan gefur.

Eg la og ſvaf ſem laatenn Mann, er Lid ecke ert ſier veita kann, hann virdteſt hia mier ſtanda, ſo Ovinar, ei kunnu par, illfuſull Svik mier granda.

O Nottenn, þu gafſt mier Luckn og Lijf, lietſt mig ei ſmacka Daudanns Kijf, ei reſſter Illgiord mijna, O! hverſu maa, eg þacka þa, Gæſku og Goodvilld þijna.

Lofadur ſiertu goode Gud, þu gefur Lijfs og Andar Frid, ollum ſem a þig trwa, i Skioole

Þijn, fyrer utañ Pijn, ugglaust meiga þeir bwa.

O Gud! hvad stoor þijn Giædska er, get eg þad ecke rett sem ber, wtsagt med mijnum Muñe, þijn Millde-Verk, mikel og sterk, Mañs-Vit ei skilia kunne.

Himnarner boda þetta af þier, þar uñ Fest-ingen Vitne ber, sem þu i Fyrstu setter, i Mid-iu þar, sem Vatned var, þennann Dag þad wtrietter.

HErra, þijn Speke alvijs er, ecke neitt verd-ur helldur þier, Omættugt Ord ad viña, Æru, Dijrd, Prijs, sem æ er vijs, aller þier skulu iña.

Virdstu mig enn ad vernda i Dag, virdstu i Nead ad sięa minn Hag, vert þu mijn Festing, frijda, i Lijfe og Deyd, vid allre Neyd, eingu skal þa meir kvijda.

Missgiørder forlaat mijnar nu, af Myskun i Nafne JEsu; gef mier þær rett ad græta, og fordast miog, so mætte eg, uñ sijder af þeim læta.

Olucku og Slijsum af mier stijr, ædste Gud sem i Hædum bijr, og gef mier Lucku gooda, blessa allt mitt, sem er Laan þitt, og virdst mijn Verk ad stoda.

Hvad er mijn Æfe Heime i? Ein hostug Reysa, og jafnaun þvi, hladenn med Mædu marga, i soddann Pijn, hrekst Saala mijn, sem Lamb ꝫ medal Varga.

Hvar vid skal eg þaa hugga mig? HErra JEsu, eg treyste a þig, veit ad eg verde eige,

ad

ad Spotte þeim, Ovita Heim. Leid mig af Lasta=Vege.

Audsijn mier Rææd, minn goode Gud, geym mig vel i þinne Tialldbwd, hvar eg mun hoolpenn bliifa, læt Andlit þitt, mier liifa bliidt, so mun miin Sæla lifa.

Færæadum siæ mier aumur æ, Ovina Hondum leys mig fræ, so felldann mig ei fææ, med Viela=Mok, og vond Samtok, Villd siina ecke siææ.

Þu yfergefur alldrei þann, er þier af Hiarta treysta kañ, sw Von er Sæalu minne, sæt Harma Boot, Sorgum i moot, so biid epter Hiælp þinne.

Þu munt eflaust æ þinne Tiid, þrioota læta mitt Eymda=Striid, og gefa Glede sanna, alls Betsta Rægd, eiliifa Frægd, æ Jord lifande Manna.

## Kvølld Psalmurenn.

Ton, Heimsens Þiood i ollum Attum.

Dags Liooseð Roottenn burtu ber: Gud oss liise, og Vegenn viise, i Villu=Myrkrum Heimsens hier.

Giædska Rottenns miin giætte i Dag, milldelega, marga Vega, minn til betsta greidde Hag.

Skiool þitt miin Hliifd og Skiolldur ver, so engenn smæde, eda nææde, Ondu minne ad

granda þar.

Vel maa eg una þar vid þvi, ad Dagferd ekna, aan Stoor-Meina, framdroo mitt Fodur-Land i.

Viijst mætte þikia vænt um̃ þad, Odum liijdur, ecke biijdur, so snart bere ad Sælu-Stad.

Þaa Utlendinga Heimsens hier, er Synd flua, aa Gud trwa, til Efiloka rett sem ber.

Þig bid eg, Saal miijn, gleggt þu gaa, ad þvi leingra, aafram̃ gengur, þess minna eg epter aa.

Vid hessum leinge safnad Synd; Hvar mun lenda, hvern fær Enda, Holldsens Fijsu og Lysting blind?

Af þeim hver einn Skadsemd uppskier, er so fylgde, ad ecke villde, lifa Gude i Heime hier.

Þvi er nu komed meir enn Maal, Illsku ad græta, og af þvi læta, er fordiarfar Lijf og Saal.

Jeg kiem nu til þiin JEsu minn, med Ydran sanna, ei mier banna, Fridar dijrsta Fadmenn þinn.

Fyrer þig sialfann fijn mier Vægd, Læknер Meina, laat mig reyna, Lidsemd þijna og Giædsku Nægd.

Fyrst þu hefur mig hijngad til, af Naad sparad, og bevarad, alldrei framar vid mig skil.

Forlaattu mijna miklu Sekt, af Giædsku þiñe, og gief eg kynne, siijdann varast Synder frekt.

Levs mig fraa Skada, Skom̃ og Neyd, Hryggd og Vanda, Holds og Andar, hiaalpa mier i

Lijfi

Lijfi og Deyd.

Eins bid eg þig um̄ þessa Nott, til þijn vake, kalle og kvake, Saal mijn, Holld so hvijlest rott.

Allijttu mig i Millde og Naad, hiaa mier vertu, Hiaalp mier siertu, allt mitt blessa Efne og Raad.

So skal hier gladvær sofna uppaa, heilann aptur, HErrans Kraptur, ad Morgne laate mig uppstaa.

Þier sie Dijrd og Lof Þrenning blijd, af øllum Twngum, sogd og swngenn, eins sem hun var allann Tijd.

## Morgun Psalmur aa Þrkdiudøgum.

Ton, Yfirvalld vijsa.

HHiartans HErra! Hygg þu ad minne Raust, laat Þrauter þverra, mitt hærsta Hiaalpar Traust. Arla vakna eg til Þijn, og vil þess fegenn gaa, aarla virdstu ad minnast mijn, mier þijna Adstod liaa, ad rett sem bære, Reynkelsis Foarn eg fære: Þier Lof sege og þacke best, þennann Dag einna mest. Þier Lof sege og þacke best, þennann Dag einna mest.

Þu mijn vel giætter, þar eg sofande laa, Bol burtu rætter, blijdann̄ Dag lietst mig siaa, Lausnarenn goode Lof sie þier, Lijke þinn alldrei siest, Dijrd og Valld þitt eilijft er, øllu stioornande best, aa Himne og Jordu, i fyrstu Skopun giørdu, er predika Almaatt þinn, og Speke sier-

hvert Sinn, er p. A. þ, og S. sierh, S.

Med Magtar Hende, miög vel komist þessu i Lag, vijdt fra Þurlende, Votn skilder þridia Dag, og sagder: Jorden gefi good, Gros þau imesleg sie, sem ei fyrr a Folldu stood, frioffsöm allshattud Tre, Skepnan strax hlijdde, Skapa-aranum er prijdde, so ad midur sijdann var, Salomon prijddur þar, so ad m. s. v, S. p. þ.

Hier ma eg mijna, margfallda Skylldu sia, og læra ad sijna, liwfa Hlijdne sem ma, Gude þeim er giörde mig, og gaf Vit, Heyrn og Maal, enn took Þioons Mynd uppa sig, ad frelsa mijna Saal. Avi mig aumann! illann Þræl Maattar naumann, eg hef þessa illa giætt, og lijtt hanns Rædu sætt, eg hef þ. i. g, og l. h. R. s.

Forlaat mier þetta, Fader minn Himnum a, so Ressing rietta, Reidennar lijde hia, eg vil hlijda i ollu þier, og betra so mitt Raad, hier til virdstu ad hialpa mier, fyrer H. Anda Naad; En nær eg skeika, af mijnum Hollds Breiskleika, riettu mier þa Hialpar Hond, so hressest Lijf og Ond, riettu mier þa H. H, so h. L. og O.

O JEsu goode! Grætande bid eg þig, fra Synda Floode, ad frelsa aumann mig, so ei Davidans Diwpe i, dreckest þar Saala mijn, helldur gef hun fare frij, i Fodurland heim til þijn, þa hana leysir, loksens fra Holldsens Hreyse, Polenumoodur þess eg bijd, þad verdur Glede Tijd, P. þ. eg h, þ. v. G. T.

Enn

Enn i Dag take, Engell þiñ Vakt a mier, so eckert sake, Saal og Lijf hvar sem fer, og lꜳt Satan ecke nꜳ, ad svijkia veikann mig, rek haṅ skiott a Flootta frꜳ, frameleid mig Giæsu Stig, a Footskor þinne, Blessan og Biorg eg finne, uppfyll Naudsyn alla mijn, epter Gnægd Nꜳd-ar þiṅ, u. N. a. m, e. G. N. þ.

Med soddann Sinne, vijk eg til Verklags mijns, þad wte og inne, adniote þess Fulltings, sem þu JEsus sialfur mier, sender af Himna-Thron, enn mig taker þu ad þier, þad er mijn Hiartans Boon, i Lijfi og Dauda, eingra þꜳ kenne Nauda, so skal vera vel til Frids, og vænta DRottenns Lids, so skal v. v. til. F, og v. D. L.

Fodur og Syne, samt helgum Anda med, so alldrei dvijne, sie Þock og Lofsgiord tied, fyrer sijna sætu Nꜳd, og sierhvør Giæde oss veitt, blesse hann Siooenn, Lopt og Lꜳd, lꜳte þeim ecke neitt, megna ad spilla, Magt nie Heypt Drekans illa. Saal mijn, DRottenn, Dag og Nꜳtt, dijrdke af mestu Mꜳtt. Saal mijn, DRottenn, Dag og Nꜳtt, d. af m. M.

## Kvølld Psalmurenn.

Ton, Jebapth DRottenn dijr.

PRidiudags þroted er, þægt Lioos so diṁa fer: O JEsu! Andlit þitt, yfir mier lioome blijdt, vertu mijn Vernd og Hlijf, vort blessa-da Lioos og Lijf.

Þier sege eg Pock og Lof, þu sem mig leyster af, Eymdum og Andar-Neyd, illum og brœdum Deyd; Hws og Heimile mier, Heill, Blessan og Nœd veitter.

Lijkamenn hwenn þvi, leggiast mœ Hvijlu i, ad sefest Sorg og Strijd, sem vier um Lijssins Tijd, hliootum ad heya þrœtt, hladner Eymdum Dag sem Nœtt.

O! hversu margur Mann, meinar sig farsœlann, ef getur grœdt sem mest, og gœnge ad Ofkunn flest, vasande Volldum i, Velferd-Sœlar Leyppe frij.

Margur feck mikenn Aud, med stoorre Hugar-Naud, hlaut sijdann honum frœ, hryggur Veg Daudans gœ, so leid hanns Æfin wt, er var hladenn Sorg og Swt.

Eins foor þeim feck stoor Volld, flioott greip haim Æfi-Kvolld, Minning þess fannst ei meir, nœttu vijst kioosa þeir, ad hefdu ei Heimsens Tœl, haft kiært, þad er tijnde Sœl.

Ad vijsu veglegt er, vel so ad bloomgast hier, enn þar skyllde ecke vid, ædra stundum gefid, miog blind Mannskepnan er, minn Gud virdstu ad stioorna mier.

Vanbrwkan velldur þvi, vor, þessum Heime i, ad Skepnan Edles good, ordsakar lœngaun Mood, O Gud! lœt alltijd mig, ollu framar stunda þig.

Sœll er hver sem þig kann, so geyma i Hiar-
tans

rans Rañ, ad hañ vÿ t eige sier, æfinnlegt Skiol hia þier, hvor sem þier helldur fast, hann mun alldrei fortapast.

Enn hinn sem elskar hier, ofmiog þad stundlegt er, hann stendur Hættu i, HErra geym mig fra þvi, veit ad eg vone a þig, veida lat ei Bwksorg mig.

Gief ad eg giete mest, gooda Trw a þier fest, ad an Ahyggiu mijn, eble mig Blessan þijn; So ecke sialfum mier, Sorg og Mædu auke hier.

Lat þo ei Lete mig, leida fra Giæsu Stig, nie annad Olag mitt, affala mier Lan þitt, med AEru i Otta þijn, eg stunde riett Kallan mijn.

O DRottenn! aunnka mig, af Hiarta eg beide þig, margfalldre Synda-Sekt, sie eg mig hladenn frekt, minn Gud ei minnst þar a, Myskun þijna lat mig fa.

Eg bid þig enn i Noott, unn mier ad sofa roott, so gleyme Sorg og Pijn, Salen vake til þijn, Andskotans ollum nu, Arasum burt fra mier snw.

O JEsu! allt mitt Rad, anneft þijn Guddooms Nad, Hond þijn mier hlijfi vel, henne eg mig befel, ysirgief þu mig ei, allra sijst þa hiedann dey.

Guddoomsins Þrenning þijd, þier sie Lof allann Tijd, af ollum Twngum tied, til þess eg styrke med, lioomande Liodssens Hyrd, þa lijto nær eg þijna Dijrd.

Morg-

# Morgun Psalmur a Midvikudeguni.

Ton, A Gud alleina.

JESU Nafne, enn þessa Morgun-Stund, af mijnum Svefne, upprijs eg gladur i Lund, þvi Gud mijn giætte, og geymde Vondu fra, so ecke mætte, Sal eda Lijf mitt þia, HErra eg ætte, hveria Stund Lof þitt tia.

Ei a ad þegia, um̃ þetta Tunga mijn, hellt dur satt segia, sijfellt um̃ Verkenn þijn, af odrum vinnast, alldrei slijk nockurn Veg, er fleire finnast, fræg, good, og dijrdarleg, eñ mætte minnast, maklega, veikur eg.

Fioorda Dag fordum, i Fyrstu Skøpun best, med Magtar Ordum, minn Gud, þu tilreidd lietst, Himen-Lioos hreinu, hver Tijma, Daga og Ar, avallt adgreine, enn Jord verme Sool klaar, hvad allt ad einu, til Enda Heimsins staar.

Minn JEsu mæte, milld Sool Rettlætesins, bid eg burt-ræte, Bøl og Dim̃u margs-kyns, sem Hug og Hiarta, hier vilia tijdum þia, Lijfs Lioosed biarta, lijse mier jafnann hia, sem Groomed svarta, af Sal minne ried sa.

Heims brygd-lioos Bloome, blecke þig ei, mijn Sal, Lyst hanns þo liome, er Lijfs Haaske og Taal, lat þier vel lijka, Luckuþaa Gud veit-er, hinns hyrdt ei snijkia, HErrann best fyrer-sier, sijst sæe flijkad, forbodenn Agyrnd þier.

Af Giæsu þinne, giora skalltu ei Raan, þeim

þier

þier finnst minne, þu veiter einga Smaan, og ecke helldur, ofunder meire Mann, opt Boda Elldur, af slijkum Rokum brann, sem Bondu velldur, vestur þeim kveikte hann.

Minn Gud mier veite, Millde þijn Styrk og Lid, ad Ills ei leite, enn gef eg stunde Frid, og lat mig ecke, i Hendur falla þeim, sem hverskyns Hrecke, hafa ad naa Vallde og Seim, þig mitt Skiool þecke, þu hefur sigrad Heim.

O JEsu goode! Af Hiarta bid eg þig, þad þijnu Bloode, þu virdest hreinsa mig, af Illgiörd minne, er Hiartad skelfer frekt, miög morgu Siñe, mig hefur Synden bleckt, so Frid eg finne, forlaat mier mijna Sekt.

Framar eg beide, Fader minn, Honden þijn, i Dag mig leide, eingre so mæte Pijn, i Tymd og Mædum, ætijd mier stattu hia, af Himna Hædum, Hiaalp og Blessan mier lia, Ovinar skiædum, Arcasum leys mig fra.

A Giædsku þijna, eg vona fyrr og sijd, Vægd virdst mier sijna, vegleguft Þrenning blijd, þier Þacker fære, þier beige eg mijn Kne, hvad hellst sig hrærer, Heidur þinn laate i Tie, Odaudleg Æra, eilijfum Gude sie.

## Kvølld Psalmurenn.

Ton, Gief þinne Christne goodann Frid.

NU Otten er komenn Sool ei siest, senn skal til Hvijlu gannga, Liooßens Fader mier lystu best,

betst, leid mig um̃ sijder þangad, sem eingenn Sorg fær angrad.

Þu hefur enn nu þennann Dag, þijna Barnskepnu sparad, þar ad auk greidt til Goods min̄ Hag, giædskulega bevarad, an- Slijka eg hef þvi hiarad.

Fyrer þetta sem annad allt, eg vil þig lofa og prijsa, enn med þvi Hiartad mitt er kallt, mig virdest þu upplijsa, og siælfur Vegenn vijsa.

Overdugleika veit eg minn, vid Hætign þijna ad ræda, med þvi eg Otal Afbrot vinn, opt vill þad Hiartad mæda, Gud minn, þad virdstu græda.

Heyr mijna Rodd, mitt Hiartans Mæl, hiar þier gott Alit fæe, so ecke mijna aumu Sæl, ofmikel Pijna þiæe, Giædska þijn Lidsemd liæe.

Odum rennur mitt Æfi-Glas, sem annar Vatna-Straumur, vidlijkt sem folnad Folldar-Gras, fer eg burt hiedann aumur, ei tefur Tijmenn naumur.

Veit mier ad stunda Vitsku þa, ad vid Heimmune eg skilia, og leggia mesta Alwd a, ad fylgia þijnum Vilia, en̄ sijst mijnar Synder dylia.

Hæske mikell er Heime i, HErra miin virdstu gieta, under þinn Verndar-Væng eg fly, Verolld skal ecke sæta, þu einn mætt Boled bæta.

Þannig mig i Roott þier eg fel, þinn Engell hiæ mier stande, sæ ed mig geyme og vern... so vondur Myrkra Ande, mier sijst nie

mij-

mijnu grande.

Ollu þvi vonda afvend nu, er eg forskulldad hefi, Frelsare miñ, ei fra mier snw, Fylge þitt Ord mier giefi, og hvorskyns Hrygder sefi.

Fodur, Orde og Anda sie, ædst Dijrd uñ Jord og Himen, eins sem hun var ad Upphafe, af ollum Twngum samenn, uñ Allder Allda Amen.

## Morgun Psalmur a Fimtudogum.

Ton, Anda þinn Gud mier gef þu vijst.

DIrd og Lof sie þier DRottenn minn, daglega eg vil þig prijsa, og snema Morguns uppstadenn, Agiæte þijnu lijsa, lijka so Aptne ad, aptur vijdfrægia þad, slijkt sie minn Vane og Vijsa.

Vijst minn Styrkur ofveikur er, ad vinna slijkt rett sem bære, þvi bid eg, HErra, hialpa mier, Hiartad mitt endurnære, Anda þijns Astgiof blijd, i Dag sem hvoria Tijd, þacknæma Foorn so fære.

Þu hefur vel mig frelsad fra, Fære og margskyns Vanda, þar eg i Noott sem lœtenn lœ, liætst mig heilann uppstanda, enn fyrer Augu mier, yfer furdanleg ber, þau Verkenn þinna Handa.

Fugla Loptsins og Fiska med, sem fiara a Siæfar Grunne, oss Monnum til Upphelldes lied, i Dag framleida kunne: Fordum þijn Skipan skijr, skoda þu Saal mijn dijr, hvors Gooda

 Gud

Gud oſs unne.

DRottenn eg þacka þinne Nœd, þad ſtrax i fyrſtu heſur, minnar Naudþurſtar þannig gœd, þu ollum Fœde geſur; Eg beide Bleſſan þijn, birge upp Fœtœkt mijn, hier medann Holld mitt teſur.

J Dag minn JEſus aptur ſoor, upp til ſijns Fodurs blijda, Sigre hrooſande HErra ſtoor, þœ hier var bwenn ad ſtrijda, i œdſtu Tign nu er, og bidur fyrer mier, þvi ſkal ei Þrautum kvijda.

Hiartad mitt vid þad hugge ſig, þo Heimſins Sorgum mœte, ad Frelſare minn fyrer þig, ſœe eg lokſens Kiœte, um Eilijfd Himnum œ, odrum Guds Bornum hiœ, hvar eingum Eymdum mœte.

Enn œ medann þad ecke ſker, og eg verd hier ad þreya, gef þu eg alldrei gleyme þier, gott Strijd veit mier ad heya, hafne meſt Hreckia Stig, hallde betſt Trw vid þig, ſo meige i Drottne deya.

Um̃⸗Mœle þeſſe þennann Dag, þu lætur œ mier hrijna, annaſtu Lijfs og Andar Hag, aumka Barnſkepnu þijna, afſtijr þu allre Neyd, Oluckn, brœdum Deyd, ſijſt lœt mier Satan tijna.

Verde þiñ goodur Vilie œ mier, Verk mijn farſœl og bleſſa, lauſann mig alldrei lœt frœ þier, i Lijfs Voda Heims þeſſa, þvi Lijf mitt, Eign og Ond, eg fel i þijna Hond, eiñ mœttu mig vidhreſſa.

Enn

Enn eg vil þier ad Aptne Dags, Aftsemdar Losgiord blijda, fegen af Hiarta færa strax, Frelsarenn allra Lijda, yfirgief alldrei mig, af þvi eg vona a þig, blessud sie Þrenning þijda.

## Kvølld Psalmurenn.



Himneske Fader heyrdu mig, eg hroo-



pa a þig, lijt liwst til mijn, af Myskun



þijn, Kvølld komed er, Christe hiaa mier,



bw þu og blijf, bevara Sääl og Lijf.

Sæta Losgiord eg sege þier, sem verdugt er, af þinne Naad, eg hefi þaad, Lijf, Foostur, Frid, Frelse og Grid, þo styggda eg þig. O Drottenn aumka mig.

HErra JEsu mier Huggun sijn, hiä þier Sæl mijn, Harma-Boot fær, þá Hryggden slær, þitt Holld og Blood, sem hiälpar Þiood, wtgefid er, einnig til Lausnar mier.

O! hversu sterk var Elska þijn, og Ast til mijn, af henne þar, ei Daudenn bar, Kvolldmälltijd sw, innsetter þu, Sæl mijna betst, sedur og lijfgar mest.

Fyrst eg er ordenn eitt med þier, O JEsu! hier, skal engenn mig, skilia vid þig; Hvad vantar þá? Hvor skada má? Allt einn þu vannst, Endurlausn Sæalum fanst.

Gesi þad Mysskun Guddoomleg, ad alldrei eg, brioote af mier, slijk blessud Kior, helldur med Trw, þier hlijde nu, og unne betst fyrer utann nockurn Brest.

Meire er Giædska og Goodvilld þijn, Gud minn til mijn, helldur enn eg á nockurn Veg, wt fæe tied, nie Ordum med, þackad sem ber, þar sialfur Eign þijn er.

O Gud! veittu mier Anda þann, er þyggia kann, þijn Millde mæt, og Mysskun sæt, legg Lofstijr þin, i Munnenn minn, og vernda mig, frá ollum Glæpa Stig.

Fel eg mig nu i Fadmenn þinn, Frelsare minn, unntu mier roott, ad sofa i Noott, gef mier þinn Frid, og geym mig vid, allskonar Neyd, illum og brædum Deyd.

Alldreie sifiar Augu þijn, ædsta Hiälp mijn, frá

fra Satans Slægd, og Svika Nægd, forda þu mier, og mijnum hier, þijn Blessan blijd, blesse mig allann Tijd.

So vil eg gladur sofna nu, sæte JEsu, ÿfer mier vak, a Briooft og Bak, alla Lijf-Stund, i Voku og Blund. Ædst Lof og Dijrd, ætijd sie DRottne skijrd.

## Morgun Psalmur a Föstudøgum.

Ton, Christo Höfund mijns Hialpræds.

HErra mijns Lijfs og Hlijfdar-Mwr, Hialpræðes Biarg, Frelsare trwr, a Morgne þessum Andvarp mitt, uppstijge fyrer Vellde þitt, enn Adstod þijn, aptur kome hijngad til mijn.

Af ollu Hiarta eg þacka þier, þijnar marg-falldar Velgiorder, Ojafnt er fared ockur med, allt gnæfir þitt Myskunar Ged, þu elskar mig, eingu nijtaun sem Stigge þig.

Avi mig auman Mann i Dag, minnest eg a þann fyrsta Hag, sem DRottenn skapte Adam i, epter Mynd sinne, Lasta frij, og sette hann, Höfdingia ÿfir Heim giørvann.

Fullsælu skorte ecke a, þo eitt Tre være skiled fra, af hveriu neyta ecke bar, þeim annad sier-hvad leÿfad var, O ill Fior-Ræd! og Grædge, er hrepptu Guds Oqnæd.

Illsku þeirrar eg enn ber Giolld, ÿfir mier rijkia Daudans Volld, hier ad auk mig i hvers-kyns Pijn, Hertekenn færde Illgiord mijn, ef

þessu moot, ei hefde Drottenn funded Boot.

Eign sijna komna i Ofkop sliik, aumkade JEsu Myskun riik, þesse einn geck ei þvi framm hiaa, þar eg haalfdaudur epter laa, yfir Blygdan miin, breida rede hann Klæde siin.

Ohlijdne mijna einn þu barst, allt til Kross-Dauda hlijdenn varst, O! hversu laagu þrongt ei þier, þeñañ Dag mijnar Illgiorder? Skaparenn doo, so Skepnan næde Lijfi og Roo.

O hversu strijda Hryggdar-Naatt, hefur þu minna vegna aatt! O hvad vel þessa ad eg nijt, allmargann Værdar-Tijma hlijt! Þu keypter mig, wr Kvolum fyrer sialfann þig.

Med Hiartans Audmijkt, Aſt og Trw, eg vidurkenne þetta nu, Jardar Madkur, jaa miñe er, enn Myskun sw þu veiter mier, hverneñ maa eg, hana launa þaa nockurn Veg?

Hiaalpa þu JEsu HErra minn, ad Hiaalprædesens Kalek þiñ, medtake eg rett, enn mogle sijst, mier hefur þu hann blessad vijst, og mikle mest, med Orde og Verke Nafn þitt best.

Eñ framar, Saal mijn, siaadu hier, hvad Synden þrong og bannvæn er, þig vid hana þar fyrer skil, þeink ecke hun sie Barna-Spil, hann þig gaf frij, þier ei kroskestu uppaa ny.

Blijde JEsu! eg beide þig, med Bloode þijnu ad hreinsa mig, af allre miñe Synda-Sekt, er Samvitskuna þiaaer frekt, gef mier þiñ Frid, gior mig saattann þinn Fodur vid.

Þitt Sveita-Bað, Saar, Dauda og Piin, sket eg i Dag aa millum mijn, og allra minna Ovina, ofmikeñ Styrk þeirra lina, mitt Hiaalpar Traust, heyr þessa mijna Bænar-Raust.

Þannenn legg eg, Lausnare minn, Lijf mitt og Saal i Fadmenn þinn, giordu vid mig sem þocknast þier, þinn Vilie allra betstur er, vid hann mig ven, Vegsemd og Dijrd sie þier, Am̃.

## Kvølld Psalmurenn.

Ton, Olldungar Juda, annars Dags.

Dags-Stund þesse nu wte er, Efi-Tijd vor so lokfens þver, þa HErrann ser ad heimta uppaa, þad hann ried liaa. Vid skulum, Saal mijn, gior þess gaa.

Einn DRottenn hefur ockur lied, oll þau Giæde sem hondlum med, þaunig eigum vid ecke par, allt þad Laan var, utann einsamlar Syndernar.

Enn lijka sem þad Adam geck, ad hañ Reikningskap standa feck, so munum vid Lijfs Aptne aa, ei sijdur þa, Skyl ockar Giorda greida faa.

Æ þvi midur! hanns Odyggd fannst, ecke honum þad betur vannst, hvers vegna saara Sorg og Neyd, sakfelldur beyd, Syndanna Verdkaup, dauranu Deyd.

O mijn Saal! Hverßu midur þaa, mun fyrer ockur standast aa, sem alltijd hofum illa breytt, og ei þvi skeitt, helldur DRotteñ til Reidereitt?

Til Sialfsrædes og Synda mest, stjfellelega Skepnan best, verdur ad þioona vondum mier, eg veit þad ser, ad viisu ei sem vera ber.

Sem Adam gjordy eckert Skiool, Eykurnar, þegar hann sig fool, so gyllda ecke Goodverk mijn, i Guds Augsyn, ad geyma mig fraa Straffsens Pijn.

Skal eg þa slijkum Eymdum i, orvinglast? Nei, fiærre sie þvi, þo Synden mikel sie og lioot, samt henne aa moot, veit eg til liggur betre Boot.

Hiartanleg Ydran heiter sw, hafande aa JEsum sanna Trw, sem giordest Foorn og Borgun betst, fyrer Broten verst, þaa hann aa Krosse kvalenn lietst.

Þannig vijk eg nu Maale mijn, minn Lausnare til Giædsku þijn, viisa mier aumum ei þier fraa, i Eymd og Þraa, med þvi eg vona þig uppaa.

Laat mier gagna þitt Lausnar-Gialld, laat mier ei granda Daudanns Valld, Illgiord mijna sem annad Sky, afmaae frij, Grædare minn, þijn Naaden ny.

Fyrr enn hier skiliast verd eg vid, veit þu mier aumre Skepnu Grid, i Undum þijnum eg mig ver, alls Þurfe hier, feingad til Neiden framhiaa fer.

Mier tak ei þijna Myskun fraa, so mætte eg Hialp og Blessan faa, eins geym mig sem þitt Auga = Stein, so engenn Mein, skade, ellegar

Skelf

Skelfing nein.

Ÿ þvi Trauste skal sofna sætt, so Pianing Dagsens verde bætt: DRottenn, sem verndar Jsrael, eg mig þier fel, þu munt mig aptur vekia vel.

Af Hiartans Grunne Æru þier, fyrer allt þad gott þu veitter mier, med Verke og Orde vijst skal tiaa, og vel þess gaa, so lenge sem eg lifa maa.

## Morgun Psalmur a Laugardøgum.

Ton Fader aꝼ Himna = Hæd.

GUd! aarla til þijn, ormagna Saalu mijn, þyrster i þurru Lande, Prauter margar lijdande.

Svale mier Naad þijn nu, nærande veika Trw, medtak Grætbeidne mijna, fyrer Mysk-unseme þijna.

Þier enn eg þacka aa, þijdlega best sem maa, ad hefe Hvijlder fenged, og hægt þadann wtgenged.

Þo saarleg Sorg og Pijn, sieu riett Verdlaun mijn, enn liest þu ecke þetta, yfir mitt Hofud detta.

Helldur hefur þijn Naad, Hefndar = Straff-ed afmaad, enn giort mier allt til gooda, gladt mijna Saalu hlyooda.

Hardara hverium Klett, Hiarta þad kalla eg riett, er þetta ecke bræde, ef til þess hugsa næde.

Vel sie þeim, Velgiord moot, vinnur a Lost-unn Boot, þecker og þackar lijka, þijdlega Giæd-

ſku ſlijka.

Sie eg vid ſoddann Dag, Siounda Viku-Dag, hvern þu, heilage Fader, helgader og bleſſader.

Fullgiordum Himne, Heim, og hveriu ſem er i þeim, hvijldeſt þu, HErra blijde, hætter vid þad Stoor-Smijde.

Enn þvi ſem adur er ſagt, ollu helldur vid Magt, Forſioon þijn fyrr og ſijdar, fram til eilijfrar Tijdar.

Eins ſem þu giorder allt, eins fyrer þig giorvallt, hialpaſt, vidhellDſt og varer, Verolld þijn Giædſka ſparer.

Lof, Dijrd og Þock ſie þier, þinn Lijke hverge er, þu ert ſaa ollum geſur, og eckert þeiged heſur.

Þu ert ſaa, hvert eitt Holld, um̃ Haſed, Lopt og Folld, helldur med goodum Giædum, geſur Bleſſan af Hædum.

So ſkal nu alldrei eg, efa þad nockurn Veg, ad mier þu Fooſtur faaer, fyrer Lijfs Naudþurft ſmaer.

Enn laat mig minnaſt hitt, ad misbrwka ei Laan þitt, til Sialfrædes og Synda, ſem gyrneſt Hollded blinda.

Helldur audmijkia mig, ſem meſt; Enn prijſa þig, ſo ei mitt Oþacklæte, Orleika þijnum mæte.

Erugyrnd, Aud og Seim, ellegar þennann Heim,

Heim, lát þu mig lijted sækia, langtum helldur þig rækia.

Hiegoome allt þad er, og Skugge sem burt fer, eintoomes Eymd og Mæde, i Bloma þegar stæde.

Enn hver sem JEsum a, alls Nægter hefur sia, þarf eige Þrautum kvijda, þo nockud verdead lijda.

Fra aumre Sorg og Synt, svipta mun hann heim vt, giorvallann Grát af-þerra, Glede sijst lata þverra.

O Gud! unn mier þijns Lids, ad gefe nog til Frids, uppa þad ofur-hœla, ecke stunde mijn Saala.

Bid eg þijn blessud Nad, bevare allt mitt Rad, i Dag, so engenn Vande, ellegar Haske grande.

Ad skiedur Ovin minn, olldunges Vilia sinn, uppfylldann ecke siae, ofmiog so glediast nae.

Synd mijna mier tilgef, med hverre eg þig hef, moodgad a marga Vega, mig angrar þad Soorlega.

Þvenn i langre Pijn, leita eg, O Drottenn, þijn, Hvijld laat mig hia þier finna, og Huggun Eymda minna.

Þar Hriggd og Hormung slær, HErra! statt ecke fiær, hæg þu þa Meinum minum, med Nad og Krapte þijnum.

Enn þegar Wesen dvijn, un mier ad koma til þijn.

Þijn, Hvijldardag laat mig hallda, hiа Þier um Allder Allda.

Lijkama, Lijf og Ønd, legg eg i Þijna Hønd, Erigell Þinn ad mier giæte, eingu so vondu mæte.

Heidur og hærst Lofgiørd, a Himne bæde og Jørd, Fader vor, sie Þier framenn, fyrer JEsum Christum; Amen.

## Kvølld Psalmurenn.

Ton, Hef eg mig nu i Hvijlu mijn.

NU vil eg hefia Hug til Þijn, Himna Faderenn sæte, ad Þier nu fære Onden mijn, audmiwkt Hiartans Packlæte, sem gott Kvølld-Offur gyllde Þad, goode JEsu, Þijn niooteeg ad, so saumur Mystur mæte.

Eg veit Þad engenn wtskijrt fær, alldeiles Velgsemd Þijna, eingu ad sijdur eigum vær, alldreie lata dwijna, ad prijsa Þig af mesta Maatt, mikla Þa Giædsku Dag og Nætt, sem Þu virdest oss sijna.

Einkanlega Þad aumum Heim, wtgafst Þinn Sonenn blijda, so ei fortapest einn af Þeim, er Nadar-Bodum hlijda, setiande Trw og Traust a hann, sem til vors Frelses Þola vann, Kvaler og Kvergan strijda.

Þesse Nead meire ødru er, af Þvi vier hennar niootum, annars Heims bæde og so hier, i Þvi gooda sem hliootum, eckert helldur oss annad vid, alla Næd, Blessan, Heill og Frid, ætijd vier af

oss brioottum.

Þar fyrer goode Gud þijn Naad, giorer enn þad alleina, ad ei hefur þu oss asmaad, engenn skyllde þvi leyna: HErra! gef vid Polgiæde þitt, Prioottkunne sleppe Hiartad mitt, og giore Pdran hreina.

Nettlaate Gud ei ressa mier, rangslætum Præl i Bræde, minnstu þad Folldar Fis eg er, fegurst þo Lijfed stæde. Eg reide uppa einganñ mig, O minñ Skapare! nema þig, siaa til hvert satt eg ræde.

Nær eg þig hefe næger mier; Nu, hverju skal eg kvijda? Trwfeste þinnar Elsku er, ecke sem Helmsens Blijda, hun bilar þegar þarf sem mest; Þiñ Wande er ad duga best, þijnum, nær Þraut er lijda.

Þvi ertu, Saal mijn, Orooleg, ervidt þo sijnest veita? aa DRottenn vil ad vijsu eg, vona, og til hanns leita, hann sier og proofar Hiartad mitt; Hafe Mennerner Allt sitt, þvi skal eg lijted skeita.

Allt þad stundlega Enda fær, eins Neyd og Lijfsens Mæte, ei veit nær dapur Daudenn slær, Dreyssugum þar wr Sæte, hiñ Vesæle og vænta maa, Volædenu ad leysast fraa: Hver þessa giorla giæte.

DRottenn minn Gud, eg þacka þier, þitt Lof vil eg wtbreida, ad þu myskunar ætijd mier, er Vondsku drijge leida, af Mootstandara miña Hend, mijnu hiaalpader Lijfe og Ond, so eckert

Mætte

mœrtte meida.

Hiaalpa mier þannig HErra minn, hiedañ af einnig lijka, laat alldrei goodann Engel þiñ, upp hiedann fra mier vijkia, þegar gengur að moote mest, mig styrkie þa og hugge best, Gud minn, þijn Giædskan rijka.

So veit mier nu ad sofa vœll, og sœtt i goodum Naadum, Vernd þijn geyme mig vel i Noott, vid Satans Skemdar-Naadum, ollu illu mig frelsa fraa, Fridar Bod þitt laat Soolun faa, morgskonar Þijngslum þiaadum.

Þiœningu Lijfs og Þrautum mijn, til Þarfa vindst ad snwa, þad er ei annars utann Þijn, ablande Mœdu og Lwa, forgefins er þad viñum vier, vilier þu ecke blessa hier, til þijn eins er ad flwa.

Allra sijdarst vœr Æfen dvijn, Armœdan gioerer þverra, leid mig i Fride þaa til þijn, þu goode Lijfsens HErra, Gnoogt Fagnadarens gef mier þar, Glede og Hvijld til Eilijfdar, Sorgar-Taar se afþerra.

Hœrste Fader, þig heidrum vier, og Hiartans Son þinn kiæra, heilage Ande, einnig þier, æd-sta Lof skulum fœra, allt þad sem hefur Andardraatt, undertake og sege þraatt: Einum Gude sie Æra. A M E N.

Morg-

## Morgun Psalmur. (Sr. D. G. S.)

Ton, Hug minn hef eg til þijn.

Gud gefe oss goodann Dag, so gange allt i Hag, Giædsku þiñe sem gediast best, og Gagn vort eykur mest.

Stioorn þijn oss stidie avallt, Starf vort þu blessa allt, vondt a moot fra oss vijke burt, i Vort fare Dygd og Kurt.

Greide vorn Gang og Veg, Giædskan þijn kroptugleg, Follum og Slisum fra oss vend, Frid þinn og Naad oss send.

Christur minn JEsu kiær, Kvittunen mijn frabær, Uppgiøf Synda og Frelse fa, Fodur mier þijnum hia.

Prestsdæme priisa eg þitt, Piisl þijn er Frid-Kaup mitt, Framestada og Fyrerboon þijn, fulltrw er Hialpen mijn.

Laat mig ei flasa fram, Harlega i Synd og Skam, greidest þar øll til Gangan mijn, ad, Gud, Bod hallde eg þijn.

Dags-Piijlum Diofuls hier, DRottenn minn, forda mier, sem hann mig Otal setur a, sijdst ma eg vid þeim sia.

Bein-Brot og banvæn Foll, bid eg þau fra mier øll, Brada-Soott, Ede og deprum Deyd, DRottenn mig fram hia leid.

Hett

Heilagur Ande hijr, Hiartans Stafnbwe dijr, bw þu þier Bygd i Briooste mier, bijd eg heim til mijn þier.

Margt kann nu mijnum Hag, meinsamt til-falla i Dag, moote þvi ølln sierhvert Siñ, siert þu Gud Skioldur minn.

Sijdann þaa sofa skal Hollð, sæker mig heim mitt Kvøllð, skylldugann þier uñ Þock mig tel, þvi þu mijn geymt hefur vel.

Hæst Lof med hreinne Lund, uñ Haudur og Veralldar Grund, særeft þier Gud minn fræg-ur og trwr. Frelsa mig Raunum wr!

## Kvøllð Psalmur. (Sr. O. G. S.)

Med. sama Lag.

LIJT upp mijn liwfa Ønd, lijt upp og giæt ad þier, lijt upp þvi lideñ er Lijfsens Stund, lijt hætt hvad komed er.

Ihuga ecke treg, Illsku sem framder þu, aa Glötunar breidum geckstu Veg, giæt þijn og aptur snw.

Sioa þu ad sialfañ Gud, saarlega stiggdum vid, uñvafenn er þvi Eymd og Neyd, Andar forbraut eg Frid.

Skijrnar Klæded so skiært, Skapareñ prijdde þig; giort hefur þad nu Synden svart, saart vill þad mæda mig.

Einnig athuga þad, aumlega marger Menn, hrapader munu i Heliar-Bad, helldur þu Lijfi eñ.

Af þessum Þancka þu, þeckta fær DRottens Nad, eige til Skamar ertu nu, allt eins og þeir afmad.

Mijn Sæal, þar minnstu a, minstu þess sege eg eñ: Su Hiord mun verda fundeñ fra, sem fer i Himeneñ.

Glatadra Grinda-Pijn, glooande Kvala-Kveln, hugleid þu soddann, Sæala mijn, og siaa vid Voda heim.

Ydrunar Merked mætt, mijn Sæalen taktu fyrr, ædur eñ aptur loka lætur, Lausnareñ Himna Dyr.

Eins og a Dooma-Dag, fyrer DRottne standa ætt, so bid eg Þijnum breyter Hag, sem best og mest þu mætt.

Þesse mijn Stund for-stytt, strax Ódt i burtu fer, fallvallt er Lasta Lijfed mitt, lijdur þa minst varer.

Upplypte eg Augum mijn, af instu Hiartans Root, heilage Fader, helldst til þijn, hiælp mier ad vinna a Boot.

Heyr og minn Hiartans Græat, minn HErra JEsu Christ! Andlited þitt mier lijsa læat, a Lijfsens Veg sem fyrst.

Kom Herra! Kom nu stiær, kom nu og legg mier Lid, kom, þvi Stunden mijn nu er nær, Nad veit og Hvijldar-Frid.

Værdar skal Vaggan þier, veglega tilbwen, heidurleg prijdd i Hiarta mier, hvijl þar Unn-

uſte minn.

Sonn Ydran Synda mijn, Sáalar Brwdgume minn, virduleg Sængen vere þijn, Vegſemdar Unnuſtinn.

Under-Bod Yferboot, æ ſkal aa alla Grein, Svæfillenn ſkal Audmijkten flioot, yferløgd Trwen hrein.

Elſkunnar eſſt eg vil, Aklæded vanda beſt, Bæn med Þacklætes Aſtar Yl, eg hef ſo Fadmløg feſt.

Klaar føgur roome Rauſt, rooſamt ad ſofner þu, med Lyſtum klynge Lofgiord trauſt, linne alldreie ſw.

Horfed er Hugar-Strijd, herbergiad fæ eg þig, furdu eru þijn Fadmløg frijd, frida þau allann mig.

Medañ eg mædeſt hier, i Mootgaangs Hreckia Hrijd, leidſegdu jafnann liwfur mier, Lauſnarenn alla Tijd.

Mitt þegar Maaled þver, milldaſte Hyrder minn, bid eg þaa tale i Briooſte mier, bleſſadur Ande þinn.

Vere æ Vernden mijn, volldugа Nafned þitt, einkannlega þaa Æfen dvijn, wthlauped Skeid hefmitt.

Þier, Fader, i Fridar Hond, fel eg nu Anda miñ, leyſt hefur þu mijn Laſta-Bond, [illegible] mig Himeninn.

Herra gef Hvijld og Roo, Hollded mitt ødleſt

lest þa, Ondena laat A l p h a og O, ætijd þier lifa hia.

Laat mig a Lijfsens Veg, lioma allt eins og Sool, so sama G l o r i a synge eg, fyrer sign uduim Lambsens Stool.

Fyrer Nadar Nafned þitt, nu bid eg, heyt þu mig, ad þier tak Aſtar Offred mitt, Amen, so lofe eg þig.

## Bænar Vers til Alyktunar.
(Sr. M. E. S.)

Ton, Um̃ Dauðann gef þu Drottenn mier.

HErrN Gud! Eg veit ad mier eitt Sinn, simune ásett ad deya, enn nær Lijfs kemur Enderinn, eingenn kann fra ad segia, þu goode Fader, þad er vijst, þinne Alvitsku hulid sijdst, hvad leinge hier skal þreya.

Þier mijn sijdarsta ef þesse Stund, þecknast ad vera fyllde, eg er tilreidu a alla Lund, Elsku Faderenn millde, ad lifa og bregda Lijfsens Vist, i lifande Trw a JEsum Christ, so ef þu siaalfur villder.

Blessade Gud! Eg beide þig, og bliwgu med Hiarta kalla: Oforvarandes yfer mig, ecke laat Daudann falla, so ad ei deye Syndum i, og Saalar Fordiorfun bijde af þvi, sijdann um̃ Eilijfd alla.

Veittu eg þecke Broten blind, og blygdast

fyrer þau mege, grææte og hate giörda Synd, gleymast læt slijkt alldreie, so ad hun fyrer Siooner mier, setiest ecke þa Tijmenn þver, æ hinum effsta Dege.

Gef mier Ydrunar Gyrnd og Frest, Geda uißbreittu mijnu, so ad Hugganen bijtest best, af blessudu Orde þijnu, og Fyrergefning fææ þa, ferlegum Synda Brotum æ, enn hitte ei Hefnd og Pijnu.

Þinn blessada Anda, bid eg þig, burt-tak fræ mier alldreie, yfergef helldur ecke mig, æ mijnum Tæara-Vege. Mitt Hiarta bæde og Hiartans Traust, hiartkiære Fader, efalaust, þier er Okunnugt eige.

Lættu mig deya, þægur þæ, þinn hier Vilie til stendur, sætt og roolega, enn sie eg fræ, Syndum ollum frij-keñdur; Sijdarsta verde Munnsenns Mæal: Medtak O JESU! leysta Sæal, i þijnar Hiælpar Hendur. A M E N.

# Registur.

## A.



## B



## D



## E.

Guid

Med

Pila

Til